# KVÖLDVÖKURNAR

# 1 7 9 4.

Samanteknar af

Dr. **Hannesi Finnssyni.**

## SÍÐARI PARTUR.

Önnur útgáfa.

**Reykjavík, 1848.**

Prentaðar á kostnað prentsmiðju landsins,
af H. Helgasyni.

## YFIRLIT EFNISINS.

## I. SAGAN AF FARSÆL OG LÁNLEYSÍNG.

Einusinni var drottníng, sem ól tvö sveinbörn dáfríð. Valva nokkur, sem henni var mjög vinveitt, var beðin að vera við þá börnunum voru gefin nöfn, og mæla gott um fyrir þeim. Jeg mæli um fyrir þeim eldra, sagði hún, að allskonar ógæfa steðji að honum, þar til hann hefur fimm um tvítugt, og hann skal heita Lánleysíngur. Þegar drottníngin heyrði þetta, hljóðaði hún uppyfir sig, og sárbeiddi völvuna, að taka aptur þessi ummæli. Þjer vitið ekki hvers þjer biðjið, svaraði hún, verði hann ei ólángefinn, þá verður hann vondur. Drottníngin þorði ekki meira að tala, en beiddi völvuna að lofa sjer að ráða ummælum fyrir seinna syninum. Þjer mælið, ef til vill, það um sem vest gegnir, svaraðí valvan, en það verður svo að vera, jeg skal gefa yður það, sem þjer óskið handa honum. Jeg óska, sagði drottníng, að honum takist ætíð allt hvað hann vill gjöra, og þá veit jeg hann verður fullkominn. Skeð getur að yður yfirsjáist i því, sagði valvan, en ekki læt eg yðar ummæli gylda leingur enn í tuttugu og fimm ár.

Báðum konúngs sonum voru feingnar fóstrur, en strax á þriðja degi varð fóstra þess eldra sjúk,

hann fjekk aðra, í henni brotnaði lærleggurinn af biltu, hjá hinni þriðju þverraði mjólk, þegar er hún lagði Lánleysíng konúngsson sjer á brjóst, og þar fregn sú barst út, að sitt slisið vildi hverri fóstrunni til, sem tæki konúngsson þenna að sjer, vildi eingin síðan fóstra hann, eða koma nærri honum. Barnskepnan hljóðaði af sulti, samt aumkaðist einginn yfir það. Bóndakona, sem sjálf átti mörg börn, er hún gat naumast haldið lífinu í vegna fátæktar, bauð sig til að taka konúngsson, ef hún feingi mikla meðgjöf með honum, og þar eð konúngur og drottníng elskuðu ekki Lánleysíng, en gátu vel sjeð af honum, feingu þau hann fóstrunni í hönd, og skipuðu henni að flytja hann í þorp sitt. Sá ýngri konúngsson, er hjet Farsæll, óx og vel dafnaði; foreldrar hans elskuðu hann eins og sinn augastein, en hugsuðu ekki svo mikið sem einusinni til hins eldra. Fyr var ei sú vonda kona, sem hafði tekið við Lánleysíng, heim komin, en hún reif af honum allt skartið, sem á honum var, og ljet það á einn sona sinna, sem var á aldur við Lánleysíng, en vafði konúngsson aptur í vonda flík, bar hann út í skóginn, sem var fullur af grimmum dýrum og ljet hann þar í holu sjá þremur ljóns-hvolpum, svo þeir ætu hann upp. En móðir þessara ljóns-únga gjörði honum ekkert illt, þvert á mót ljet hún hann sjúga sig, hvar af hann varð svo sterkur, að hann gekk einnsaman missiris gamall. Á þeim tíma dó sonur fóstrunnar, sem hún hafði látið vera í stað konúngssonar, og þótti bæði konúngi og drottníngu vænt um að þau voru laus við hann. Lánleysíngur var í skóginum þar til hann var tvævetur, þá sá einn höfðingi frá konúngshirðinni hann, og undraðist að hitta barn eitt meðal villudýra. Hann aumkaðist yfir það, flutti það heim til sín, og þá hann heyrði, að verið var að

spyrjast fyrir um barn, sem vera skyldi Farsæl til skemtunar, bauð hann drottníngunni Lánleysíng til þess. Farsæli var feinginn lærimeistari, er skyldi kenna honum að lesa, en lærimeistaranum var skipað að láta ei konúngssoninn gráta. Hann hafði sjálfur heyrt þetta, og fór þess vegna að gráta strax, sem bókin var tekin, svo þegar hann var fimm vetra, þekkti hann ekki bókstafina. Lánleysíngur var þá orðinn vel lesandi og farinn að skrifa. Til að koma hræðslu að konúngssyni, var lærimeistaranum skipað að strýkja hann Lánleysíng í hvert sinn, sem Farsæli yrði eitthvað á, svo hversu sem Lánleysíngur bar sig að vera skikkanlegur, var hann þó barinn; en Farsæll var svo uppvöðslumikill og vondur, að hann fór sífeldlega ílla með bróður sinn, hvern hann þekkti eigi. Væri Lánleysíngi gefið epli, eða skopp arakríngla, þá hrifsaði Farsæll það út úr höndunum á honum. Hann ljet hann þegja þegar hann vildi tala, og neyddi hann til að tala, þegar hann vildi þegja; í einu orði: Lánleysíngur var rjettur píslarvottur, sem einginn aumkaðist yfir. Þeir bræður lifðu þannig þar til þeir voru tíu vetra, og drottníngin undraðist stórlega yfir hvað fákunnandi sonur hennar var. Valvan hefur svikið mig, sagði hún, jeg hugsaði að sonur minn mundi verða sá lærðasti allra konúngborinna manna, því jeg óskaði að honum skyldi heppnast allt, sem hann vildi taka sjer fyrir að gjöra. Hún fór til völvunnar að spyrja hana hvernig þessu væri háttað, en hún svaraði henni, þjer áttuð að óska syni yðar að fá góðan vilja lángtum heldur enn gáfurnar. Hann vill ekki vera annað enn mjög vondur, og það heppnast honum ágætlega vel, eins og þjer sjálfar sjáið. Eptir að hún hafði talað þetta, snjeri hún bakinu að drottníngu og fór burt, en drottníng snjeri mjög sorgbit-

in heim aptur til hallar sinnar. Hún ætlaði að ávíta Farsæl, svo hann sæi að sjer, en í staðinn fyrir að lofa bót og betran, sagði hann henni, að ef hún talaði nokkuð sjer óþægilegt orð, skyldi hann ekkert borða, svo hann dæi af húngri. Drottníng varð af þessu lafhrædd, tók hann upp í kjöltu sína, kyssti hann, gaf honum sætabrauð, og lofaði að hann skyldi ekkert læra í viku, ef hann borðaði eins og hann væri vanur. Lánleysíngur var nú orðinn allra barna afbragð bæði að framförum í kunnáttu og gjeðlempni; hann hafði svo vanist við mótmæli, að hann hafði eingan vilja, og hann stundaði að verða fyrri til að gjöra Farsæl allt til þóknunar, enn hinn gat bendt til þess. En það ýskraði í því vondsku barni, að sjá að hann var í öllu betur að sjer enn það, gat því ekki með nokkru móti liðið hann, og lærimeistararnir voru síféldlega að berja hann Lánleysíng til að þóknast konúngssyninum. Loksins sagði þetta vondsku barn drottníngunni, að hann gæti ei litið Lánleysíng leingur með augunum, og hann ætlaði ekki fyr að borða, enn búið væri að reka hann út af slotinu. Þar var Lánleysíngur á hjarni, og einginn vildi skjóta skjólshúsi yfir hann, til að styggja ei konúngssoninn þar með. Hann lá um nóttina undir eik nokkurri, var nærri króknaður af kulda, því þetta var um veturinn, og hafði ekkert til matar um kvöldið nema einn brauðbita, sem einhver af meðaumkun hafði rjett að honum. Um morguninn eptir sagði hann með sjálfum sjer: ekki tjáir mjer að vera hjer kyr og gjöra ekki neitt; jeg skal vinna til að fá mjer uppeldi, þángað til jeg verð svo stór, að jeg get farið í stríð. Jeg man til þess, að jeg hef lesið í sögunum, að sljettir og rjettir stríðsmenn hafa orðið hershöfðíngjar, hver veit nema sú lukka eigi fyrir mjer að liggja ef jeg

er skikkanlegur, jeg á hvorki föður nje móður, en guð er faðir föðurlausra, hann ljet ljón verða mjer að fóstru, hann mun ekki yfirgefa mig. Eptir að hann hafði þetta mælt, reis hann upp og las bænir sínar, því hann ljet aldrei hjálíða kvöld eða komandi morgun að biðja guð sjer til hjálpar, og var vanur á meðan að láta aptur augun, spenna greipar, og líta hvorki til hægri nje vinstri handar. Bónda nokkurn bar þar að, hann sá hvernig Lánleysíngur bað til guðs af öllu hjarta, og sagði með sjálfum sjer: jeg er viss um, að piltur þessi má vera skikkanlegt barn, jeg er sáttur með að taka hann fyrir smaladreing, guð mun blessa mig hans vegna. Bóndinn beið þar til Lánleysíngur hafði endað bænir sínar, og sagdi þá til hans: piltur minn! villtú verða smaladreingur hjá mjer, þá skal jeg fæða þig og annast? Það vil jeg gjarnan svaraði Lánleysíngur, og jeg skal gjöra svo vel sem jeg get. Bóndi þessi var auðugur maður, sem hafði mikið umleikis, og hjelt margt fólk, sem, eins og konan og börnin, opt stálu frá honum. Þegar þau sáu Lánleysíng, líkaði þeim vel; hann er barn, sögðu þau, hann skal gjöra hvað sem við viljum. Einusinni sagði konan við hann: dreingur minn! maðurinn minn er nápína, sem aldrei fær mjer neina peninga í höndur; láttu mig fá eina kind, og segðu dýrið hafi bitið hana. Húsmóðir góð! svaraði Lánleysíngur: jeg vildi af öllu mínu hjarta vera yður til vilja, en jeg vil heldur deyja enn ljúga og vera þjófur. Þú ert heimskíngi, svaraði konan; einginn skal fá að vita þó þú gjörir það. Guð fær að vita það, svaraði Lánleysíngur, hann sjer allt hvað við höfumst að, hann refsar bæði þeim, sem ljúga og stela. Þegar bóndakonan heyrði þetta, flaug hún á hann, gaf honum snoppúng og hártogaði hann. Lánleysíngur fór að gráta, bóndinn

sem heyrði það spurði konu sína, hvar fyrir hún berði barnið? hann fer uppá allt sem ætt er, svaraði hún, jeg sá í morgun að hann var að veiða ofan af troginu rjómann, sem jeg ætlaði að selja á torginu. Æ! það er ljótt að vera búrsnati, svaraði bóndinn, kallaði á einn vinnumanninn og skipaði honum að strýkja Lánleysíng. Það hjálpaði ekki, að hann sagðist ekki hafa snert rjómann, henni húsmóður hans var betur trúað enn honum. Síðan fór hann út í haga með kindum sínum. Bóndakonan sagði til hans: nú! láttú mig þegar í stað fá einn sauð! jeg á bágt, svaraði Lánleysíngur, þjer eigið alls kosti að gjöra við mig, hvað þjer viljið, en þjer skuluð samt aldrei fá mig til að ljúga eða stela. Þessi ókind fjekk alla á bænum til að vera vonda við hann, svo hún gæti hefnt sín. Hann var úti í haganum yfir fjenu nótt og dag, en í staðinn fyrir að gjefa honum mat eins og öðru vinnufólkinu, fjekk hann ekki nema ruður og skol, og þegar hann var heima, bar hún uppá hann allt það íllt, sem viðbar á heimilinu. Hann var tvö ár hjá þessum bónda, og þó hann lægi á beru gólfi, og hefði íllt fæði, þroskaðist hann samt svo vel, að allir hjeldu hann fimtán vetra, jafnvel þó hann væri ei eldri enn tólf ára; að öðru leyti var hann orðinn svo þolinmóður, að hann setti ekki á sig þó hann væri ávítaður að saklausu. Einusinni þá hann var sendur til landsdrottins hússbónda síns, heyrði hann, að konúngur nokkur þar skamt frá væri að búa sig til stríðs; hann beiddi þá hússbónda sinn fararleyfis, og fór fótgángandi til áður umgetins konúngs, til að fá að verða stríðsmaður. Hann gekk á mála hjá hundraðshöfðíngja nokkrum, sem var í mestu höfðíngja röð, en var siðaður eins og bófi. Hann blótaði, barði stríðsmennina, stal frá þeim helmíngi af málanum, sem konúngur gaf þeim til fæð-

is og klæða, og hjá þessum hundraðshöfðíngja átti Lánleysíngur lángtum verra enn hjá bóndanum. Hann hafði geingið á mála uppá tíu ár, og jafnvel þó hann sæi, að flestir lagsmenn sínir stryki, vildi hann samt ei fylgja þeirra dæmi, því sagði hann, jeg hef tekið móti peníngum að þjóna í stríði tíu ár, svo jeg stæli frá konúnginum, ef jeg hjeldi ekki orð mín. Þó nú hundraðshöfðínginn væri íllmenni, og færi eins ílla með Lánleysíng og aðra, varð hundraðshöfðínginn þó að virða hann í hjarta sínu, því hann sá, að hann gjörði ætíð hvað skylda hans var. Hann fjekk honum opt í hendur penínga til sinna erindagjörða, og trúði honum fyrir lyklum til herbergja sinna, þegar hann annaðhvort ferðaðist út á landsbygðina, eða var að veizlum hjá vinum sínum. Hundraðshöfðíngi þessi leit aldrei í bók, en hann átti samt fjölda af góðum bókum, svo að þeir, sem sóktu hann heim, skyldu halda hann væri lærður maður, því í þeim löndum var það manna meiníng, að sá hershöfðíngi, sem ekki hefði yðkað sig í sagnafræði, yrði aldrei nema heimskíngi og fáfræðingur. Þegar Lánleysíngur var búinn að ljúka af verki sínu, sem stríðsmanni bar af hendi að leysa, drakk hann ei nje spilaði með lagsmönnum sínum, heldur læsti sig inn í herbergjum hundraðshöfðíngjans, og lagði sig eptir þar að læra stríðshernaðar íþróttina, með því að lesa nafnfrægra hershöfðíngja lífssögur, svo hann fjekk gott skynbragð á að stjórna her og heyja stríð. Hann hafði verið sjö ár stríðsmaður, áður hann skyldi gánga í bardaga. Hundraðshöfðíngi hans tók með sjer sex stríðsmenn, meðal hverra Lánleysíngur var einn, til að njósna í skógi nokkrum. Stríðsmennirnir fóru að ráðgast um í hljóði, að drepa íllmenni þetta, sem aldrei ljeti linna á höggum og slögum, og þar til stæli brauðinu út úr

munninum á þeim. Lánleysíngur sagði þeim, þeir skyldu ei svo vont verk gjöra, en í staðinn fyrir að láta að orðum hans, sögðust þeir skyldu drepa hann með hundraðshöfðíngjanum, ef hann vildi ei hverfa að einu ráði með þeim, og strax brugðu sverðum allir fimm. Lánleysíngur hljóp hundraðshöfðíngjanum til varnar, og barðist svo karlmannlega, að hann einn lagði fjóra af stríðsmönnunum að velli. Þá hundraðshöfðínginn sá, að hann átti honum líf sitt að launa, beiddi hann Lánleysíng fyrirgefníngar á öllu því ílla, er hann hafði gjört honum, og sagði konúnginum frá öllu, sem skeð hafði, er strax gjörði Lánleysíng að hundraðshöfðíngja, og gaf honum mikið árlegt kaup.

Lánleysíngur var ei þessháttar maður, að stríðsmenn hans hefðu viljað sitja um líf hans; því hann elskaði þá eins og sín eigin börn, og lángt frá að vilja draga af þeim það, sem þeir áttu, gaf hann þeim opt af sínum eigin peníngum, þegar þeir gjörðu sína skyldu. Hann annaðist þá, þegar þeir voru særðir, og straffaði þá aldrei af því ílla lægi á honum. Eptir þetta sló í mikinn bardaga, hershöfðínginn fjell, og allur herinn komst á flótta. Þá hrópaði Lánleysíngur hátt: að hann vildi heldur deyja með æru enn flýja með skömm. Liðsmenn hans hrópuðu aptur á mót: að þeir skyldu aldrei við hann skilja, og þeirra góða eptirdæmi kom hinum til að blygðast, svo þeir söfnuðust allir kríngum Lánleysíng, og börðust þá svo kallmannlega, að þeir tóku son konúngs óvinanna til fánga. Konúnginum þótti vænt um, þá hann heyrði að hann hafði unnið þenna sigur, og gjörði Lánleysíng að æðsta hershöfðíngja yfir liðinu. Kóngurinn sýndi hann drottníngunni og dóttur sinni, en þá Lánleysíngur sá konúngsdóttur, fjekk hann strax elsku til hennar, því hún var dáfríð, en þá byrjaðist

kvöl hans fyrir alvöru, því honum stóð fyrir hugskotssjónum, að hann væri ei borinn til að eignast neina konúngsdóttur. Hann einsetti sjer þess vegna, að láta ekkert á sinni elsku til hennar bera, og þó hafði hann dag hvern mestu pínu að útstanda, samt tók það yfir, þegar hann heyrði, að Farsæll konúngsson hefði sjeð Gullvöru, svo hjet konúngsdóttirin, afmálaða, hefði þá feingið elsku til hennar, og sendt sendiboða til að biðja sjer hennar til eiginkonu. Lánleysíngur var þá nærri dauður af hugarángri, en Gullvör konúngsdóttir vissi að Farsæll konúngs son var dáðlaus og íllmenni, sárbeiddi þess vegna föður sinn, að neyða sig ei til að eiga hann, svo sendiboðarnir feingu það svar, að konúngsdóttirin vildi ei svo fljótt giptast. Farsæll varð eins og vitstola af bræði þá hann fjekk þetta konúngsdótturinnar svar að heyra, því hann hafði aldrei reynt nein mótmæli á æfi sinni, faðir hans, sem um ekkert gat neitað honum, bjó sig þegar til stríðs móti föður hennar Gullvarar, en þessi varð ekk forviða við það, því, sagði hann, meðan hann Lánleysíngur er hershöfðíngi minn, kvíði jeg ekki fyrir neinu stríði. Hann kallaði þá á þenna sinn hershöfðíngja, og skipaði honum að búa sig til stríðs; en Lánleysíngur kastaði sjer fram fyrir fætur honum og sagði: hann væri borinn og barnfæddur í konúngsríki föður hans Farsæls, svo hann ei mætti bera herskjöld móti sínum eigin konúngi. Faðir hennar Gullvarar varð mjög reiður, og hótaði Lánleysíng að láta drepa hann, ef hann vildi ekki hlýða, en þar á mót skyldi hann fá dóttur sína að konfángi, ef hann gæti sigrast á Farsæl. Hinn aumkunarverði Lánleysíngur, sem elskaði Gullvöru meira enn lífið í sjer, var hjer í stórri freistni, en loksins var hann staðráðinn í, að víkja ekkert frá skyldu sinni, heldur án þess að svara konúnginum

einu orði, skyldi bæði við metorð og öll sín auðæfi. Farsæll hafði nú dregið saman óvígan her, og ferðaðist til stríðsins, en að fjórum dögum liðnum varð hann sjúkur af þreytu, því hann hafði aldrei lagt neitt á sig, svo hann þoldi hvorki heitt nje kaldt. Sendiboðinn, sem hans vegna hafði farið bónorðsförina til hennar Gullvarar, hafði, til að koma sjer í mjúkinn hjá Farsæl, sagt honum, að hann hefði í hirð konúngsins föður hennar sjeð dreing þann, er Farsæll hefði forðum frá sjer rekið, og sjer hefði verið sagt, að faðir Gullvarar hefði lofað dreingnum dóttur sinni til ekta. Þetta æsti enn meir upp reiði-eld Farsæls, því fór hann strax og honum var batnað enn leingra fram með herinn, til að reka föður Gullvarar frá ríkjum og löndum, og undir eins lofaði hann hverjum þeim ærnu gjaldi, er sjer seldi Lánleysíng í höndur lífs eður dauðan. Farsæll vann hvern sigurinn eptir annan, þó aldrei væri hann sjálfur í neinum bardaga, því hann var hræddur hann mundi lífinu týna, og loksins átti hann ei annað eptir enn vinna höfuðborgina, hverja hann ætlaði þá að inntaka með að stíga yfir múrana, og síðan drepa hvert mannsbarn er í borginni væri. Daginn áður enn þetta skyldi framkvæmast, var Lánleysíngur honum færður í fjötrum og sterkum járnhlekkjum, því fjöldi fólks hafði farið að leita hann upp, þegar heyrum var kunnugt orðið hversu mikið í boði væri, hver sem hann gæti til fánga tekið. Farsæl var þetta stærsta gleði að hann gæti hefnt sín, og ætlaði að láta hálshöggva Lánleysíng áður enn síðasta áhlaup væri gjört að borginni. Sama dag hjelt Farsæll konúngsson stórveitslu öllum þeim æðstu mönnum í liði sínu, því þá var afmælisdagur hans, er hann hafði fimm um tvítugt. Þegar stríðsmennirnir, sem voru inni í borginni, feingu að heyra, að Lánleysíngur var til fánga

tekinn, og ekki væri nema ein klukkustund þángað til taka ætti af honum höfuðið, ásettu þeir sjer að frelsa hann, ellegar deyja að öðrum kosti, því þeir minntust alls þess góða, sem hann hafði gjört þeim, meðan hann var hershöfðíngi þeirra. Beiddu þeir nú konúng sinn um leyfi, að meiga fara út úr borginni til bardaga, og í það eina sinn voru þeir sigursælir. Sú gáfa, sem Farsæl hafði verið ljent, var þá horfin, hann snjeri á flótta í bardaganum og var drepinn.

Þá stríðsmennirnir höfðu unnið sigur, hlupu þeir til Lánleysings, og tóku hann úr fjötrum, en í því sáu menn tvo glæsilega vagna koma, og í þeim völvuna og foreldra Lánleysíngs; síðan sýndi valvan drottníngunni hann Lánleysíng, og sagði henni: þessi hetja er eldri sonur yðar, sú óhamíngja, sem honum hefur fylgt, hefur leiðrjett hans sinnisbresti, þar hann var að geðslagi bráðgeðja, ofsafullur og framhleypinn. Farsæll aptur ámót var góðmenni af náttúrunni, en varð íllmenni af óhóflegu eptirlæti, og guð hefur ekki viljað leyfa, að hann skyldi lifa leingur, því hans vondska vóx dag frá degi. Hann missti lífið áðan; en til að hugga yður eptir dauða hans, þá vitið, að hann hafði fyrir stafni að setja föður sinn af konúngs tígninni, því honum leiddist að hann varð ekki sjálfur konúngur. Konúngur og drottníng urðu hissa af öllu þessu, en tóku Lánleysíng með mestu blíðu sjer í faðm, því þau höfðu heyrt margt gott sagt frá honum.

Gullvör konúngsdóttir og faðir hennar urðu glöð af að heyra hvernig lukkan hafði skipt með þeim bræðrunum. Lánleysíngur ektaði Gullvöru, lifðu þau saman leingi og vel, og kepptist hvert við annað í mannkostum, dygðum, og láta sem bezt af sjer leiða við alla.

## II. ÓSKIRNAR.

Einusinni var maður nokkur ekki allríkur, hann gipti sig og átti fríða konu. Á kvöldi einu um veturinn sátu þau við eldinn og voru að tala um: hvað sælir nágrannar þeirra væru, sem auðugri voru enn þau. Ó! ef í mínu valdi stæði að fá hvað sem jeg vildi óska, sagði konan, þá skyldi jeg verða sælli enn þeir allir. Og jeg líka, sagði maðurinn; jeg vildi jeg hefði lifað á þeim tímum, sem huldufólkið var á ferð, og einhver af því hefði þá viljað lofa mjer að hitta á óskastundina. Í því sama sáu þau hjá sjer standandi fríða konu, sem sagði til þeirra: jeg er ein af huldufólkinu, og jeg lofa ykkur að gefa ykkur þá þrjá fyrstu hluti, sem þið óskið, en varið ykkur, því eptir að þið eruð búin að óska þriggja hluta, gef jeg ykkur ekkert meira. Eptir það hvarf huldukonan, og hjónin þóttust nú í miklum vanda stödd. Fyrir mitt leyti, sagði konan, ef jeg mætti ráða, veit jeg hvers jeg skyldi óska: jeg óska einkis enn nú, en mjer sýnist þó að ekkert sje svo gott, svo sem að vera fríð, auðug og af háu standi. En, svaraði maðurinn, með öllu þessu, gætir þú samt verið sjúk, ánægjulaus og kynnir að deyja á únga aldri; það væri lángtum skynsamlegra að óska sjer heilbrygðis, gleði og lángra lífdaga. Til hvers væri að lifa leingi, og vera undir eins fátækur, sagði konan, það væri ekki til neins annars, enn að verða vesæll þess leingri tíma. Raunar hefði huldukonan átt að lofa okkur að óska tólfsinnum, því jeg þarf í hið minnsta að halda á tólf hlutum, ef vel væri. Það er satt, sagði maðurinn, en við skulum hafa tímann fyrir okkur, að hugsa okkur vel um til á morgun, hverjir þrír hlutir okkur sjeu nauðsynlegastir, og þar eptir skulum við biðja um þá. Jeg skal vera að hugsa um það í

alla nótt, sagði konan, en á meðan skulum við orna okkur, því kaldt er. Í því sama bili skaraði konan að eldinum, og þegar hún sá að hann var vel glæddur, sagði hún, án þess að hugsa eptir því: tarna eru góðar glæður, jeg vildi jeg ætti álnarlángt bjúga til að borða í kvöld, því nú væri hægt að steykja það. Naumast var hún búin að úttala þessi orð, fyr enn bjúgað datt niður úr rótinni. Bölvuð veri úr þjer kræsíngagirnin með bjúganu þínu! sagði maðurinn; var það ekki falleg ósk að tarna? og nú eru ekki eptir utan tvær óskirnar. Hvað mig áhrærir, þá er mjer svo íllt í skapi af því, að jeg vildi bjúgað væri orðið fast við nefið á þjer. Í sama augnabragði sá maðurinn, að hann var enn heimskari enn konan hans, því með þessari annari ósk, hoppaði bjúgað uppá nefið á konu-skepnunni, sem ekki gat slitið það þaðan. Mikil ólánsskepna er jeg, sagði hún, og ofmikill vondskumaður ertú, að þú óskaðir bjúganu á nefið á mjer. Jeg get svarið dýran eið, elsku-konan mín! að jeg hugsaði ekki eptir því, svaraði maðurinn, en hvað eigum við nú að gjöra? jeg ætla að óska okkur stórra auðæfa, svo skal jeg láta gjöra hulstur af gulli handa þjer utanum bjúgað. Jeg bið þig fyrir alla muni, að gjöra það ekki, svaraði konan, því jeg tek lífið af mjer, ef jeg á að vera með bjúganu því arna á nefinu. Trúðu mjer! við eigum ekki eptir utan eina ósk, gefðu mjer hana í vald, annars kasta jeg mjer út úr glugganum á lopti þessu; í því hún sagði þetta, hljóp hún til að ljúka upp glugganum, en maðurinn hennar, sem elskaði hana, hljóðaði af öllum kröptum og kallaði: vertú kyr, elsku-kona mín! jeg gef þjer til leyfis að óska þjer hvers sem þú vilt. Hana þá! sagði konan, jeg óska að bjúgað detti af nefinu á mjer. Í sama bili datt bjúgað niður á gólf,

og konan, sem var skynsöm, sagði við manninn sinn: huldukonan hefur gjört leik að okkur, og það var mátulegt. Máske við hefðum verið enn þá ólukkulegri enn við nú erum, ef við hefðum orðið rík. Trúðu mjer, elskan mín! það er bezt að óska einkis, en tökum á móti því, sem guð vill vera láta, og senda okkur. Nú skulum við borða bjúgað okkar, úr því við eigum ekkert annað eptir óskirnar enn það. Maðurinn sá að konan sagði satt, þau borðuðu bjúgað með gleði, og sútuðu ekki framar um þá hluti, sem þau höfðu ásett að óska sjer.

## III. GÁTUR.

37) Snjór. 38) Blek - og sand-bytta. 39) Draumur. 40) Kveikur.

41) Í gamla daga stóð hárið á höfðinu á mjer upp, og þá hafði jeg krans af grænum laufum; nú er það búið að missa alla sína prýði, snúa sjer auðmjúklega til jarðar, og skríða í duptið.

42) Í fyrstunni hvíldist jeg rólega í barmi blómstranna, þá kom lítill þjófur, og byggði úr mjer slot handa sjer. Þar eptir kom miklu stærri stigamaður, braut niður slotið, og er nú að láta eldinn brenna mig.

43) Hver sjer aldrei sinn líka?

44) Jeg gjöri harðt og mjúkt; marga gjöri jeg fátæka, en samt fleiri ríka. Einginn vill hafa mig ofnærri sjer, eða offjærri, því sje jeg ofnærri, eyði jeg öllu, en allt deyr, ef það ætti að missa mín við.

45) Á daginn hef jeg ekkert að gjöra, og þá er jeg látinn í eitthvert skot, en þegar nóttin kemur, gleypi jeg í mig eld og bál.

## IV. DÆMISÖGUR.

### 14) *Mörgum kemur makleg hefnd.*

Vondskufullt barn nokkurt hafði yndi af að troða undir fótum jarðarorma og önnur skriðkvikindi, til að kvelja þau. Til hvers eru þær, sagði það, ókindurnar þær arna, annars enn að fóttroða þær? móðir þess bannaði því það, og sagði, það ætti heldur að bera sig að frelsa líf meinlausrar skepnu, enn að drepa hana. Barnið hlýddi ekki móður sinni, og hjelt áfram í þeim vonda vana. Einusinni fann það lítinn höggorm, sem það hugsaði mundi vera jarðarmaðkur, og steig eptir vana ofaná hann, en höggormurinn beit barnið, svo það beið bana af, varð svo saklausu ormanna hefnt.

### 15) *Ekki verða allar ferðir til fjár.*

Gamall hani stóð á verði uppá eldhúsi; þángað kom tóa hlaupandi, og kallaði með hýrri glaðværðar raust: galaðu, vinur! galaðu! nú kem jeg með gleðifrjettir til þín! galaðu! því dýrastríðið er á enda, allir eru orðnir þreyttir á þessum óróa, svo friður og eining eru nú í ríki voru. Jeg sjálf er send með þenna boðskap til þín frá öllum tóum. Komðu fljótt ofan, vinur! svo jeg geti faðmað þig að mjer, og gefið þjer friðarkoss! — hvað ertu að líta í kríngum þig? — hann Strútur, Móri og Flekkur koma, hundarnir, sem þú þekkir, svaraði haninn — Tóa tók til fótanna —. Haninn spurði: hvað kemur til þú hleypur svona? Öldúngis ekkert, bróðir minn! sagði tóa, stríðið er að sönnu úti, en jeg veit ekki hvort þeir hafa frjett það.

### 16) *Auðs er vant við yðjusemi.*

Bóndi nokkur, kominn undir andlátið, átti ekki auðæfi að eptirláta börnum sínum, en vildi þó lokka

þau til vinnusemi, svo þau hefði ætíð nóg fyrir sig að leggja, kallaði þau að rúmi sínu og sagði: innanstokks á jeg ekkert, börnin mín! eins og þið vitið sjálf, en allt hvað jeg hef getað unnið mjer inn mína lífstíð, hef jeg falið í urtagarðinum okkar, þar meigið þið leyta að því; skömmu síðar dó hann. Börnin þóttust vera viss um, að einhverstaðar í garðinum væru peníngar, grófu þess vegna og rótuðu upp moldinni í mesta ákafa og fundu þá aldrei, sem ekki var heldur von til, því þeir voru eingir, en aptur á mót bar garðurinn bezta ávöxt af því moldin í honum varð svo vel mulin.

### *17) Ýmsir eiga högg í annars garð.*

Hrafninn sat á háfum kletti, og hjelt á ostsneið í nefinu. Tóa fjekk þef af þessum osti, og þar hún var glorsvaung, kom hún til krumma, segjandi: sæll vertú! finn jeg þig núna hjerna? mikið yndi er að sjá þig, hvað fallegur þú ert! lofaðu mjer að horfa á, og virða þig rjett fyrir mjer! játa má jeg að fríðari og tiguglegri fugl hef jeg aldrei sjeð, því væri saungurinn þinn hálfpartinn svo fallegur, sem útlitið er, þá vildi jeg ekki sjá fuglinn Phönix hjá þjer. Við þetta hól, sem falsarinn setti á hann, gekst krummi upp, og þoldi ekki við af stoltri gleði. Mjer er bezt að láta hana heyra til mín, hugsaði hann, og sperti upp ginið. Osturinn datt þá niður, sem tóa strax gleypti í sig, og sagði: „krummi „minn hinn fríði! smjaðrararnir lifa af þeim, sem gjarn- „ir eru á að heyra til þeirra, eins og jeg nú er búin „að láta þig komast að raun um.“ Er ekki sá lærdómur meira verður enn tíu slíkar ostsneiðar? Tóunnar lærisveinn þagði, lagði undir kollhúfurnar, en hugsaði með sjer, að gott væri að muna henni þetta, þó seinna væri.

Einusinni bar tóa í kjaptinum hrossakjöts stykki til grenis síns, þá krummi mætti henni. Hvað? sagði hann, lamba-bani! er þjóttu-nóra núna öll veizlan þín? mikill nyrfill máttu vera, að halda þig ekki betur enn rakki! einhverntíma hefur betur blæðt fyrir þjer! skoðaðu þarna í stekkjartúninu, hvernig lömbin eru að stökkva og flokka sig! sá refur, sem hefði vitið, nýtti sjer þetta tækifæri, en það er auðsjeð, þú ert ekki föður þíns sæla maki, man jeg samt þær tíðirnar, að þú varst brögðótt, þegar þú vildir, enda ellti lukkan þig þá! Tóa ljet narra sig, sleppti hrossakjöts flyksunni og hljóp til lambanna. Smalamaðurinn, sem lá í stekknum, sá til hennar og sigaði á hana hundunum. Tóa sagði þá við sjálfa sig: jeg á nóg til næsta máls, þó ekki næði jeg lambi í þetta sinn. Hún fór þá að leita. En krummi sat kátur uppá kletti og sagði: ómakaðu þig ekki, vinur! til að leita svo smásmuglega að hrossakjöts-nórunni þeirri arna, jeg tók hana traustataki, og er búinn að gjöra mjer gott af henni, því jeg vissi þú sazt að volgri lambakjöts-veizlu, sem hefur verið þjer betri enn tíu slíkir bitar, þar til er mjer stærri ánægja að geta gantað ref, enn þó jeg kynni mikla saunglist. Áður ljet jeg narra mig, núna þarftú ekki til skuldar að reikna hjá mjer fyrir það.

### *18) Betra er að bogna enn bresta.*

Sterkt eikartrje og grannur reyr komu í kappræðu, hvert þeirra sterkara væri. Eikin sagði: og þú vænt jeg sjert sterkur, sem beygist ofan að jörð af hverjum vindblæ? Reyrinn svaraði: það mundi sannast á sínum tíma. Nokkru eptir kom á harðviðri. Reyrinn beygði sig niður að jörð, og hafði eingan skaða af storminum; en eikin streyttist allt

af á móti, þángað til hún rauk út af með rótum og öllusaman. Þá sagði reyrinn: nú sjer þú hvaða gagn að því er, að standa í nösunum á voldugum fjandmanni.

*19) Opt missir sá sitt, sem meira beiðist.*

Úlfaldanum fjell mikið sárt, að hann hafði ekkert að verja sig með, beiddi *Júpiter* þess vegna, að gefa sjer eins vel og nautinu horn, sem væru bæði til prýðis og varnar. Júpíter vissi bezt, hvað Úlfaldanum hagaði, neitaði honum þess vegna ekki einasta um hornin, heldur tók líka ofan af eyrunum á honum, hvar af hann varð enn þá óálitlegri.[1]

*20) Svo missjest öldruðum, sem úngum.*

Tvær Tóur misaldra komust inní hænsnahús um nótt, drápu þar hanana, allar hænurnar og úngana með; þar eptir mettuðu þær húngur sitt. Hin únga og óráðna vildi eta allt upp, en hin gamla og ráðsetta geyma nokkuð til seinni tímanna. Hún sagði: „reynslan hefur gjört mig hyggnari enn jeg var, þeg„ar jeg var á þínum aldri; jeg hef sjeð svo margt „síðan jeg kom í heiminn. Við skulum ekki eta allt „upp á einu málinu.“ Hin ýngri svaraði: „jeg ætla að gjöra mjer gott af því, á meðan jeg má, svo „þarf jeg ekki heldur mat í heila viku á eptir, og „þar til skemmist það, ef það er geymt, eða sá, sem „hænsnin átti sitji kannske um líf okkar, ef við kom„um híngað aptur á morgun.“ Hvorug vildi brúka annarar ráð. Sú ýngri át svo mikið, að hún naumast gat dregið sig í greni sitt, og sprakk þar af offylli. Hin eldri fór daginn eptir, að vitja leyfa sinna, en var drepin af eiganda hænsnana. Svo

---

1) Úlfaldinn hefur lág eyru, snubbótt ofan.

verður þeim úngu optast að tjóni, að þeir eru of fjörmiklir og sólgnir í sælgæti, en ágirnd hinna gömlu seðst aldrei.

## *21) Gott er að gjöra vel, og hitta sjálfan sig fyrir.*

Nokkur góður gamall maður, sem kominn var á grafarbakkann, var af fullfjáðum syni sínum rekinn útá sveitina. Einusinni þá feðgarnir af hendíngu fundust, beiddi faðirinn grátandi son sinn, að senda sjer einar rekkjuvoðirnar, sem hann hefði skilið eptir. Þú sjer, sagði hann, hvað mikla þörf jeg hef á þeim, hef jeg þó ekki híngað til feingið þær, hversu opt sem jeg hef beðið þig. Þegar sonurinn kom heim, fjekk hann syni sínum rekkjuvoðirnar, og skipaði honum að bera þær fljótt til hans afa síns. Dreingurinn fór ekki utan með aðra rekkjuvoðina. Þegar faðir hans frjetti það, varð hann fokreiður, kallaði á hann og sagði: því fórstu ekki, þorparinn þinn! nema með aðra rekkjuvoðina til hans afa þíns? Faðir minn! svaraði pilturinn, og ljet sjer ekkert við bregða: „jeg geymi hina handa yður, „þángað til jeg eins rek yður útá sveitina.“

## *22) Margur dansar þó hann dansi nauðugur.*

Api sá steik á brennandi glæðum, en treysti sjer ekki vegna hitans að ná henni. Hann tók það til bragðs, að hann greip löppina á kisu, hvernig sem hún bað hann og mjámaði, og krækti með henni matinn til sín.

## *23) Allur er jöfnuðurinn góður.*

Tóan varð fyrri til að bjóða Storkinum til máltíðar, og setti fram fyrir hann vellíng í grunnu fati Storkurinn, sem hefur yfrið lángt og mjótt nef, gat

ekki náð neinu af því, en ljet ekki á bera hversu honum sveið það. Skömmu eptir bauð hann henni aptur til veizlu. Hún mundi ekki til hvernig hún hafði í garð fyrir sig búið, og kom á tilsettum tíma, hafði þá storkurinn smáskorna steik í hálsmjórri flösku. Tóa gat ekki komizt að, nema að sleikja um hálsinn á henni, en særðist af að sjá að Storkurinn át allt einn. Þegar hann var mettur orðinn, sagði hann af spotti: láttu þjer ekki þykja miður Tóa góð! þó jeg hafi tekið mjer þitt dæmi til að breyta eptir.

### *24) Það eru ekki allt klerkar, sem síða hafa kápuna.*

Asninn fór einusinni í ljónshúð, þá allir, sem hann sáu, urðu hræddir, og flúðu víðs vegar. Hússbóndi hans var alstaðar að leita, en af því annað eyrað stóð uppúr ljónshúðinni, þekkti hann grip sinn, og rak hann med harðri hendi heim, til að bera bagga sína. Þaðan er síðan máltakið: auðþekktur er asninn af eyrunum.

### *25) Slægur etur slægs mat.*

Ljónið lagðist forðum í sótt, þá komu öll ferfættu dýrin, að vitja þess, nema hún tóa. Ulfinum syndist hjer væri bezta tækifæri til að fyrirkoma henni, og sagði við ljónið, að af öllum dýrunum hefði ekkert foraktað þess boð, sem það hefði sendt þeim, nema hún tóa, og væri það slæmt til eptirdæmis, ef slíkt liðist órefsað. Rjett í sama vetfángi kom tóa að, og heyrði seinustu orðin, sem úlfurinn talaði. Þegar ljónið sá hana, espaðist það, og ætlaði að rífa hana í sundur. En henni varð ekki orðaskortur, heldnr sagði, að af öllum þeim dýrum, sem komið hefðu að vitja þess hátignar, hefði einginn nema hún

hugsað uppá meðal við þess sjúkdómi, en hún hefði strax hlaupið til læknirsins að vita, hvaða meðal hjer ætti við, og það hefði hann sagt sjer. Ljónið skipaði henni að segja, hvert þetta meðal væri. Herra! svaraði tóa, það er, að yðar hátign láti flá lifandi úlf, og leggja yfir yður glóðvolgt skinnið, það meðal sagði læknirinn aldrei brygðist í þessum sjúkdómi. Ljónið ljet strax flá úlfinn eptir ráði tóunnar. Þegar hún sá úlfurinn var nærri dauður, sagði hún við hann: mikið ljótt er að espa konúng sinn móti þegnum hans; því gott á hver einn að láta af sjer leiða, en aldrei íllt.

## V. EINGINN VEIT HVORT GÆFA GEFST ÞÁ GIRNIST.

Sigurður Blálands konúngur sendir veraldarinnar íbúum kveðju sína, óskandi oflátúngum auðmýktar og andvara, en sútardætrum ánægju og rósemi.

Svo mælti Sigurður einvaldsherra yfir fjörutíu þjóðum, hann, sem hafði allt er menn mest eptirsækjast, og útskipti auð með allsnægtum, á sinnar ríkisstjórnar tuttugasta og sjöunda ári: „loksins, „Sigurður! er þín mæða og þitt erfiði á enda, þú hefur sættst við þá, sem þjer voru andvígir, þú hef- „ur svæft tvídrægnina, niðurkæft hirðmannanna öf- „undsýki, burttekið allt stríð frá þínum landamerkj- „um, og uppbyggt marga kastala í löndum óvina „þinna. Allir, sem hafa styggt þig, titra fyr- „ir þinni augsýn, og hvar sem þín raust heyr- „ist, er henni hlýðt af öllum. Þitt hásæti „er verndað af eins mörgum köppum, eins og mýið „er á sumardag, og hverra makt einginn fær heldur „mótstaðið enn drepsóttarinnar eitraða anda. Þín „geymslubúr eru uppfyllt með allskyns hervopn,

„og þínar fjárhyrzlur rýma ekki meira af hinna yfir-
„unnu konúngsríkja herfángi. Árgæðskan flýtur
„á þínum ökrum, og auðæfin glóa í þínum borgum.
„Þín bendíng er eins og jarðskjálfti, er hristir fjöll-
„in, og þitt hýrlegt tillit eins og morgunroðin í blíð-
„viðri. Í þinni hendi er þúsundanna styrkleiki; og
„þín heilbrigði er þúsúndsinnum þúsunda vellíðan.
„Þín höll er full af hróssins gleðisaungum, og bless
„unarinnar andi gefur þínum fótsporum endurnær-
„íngar ylm. Þínir þegnar dáðst að þinni maktar
„dýrð, þeim kemur eingin eymð eður háski í hug.
„Því viltú, Sigurður! ekki vera hluttakandi í öllum
„þeim gæðum, er þú meðdeilir öðrum? því skyldir
„þú einnsaman gánga úr vegi frá gleðinni í þessari
„hvers manns farsæld? því skyldi hjarta þitt nag-
„ast af ótta, eður þín ásjána formirkvast af sorgarskýj-
„um, þegar sá auðvirðilegasti af þeim, er kalla þig
„herra, brúkar daginn til glaðværðar en nóttina til
„rósemi? loksins, Sigurður! hugsaðu þig um, og
„brúka spekina! hvar til er sigurinn, nema til þess
„að maður búi óhultur, og því safna menn auðæf-
„um, nema til að kaupa með þeim velgeingnina?"

Síðan skipaði Sigurður konúngur að láta tilbúa eitt sitt lystislot er byggt var á ey, sem lá í Grænavatni, svo ekkert skyldi þar bresta, er vera kynni til ánægju þá hann kæmi þángað? „Jeg vil, sagði
„hann, hverfa frá óróseminni í tíu daga! jeg vil á
„meðan einga áhyggju hafa fyrir að vera á ráð-
„stefnu, eða útgefa rjettarbætur. Laung hvíld get-
„ur ei orðið þeirra hlutskipti, sem drottna yfir mörg-
„um þjóðum; en tíu daga ró geta menn þó ekki
„neitað mjer. Svo stuttrar ánægju og farsældar tíma-
„bils get jeg þó verið viss um að njóta, án þess að
„sorg, výl eða óþægilegt tilfelli ángri mig á meðan.
„Jeg skal útilykja frá mínum hýbýlum alla áhyggju,

„og burtrýma frá mínu hugskoti hverju helzt því, „er trubla kynni saungvanna gleði, eða mínka gesta„boðanna sætleika. Jeg skal uppfylla alla mína sálu „með ánægju, og fá að reyna hvað það er að lifa „svo ekki ein einasta ósk sje óuppfyld.“

Innan fárra daga var allt gjört, sem hann hafði fyrirskipað, og Sigurður konúngur fór með skyndi til Grænaslots, er stóð á hólma nokkrum, var þar allt undirbúið til gleði og ánægju. Hann var allur plantaður með sjerhverjum þeim grösum og blómstrum, er breiða hina fegurstu liti mót sólunni, og með þeim trjám og jurtum, er uppfylla loptið með sætasta ylmi. Öðrumeginn í grasgarðinum, sem var yfrið stór, voru opin gángrúm til að reika í á morgnana, en hinumegin þykkvaxin eikabyrgi, og rósamir laufskálar, með uppstökkvandi vatnsæðum til að sitja við og hvíla sig í um miðdegið. Allt það, sem gat gjört skilníngarvitunum ánægju, eður geðjast innbirlaninni, allt hvað ástundan gat útpressað af náttúrunni, eða ríkidæmi meðdeilt konstinni, allt hvað sigurvinníngin getur yfirkomizt, eða lempni dregið til sín, var þar samankomið á einum stað, svo að allskyns yndis þánkar urðu þar bæði uppvaktir og mettaðir.

Til þessa yndæla staðar bauð Sigurður öllum þeim af hirðmönnum sínum, sem hæfilegastir sýndust til að geta tekið á móti ánægju eða veitt hana. Allir hlýddu fúslega hans skipun; úngir, fríðir, glaðlyndir, skarpvitrir, flýttu sjer allir til að seðjast af farsæld. Þeir sigldu fagnandi yfir vatnið, hljóðfærin juku gleðina á ferðinni, og allra hjörtu samanklölluðust af eptirvæntíngunni.

Þá Sigurður konúngur var ásamt með hans glaða föruneyti lendtur; ásetti hann sjer upp frá þeim tíma, að segja skilið við alla óánæju, að sleppa

huga sínum í tíu daga til gleði og rósemis, en þareptir að hverfa aptur til manneskjunnar almennilega stands, og láta sitt líf eins og að fornu vera blandað af sorg og gleði.

Hann gekk strax inní sitt herbergi, til að hugsa sig um hvar hann ætti að byrja þenna sinn sæluhríng. Hann hafði alla vellystínganna smiði hjá sjer, um að velja, en vissi ei hvern hann skyldi til sín kalla, því hann gat ei brúkað svo einn, að hann ei með því sama frestaði hins aðgjörðum. Hann útvaldi og forkastaði, hann ásetti sjer og umbreytti aptur því áformi, þar til hans sinnis-kraptar þreyttust og þánkarnir trubluðust. Síðan gekk hann útí sal þann, hvar gestirnir biðu eptir honum, en augu hans voru óskær, og ásjánan óhýr, svo hjá öllum uppkom þaraf óánægja. Hann varð þess var, þeir urðu sem frá sjer numdir, hvað honum þókti miður, þareð hann fann að sín sinnisórósemi jókst af þeirra glaðværðarleysi, en hann þó ætlaðist til gleði og sorgarljettirs af þeim. Snjeri hann svo aptur inní sitt herbergi, leitaði eptir hugsvölun í brjósti sjer, kom þá hver þánkinn á fætur öðrum, og ein umhugsanin fæddi aðra af sjer. Tíðin rann burt í þessari dimmu þoku er uppfyllti hans hugsjúka sinni, þar til hann um síðir raknaði við, upplypti sínu höfði, og sá að vatnið glóaði af sólarlags geislunum. „Svona er, sagði Sigurður, og „stundi við undir eins, svona er manneskjunnar „leingsti dagur; áður enn vjer lærum að brúka hann, „vitum vjer ei fyrri til enn hann er á enda.“

Honum þókti svo ílla farið, að hann var búinn að tapa mesta parti af fyrsta deginum, að hann hafði einga lyst til að nýta sjer kvöldið, og þegar hann hafði, vegna þjenara sinna, þvíngað sig til að sýnast lystugur, og vekja þá gleði hjá öðrum, er hann sjálfur gat ei haft, ásetti hann að geyma von sína

til morguns, og gánga til hvílu, til að njóta ásamt með erfiðisins og armóðs þrælum blessunar þeirrar, sem svefnin með sjer færir.

Hann reis snemma upp annan morguninn, og ætlaði þá að vera sæll. Ljet hann því festa tilskipan uppá hallardyrnar, í hverri skipað var: „að hver helzt, sem í níu daga ljeti sig sjá í konúngsins nær„veru með ógleðisvip, eða sýndi nokkurt merki á sjer „til óánægju eða sorgar, skyldi æfinlega útlægur úr „Grænagarði.“

Þessi tilskipan spurðist strax um öll herbergi í höllinni, og í öllum gángrúmum aldingarðsins. Öll gleði flaug þarmeð burt, og þeir, sem áður dönsuðu á sljettunum, eða súngu í forsælunni, urðu strax áhyggjufullir, hvernig þeir kynnu svo koma útliti sínu og augnatilliti fyrir, að Sigurður konúngur gæti ekki aðfundið eða merkt neitt, er verðskuldaði þá útreknfngu, sem hann hafði hótað.

Sigurður konúngur fann þá, að hvert eitt andlit var brotið í fellíngar til að sýnast brosleitt, en sá útvortis hýrleiki gat ei dulið að innvortis var áhyggja, ótti og tilgjörð. Hann var sjálfur vinalegur og altilegur við ástvini sína, en þeir þorðu ei að tala neitt, nema með stærstu varkárni, til þess þeir ljetu ei bera á neinni sorg eða misþykkju, Hann stakk uppá allskyns gamansemi, sem einginn hafði neitt á móti, þareð mótmæli hefðu kunnað að virðast óánægjumerki, en hirðfólkið gaf sig ekkert að því, heldur ljet sjer einasta annt um vera að koma sjer í mjúkinn hjá konúnginum með gleðiteiknum og galsa háreysti. Hann færði eitt og annað skemtilegt í tal, en honum var ei svarað með öðru enn kalda gamni og tilgjörðarhlátri, svo að þegar hann var búinn að leita allra bragða til að uppörfa þá að vera málhreifa, glaðsinna og eginlega, komst hann að raun

um hversu ónýt hans skipan hafði verið, og leið svo sá dagur burt með ógeði og eptirsjón, að Sigurði hafði mistekizt. Loksins gjörði hann enda á ótta og hræðslu gesta sinna og læsti sig inni í svefnherbergi sínu til að yfirvega og upphugsa önnur meðöl, að verða viss um lukku og ánægju nærsta daginn. Hann kastaði sjer uppí sængina, og augun luktust aptur; en naumast var hann fallinn í svefn, fyr enn honum syndist að slotið og aldingarðurinn væru í einu flóði, og hann vaknaði við vondan draum, eins og þeir, sem hugsa þeir sjeu að brjótast um, og leita allra bragða að þeir drukkni ekki. Hann lagði sig aptur til svefns, og hindraðist í sinni ró, af því honum syndist að fjandmennirnir væru að æða inní ríkið, þá brauzt hann um til að fara á fætur, eins og opt skeður í draumi, en gat það ekki, hann hugsaði að svikarar hefðu selt sig í óvinanna hendur, þaraf varð því stærri ángist hans í svefninum, svo hann af viðbjóð og ofboði datt fram úr rúminu.

Dagur ljómaði, og vegna þess hann hafði þá einga von um að geta sofið leingur í þeirri óró, sem hann var í, klæddist hann; flóðið, óvinanna árásir og drottins svikin voru svo rík fyrir hans hugskotssjónum, að hann gat ekki slegið þeim úr huga sjer, ellegar fellt sig við neitt gaman eða skemtun. Allt fyrir það íhugaði hann þetta tilfelli svo skynsamlega, að smámsaman fyrirleit hann það, álasaði breiskleika sínum og hló að drauminum; en áður enn svo lángt var komið, var mikill partur dagsins liðinn. Þetta sannfærði hann um það, hversu lítið af mannanna áformi og uppáfindíngum er í þeirra eigin valdi; þaraf fór hann að aumkast yfir eymð og hjegómastollt þessara skepna, sem eiga það undir innbirlingunni, hvort þær hafa gleði og rósemi ellegar ekki. Loksins varð hann fullkomlega sannfærður um, að

ekkert var í þessa hræðslu eða mæðu spunnið; skammaðist sín fyrir að hafa eyðt tímanum til að vola yfir því, sem umliðið var, og hugsaði með sjer, að slíkar hugsanir væru ekki til annars, enn leingja með vondan draum. Með þessum fallegu yfirvegunum leið þriðji dagurinn, og Sigurður einsetti sjer enn nú einusinni, að verða lukkulegur daginn eptir.

Konúngurinn hafði þá værustu og beztu nótt, sem hann gat óskað sjer, um morguninn var hann ljettur á sjer, heill og glaðvær, og allt leit út til að dagur þessi yrði mjög ánægjufullur, Konúngurinn kom í urtagarðinn, hafði með sjer fjölda af hinu æðsta hirðfólki, konum og köllum, og sá ekkert í kríngum sig nema yndi og gleði. Hana! sagði hann; þetta er rjettur gleðidagur. Sólargeislarnir stöfuðu glóandi á vatninu, fuglarnir kvökuðu í lundunum, og blöðin á trjánum blöktuðu fyrir hægum blíðvindi. Hann gekk úr einu gángrúmi í annað umhugsunar og sorgarlaust, þar heyrði hann að úngar stúlkur sátu í forsælunni, hann fór sjálfur að dansa með öðrum til skemtunar á grænum vellinum, en gleði og ánægja spratt upp í huga hans, ein eptir aðra; hann hafði góða og glaðværa þánka, talaði allt lipurlega og uppbyggilega, allir dáðust að því, og svöruðu honum skarplega, svo tíminn rann fram með hægum og þægum straumi, en ekkert sorgarský í huganum nje óþægilegt tilfelli gjörði þar á minnsta hlje eður hindran.

Þessi saklausa vellystíng hafði varað heila eykt, þegar rjett í einu kom upp kall og þys með skrækjum og hljóðum hjá kvennfólkinu. Hann snjeri sjer við, sá að allar hlupu, sem mest þær máttu, og allt var á tjá og tundri; úngur krókódíll hafði komið uppúr vatninu, skreiðst inní garðinn og var að leita að einhverju, sem hann gæti gleypt í sig. Sigurður

sá hann, þókti miður, að slík andstygðar skepna hefði komið til að trufla allri farsældinni. Hann var ekki leingi að reka krókódílinn aptur útí vatnið, en gat þó ekki feingið af hirðinni að vera kyr á þessum yndislega stað, nje tekið frá kvennfólkinu hræðsluna, sem yfir það var komin. Einginn hugsaði um annað enn þann ógnarlega háska, sem þeir höfðu sloppið frá, skarpleikurinn var orðinn sljór og túngurnar bundnar. Nú þóttist Sigurður konúngur ílla staddur, hann fór að hugsa útí þau óendanlega mörgu tilfelli, sem, svo að segja, liggja í launsátri til að spilla mannanna lukku. Þó var honum það hugfró, að hann vissi með sjer, að þetta hafði ekki komið af hans tilstilli eða yfirsjón, og það væri hægt að fyrirbyggja annað eins slis seinna.

Nú ætlaði hann að byggja eptirfylgjandi daga ánægju á fastan grundvöll, apturkallaði þessvegna rjettarbótina um refsíng yfir þeim, sem sorgbitnir væru, því reynslan hafði kennt honum, að konúngarnir hafa ei svo mikið veldi, að þeir geti rekið ólundina í útlegð, eða sett huga manns nokkrar skorður, heldur finnst ánægja einasta þar hvar frelsið er. Hann bauð þess vegna öllum til gleði og skemtunar, svo eingin þyrfti á sjer að sitja eður þvínga sig neitt, en tilsetti verðlaun handa þeim, sem daginn eptir uppfindi öðrum fremur skemtun og gaman. Stór borð í salnum voru þakin með gulli og gimsteinum, dýrðlegum fatnaði og dýrgripum, sem allt átti að vera þeim til launa, er yfirgeingi aðra í snild og ánægjulegri skemtan.

Í fyrstunni, þá menn sáu þessi stóru auðæfi og prakt, dáðust allir að konúngsins örlæti. Hann þóttist nú vera viss um, að þeir feingju hina stærstu ánægju með því, að keppast hver við annan í gleðinni; en hindranin kom frá sjálfu þessu sama kappi,

það óx svo, að það varð að sterkri geðshræríngu, rak þess vegna burt þá rósemi, hverrar kætin getur aldrei án verið. Það, sem vjer með ákefð óskum oss að fá, kemur líka af stað jafnmikilli hræðslu, að vjer kynnum máske að missa það. Með slíkri geðshræríngu getur glaðværð ekki staðizt. Ef vel á að liggja á manni, verður að vera skær og rósamleg værð í sinninu. Hún var ekki hjer, heldur var órósemi og kvíði kominn í staðinn. Einginn hvorki talaði nje gjörði nokkuð, svo að ekki væri auðsjáanlegt á honum, hvað nærri sjer hann tók það, og hvað sólginn hann var eptir að allir skyldi dáðst að sjer; allir hugsuðu til launanna, kvöldu sig til hvers, sem þeir gjörðu, hvað ekki getur annað enn misþóknast; Sigurður mátti með sorg sjá, að launin láu allri hirðinni í meira rúmi enn sjálfur hann.

Því meir, sem á daginn leið, því harðari var kýtíngurinn allra á milli; þeir, sem sáu að þeir mundu verða apturundan, fóru að líta skökku hornauga til hinna, og ota mögli með öfundaryrðum. Sigurður konúngur sá, að ef hann útbýtti laununum, eptir sem hver hafði tilunnið, mundi mörgum þykja miður, sem færu þeirra á mis; þareð nú þessi dagur var ætlaður til gleði og velferla, vildi hann eingan hrella, en sagði að allir sínir hirðmenn hefðu gjört sitt bezta til, og öllum hefði eins tekizt, ljet þá því hafa jöfn laun.

Hjer fór öðruvísi enn hann ætlaðist til; þessi varkárni espaði þá upp, sem þóttust vera vissir um hin stærstu laun. Þeim sveið sárt að vera gjörðir jafnir hinum auðvirðilegustu, og þó konúngurinn af örlæti sínu gæfi miklu meira, enn þeir hefðu kunnað að vænta sjer, þeim lá það samt í þúngu skapi, að þeim hefði ekki verið betur gjört til enn öðrum, og þeir gætu ekki hlakkað yfir hinum, sem miður

fórst að. Æ! sagði Sigurður konúngur, og dæsti við: „svona fer fyrir þeim, sem leita að lukkunni ann-„arstaðar enn hjá sjer sjálfum, og ætla sjer að verða „farsælir af öðrum.“ Hann vjek sjer þá afsíðis til að hugsa um þetta, en á meðan voru hirðmenn hans að álasa honum fyrir launa útskiptin, og svo leið fimmti dagurinn á enda.

Strax morguninn eptir fór hann að hugsa um hvernig sá dagur ætti að verða lukkulegur, en þareð honum hafði svo mistekizt allt hvað hann þángað til hafði uppfundið, hugsaði hann með sjer, að bezt væri að láta lukkuna ráða fyrir öllum þeim degi, og láta hvern skemta sjer eins og hann vildi og gæti.

Þetta frelsi og sjálfræði útbreiddi gleði um alla hirðina, og nú hugsaði konúngurinn, loksins hefði hann hitt rjetta aðferð til að vera glaður og lukkulegur. Þegar hann var á gángi híngað og þángað innanum þann ánægða hóp, sem eingum lögum þurfti nú að hlýða, heyrði hann af hendíngu, að einn af hirðmönnunum sat úti horni, og talaði þannig við sjálfan sig: „og hvað hefur hann þá framyfir okk-„ur? hann hefur kannske gjört tvö eða þrjú hreysti-„verk; en óhófið, sem hann núna er sokkinn í, sýnir „að hann er eingu betri enn við.“

Þetta sárnaði Sigurði konúngi því meir, sem þessi maður hafði ætíð verið fremstur í flokki að smjaðra fyrir honum, og hrósa öllu með stærstu auðmýkt á konúnginum. Í fyrstunni þókti Sigurði svo fyrir, að hann ætlaði strax að hefna sín, en hann stillti að því leyti bræði sína, að hann einasta fann uppá eitthvert skikkanlegt yfirvarp til að reka þenna mann burt úr sinni þjónustu. Konúnginn kostaði þetta nokkurt og ekki stutt innvortis stríð, en eptir að hann var búinn að yfirvinna hefndargirni sína, varð hann um kvöldið ekki einasta rólegur, heldur

líka hafði sæta gleði af því, að hafa breytt vel í þessu efni.

Morguninn eptir eymdi af þessari mildi, svo hann byrjaði sjöunda daginn með því, að vel lá á honum, og hann var hýr í yfirbragði. Ekkert ógæfulegt bar við, og gleðin óx meir og meir, þángað til hann tók eptir því, að sú eyk, sem hann sat undir, minnti hann á óláníð, þegar hann varð sigraður í konúngsríkinu Goyam, herlið hans strádrepið eður rekið á flótta, og hann sjálfur varð alla nóttina að hýma undir samkynja eyk og þessi var. Þá vaknaði upp fyrir honum allur sá skaði og manntjón, sem hann beðið hafði í bardaganum, svívirðíngin, sem hann hafði af öllu leiðángrinu, og öll þau ókjör, sem þegnar hans urðu þá að þola af fjandmönnum hans, hvað allt nú uppfyllti hjarta hans með hrygð. Sigurður konúngur sló samt þessum hugsunum frá sjer, og fór að verða glaður af því, i hversu yndælum stað hann nú var, þegar öfund þeirra, sem til launanna höfðu unnið, aptur brauzt út. Hann bar sig með góðu og fortölum að sefa þá óánægðu, en loksins hlaut hann að taka til myndugleika síns, og skipa þeim að tala ekki neitt orð framar um þau laun.

Áttunda dags morguninn vaknaði Sigurður konúngur við, að þys og meiri umgángur var í herbergjunum enn vant var. Skömmu eptir var komið til hans, og sagt að dóttur hans Hildi væri orðið mikið íllt. Hann fór þegar á fætur, ljet lækna skoða sjúkdóminn, en þeir gáfu litla von um, að konúngsdótturinni mundi batna. Þar var þá endir á allri gleði! frá því augabragði hugsaði hann ei um annað, enn hvernig sinni elsku dóttur liði, og varð þremur dögum þareptir að veita henni nábjargirnar.

Svona liðu þeir dagar, sem Sigurður Blálands konúngur, einvaldsherra yfir fjörutíu þjóðum, hann,

sem hafði allt, er menn eptirsækjast, og útskipti auð og allsnæktum; svona, segi jeg, liðu þeir dagar, sem hann hafði valið sjer til gleði og yndis, til að hressa sig á frá þeirri mæðu og þreytu, sem hann hafði af stríði og ríkisstjórninni. Hann eptirljet sögu þessa handa þeim, er seinna lifa mundu, til þess að eingin manneskja hugsi sjer að hafa í sjálfs valdi að vera lukkulegur svo leingi, sem einn dag, því síður leingur.

## IV. SNILLI - OG KÝMIN - YRÐI.

Skáld nokkurt kom til herra Bautru með kvæði og beiddi hann svo sem vin að segja sjer hans meiníngu. Hann las það allt til enda, og þegar skáldið kom nokkrum dögum seinna að sækja það, sagði hann: mjer sýnist kvæðið ver oflángt. Míkið vel gjörðuð þjer, svaraði skáldið, ef þjer vilduð segja mjer, hvað jeg ætti að gjöra við það. Það er, svaraði Bautru, að stytta það um helmíng en stýnga hinu undir lok.

---

Hann Helgi má vita betur enn jeg, hvað mikil vinátta okkar hefur verið; mjer hefur hann opt sagt, að hann elski mig eins og bróður: Væri jeg fjandmaður hans, þá er jeg viss um að hann gleymdi mjer ekki; en nú gleymir hann mjer þó jeg eigi að heita vinur hans.

---

Íngileif er ekki blind við yfirsjónir og syndir; fátt er óstraffanlegt í hennar augum, í hið minnsta er það hvorki skarpleiki hennar Þórdísar, nje fríðleiki hennar Hallgerðar. Hún er hvorki ánægð með sig nje aðra, og hennar túnga er óþreytandi í að kenna. Ertú að spyrja að orsökinni? hún Íngileif er farin að eldast.

Mælskumanni nokkrum var hrósað, svo Agesilaus konúngur heyrði til, fyrir það, að hann gæti gjört lánga ræðu útaf hverju efni, sem hann tæki fyrir sig. Agesilaus svaraði: að þeim skósmið er hlegið, sem gjörir lángan skó á lítinn fót.

---

Æ dauði! þegar þú ferðast hjer um, þá gaktú fram hjá honum Hermundi, því hann hefur gleði, glaum og alls nægtir, en einga mæðu eða sorg. Hvað á hann að gjöra í annan heim? það fer vel um hann hjerna.

---

Um smíkjugest nokkurn, sem undir eins var bakmálugur, var sagt, að hann lyki aldrei upp munninum nema öðrum til skaða.

---

Dreingir nokkrir mættu kerlíngu, sem rak asna á undan sjer. Sæl vertu asna-móðir, sögðu þeir; hún svaraði: komið þið sælir börnin mín!

---

Hann Gestur fór hjeðan hálfnakinn og allslaus, en er kominn aptur vel uppdubbaður og flugríkur. Jeg þekkti hann ekki, svo var hann umbreyttur; það var ekki heldur von til, því hann þekkir sig ekki sjálfur.

---

Það er bágt að koma því saman, að vera hreinskilinn og blíðmáll, þó má hver einn játa um þig, Styrkár minn! að þú getur vel skikkað þjer í hvorutveggju. Þú ert mjer blíðmáll á brjóst, en hreinskilinn á bak.

---

Hvað geingur nú að? hann Páll, sem einginn hefur getað verið hjá, vegna þess hann var svo hávarr, og ekki gat þagað meðan hann svaf, því síður endrarnær, og hann Petur, sem munnurinn hefur aldrei staðið á, tala núna báðir, seint, spart og í

hálfum hljóðum. Eru þeir orðnir skynsamari, hóg værari eður auðmjúkari? æ nei! í frostum, sem kom í nótt eð var, varð annar hás en hinn heyrnardaufur.

Þrír eða fjórir nágrannar mínir öfunda mig, en svo er lángt frá að mjer þyki það miður, að jeg vildi óska þeir væru fleiri.

Faðir nokkur vildi vissra orsaka vegna ekki hrósa hjónabandinu ofmikið, svo dóttir hans heyrði til. Sú sem giptist, sagði hann, gjörir vel, þó gjörir sú enn betur, sem er ógipt. Faðir minn góður! svaraði dóttirin: jeg vil gjöra vel, en gjöri hver önnur betur sem vill.

Nokkuð stollt verða menn að halda honum Grímólfi til góða, því hann setur sig svo vel til, og sýnir á svip sínum svo mikla speki, að líklegt er fáir muni hans makar. En í dag hefur allt það, sem jeg hef heyrt til hans einasta verið, að hann hefur beðið eptir því, sem aðrir sögðu, til þess annaðhvort að jánka það spekíngslega, ellegar með sjervitsku að vinda útúr því. Er Grímólfur sá spekíngur, sem hann þykist, eða er hann ekki? jeg ætla að trúa orðum hans.

Steinólfur slær allri sinni áhyggju og forsjón á frest til á morgun. Á morgun ætlar hann að yðrast og umvendast, á morgun gjöra sjer vini, á morgun gæta sín fyrir óvinum sínum, og á morgun verða yðinn og sparsamur. Hann er ekki heimskíngi nema í dag.

Eg þekki hann Hrapp, sem talar svo mikið um sín hreystiverk, hvernig hann hafi fellt þenna, lúbarið hinn, brotið tönnurnar úr einum, og gefið öðr-

um glóðarauga. Hrappur telur þar upp allt, hvað hann hefur sjálfur orðið fyrir.

---

Stúlka nokkur kvartaði mikið yfir lýgi og álasi. sem geingi fjöllunum hærra í veröldinni, og sagði til dæmis, því hefði verið logið uppá sig, hún hefði átt sex börn í lausaleik. Maður, sem við var, tók strax í taumana með henni, og sagði það væri ekki ofsögum sagt af því, hvað lýgið fólk væri, því ekki væri að trúa nema helmníngum af því sem skrafað væri.

---

Þú vilt, Íngunn! að jeg hrósi þjer. Taktú þá orð mín vel, því jeg tala ekki í þeirri veru að hræsna fyrir þjer. Þú ert eins hógvær og sjó-deyða, og eins trúföst, sem meðbyr.

---

Þorgrímur slær skuldinni uppá slæmt minni, sem hann hafi, þegar hann heldur ekki það, sem hann lofar. Já, því trúi jeg vel það sje slæmt, því hann gleymir aldrei að hefna sín.

---

Hún Matthildur hlær opt, og heldur þá hendinni fyrir munninn á sjer. Hvers vegna ætli hún gjöri það? hún bæði heldur fyrir svörtu tönnurnar í munninum, svo þær sjáist ekki, og líka sýnir hrínginn á hendinni á sjer.

---

Drykkjusvínið hann Önudur hefur allar höfuðskepnurnar meir aðskildar hjá sjer, enn flestir aðrir: eldinn í augunum, mold í höfðinu, vatn í búknum og lopt í peníngapýngjunni.

## VII. UM HALASTJÖRNUR.

Í kvöld kom jeg nokkuð seinna, enn jeg á vanda til inní baðstofuna, heyrði jeg þá að eldstu börnin og fólkið voru mikið að tala um halastjörnur, lagði

sitt til hver, hvað hann hefði heyrt eða ímyndaði sjer, var sumt, eins og nærri má geta, ekki hið markverðasta, en lærimeistarinn í samsætinu var þó einkum gömul, minnug kona, sem sagði frá hvað móðir sín hefði sagt sjer eptir móður sinni um himinteiknið stóra í hennar tíð, um hvert enn eru sálmar til allvíða. Hún var líka fróð og tölug um öll þau ósköp, sem þar á eptir hefðu komið: að kýr hefði átt kálf með 6 fótum, að kona hefði verið brend í Strandasýslu, maður hefði stolið undir Jökli, Hekla hefði gosið eldi, harðindi komið og stóra bólan þar ofaná. Tilheyrendurnir hlýddu forviða á, einkum af því líka að sunnudags guðspjallið um teikn á sólu og túngli, sem útleggjast á á morgnn, kom í tal með, svo Magnús litli einnsaman var sá, sem eitthvað hafði móti þessari hræðslu, en hann komst varla upp með eitt orð, því allir álitu það guðleysi, að efast um að slik sýnileg guðs reiðiteikn hefðu ei neitt sjerlegt að boða. Strax og jeg kom að, var það fyrsta að Magnús, sem ekki var sannfærður af hinna allra mótsögnum, en gat þó ei komið þaunkum sínum í sannfærandi orð, spurði mig: hvort halastjörnur boðuðu sjerlegt guðs straff.

Prestur. Hvað sýnist þjer stríða á móti því að svo sje?

Magnús. Þareð mestur partur allra þeirra, sem á jörðunni búa sjá halastjörnuna undir eins svo yrði hún að boða þeim öllum ólukku; en sögurnar geta ei um það, heldur er friður í einu landi þó stríð sje í öðru, árgæðska í einum stað þó hallæri sje annarstaðar, og þó einhver konúngur deyi í nokkru ríki, þá kann annarstaðar konúngsefni að fæðast.

Prestur. Satt og rjett er það; sögurnar sýna

líka, að opt hefur eitthvað lukkulegt borið við, eptir að halastjarna hefur komið í ljós, og jeg hef einhversstaðar lesið, að slík stjarna hafi sjest rjett skömmu áður enn frelsari vor fæddist í þenna heim. En, Lýður litli! manstu ekki til hvað jeg sagði þjer einusinni í haust um reikandi stjörnur?

LÝÐUR. Þjer sögðuð þær væru jarðir, og að vor jörð og túnglið væru allteins reikandi stjörnur, sem í hinum jörðunum væru útlits eins og oss sýnast himintúnglin; allar gángi þær sífeldlega á vissum afskömtuðum tíðum kríngum sólina, og væru tvennslags, plánetur (jarðstjörnur) eða kómetur, en kómeta væri eptir orðinu stjarna með hári, það er halastjarna.

PRESTUR. Rjett er það. En getur þú, Magnús litli! sagt mjer rök til að halastjörnur sjeu jarðir?

MAGNÚS. Já því þær eru stöðugir, varanlegir hnettir, gánga kríngum sólina í aflaungum hríng, sem er miklu leingri enn hann er breiður til, en þó eptir sömu hræríngarreglum eins og pláneturnar, sem líka eru jarðir.

PRESTUR. Svo er það. Því þær fara ýmist fjær eður nær sólunni, og hafa skyn og birtu af henni, því sú hliðin, sem veit að sólunni er björt, en hinn helmíngurinn dymmur, eins og allir sjá á túnglinu, og hæglega sást á halastjörnunni 1744. Sú halastjarna, sem 1450 gekk milli jarðarinnar og túnglsins, bar skugga á það, þá það var í fyllíngu, það er formyrkaði það, og sýndi þar með að hún var dymmur, ógagnsær hlutur, sem hafði birtu sína af sólunni. Halastjarnan, sem sást 1770 var ei leingra frá jörðunni enn túnglið er, gjörði samt einga umbreytíngu á flóði eða fjöru; þar á mót var sú, sem 1590 sást, 80 milliónir þíngmannaleiða frá sólunni, vil jeg samt ekki tala um þær, sem einasta sjást með sjónpíp-

um. Halastjörnurnar gánga með öðrum himintúnglum frá austri til vesturs daglega, renna upp og niður með sömu stjörnum, við hverjar þær ber, og þekkjast þaraf hæglega frá öllum loptsjónum, t. d. rosabaugum, tvísólum, eldhnöttum og mörgu öðru, sem finnst skírt umtalað í Ísl. lærd. lista fjelags rita 3. b. Þessar jarðir, það er halastjörnurnar, hafa svo vissan, og afmarkaðan gáng, að lærðir menn geta reiknað hvenær þær komi aptur á sama stað, og þannig hafa þeir reiknað gáng hjerum 80 halastjarna, sem sjest hafa síðan 837. Halley, mikill stjörnuspekíngur í Einglandi, reiknaði þær manna fyrstur fyrir 100 árum, og þá þegar 24 af þeim. Hann sagði líka fyrir, að halastjarnan sem sást 1682 mundi aptur koma 1759, og munaði einum mánuði í reikníngi hans, hvar til stjörnuspekíngar hafa síðan sagt orsökina, svo að raunar skeikaði ekki reikníngur hans í hinu allra minnsta.

Magnús. Vita menn þá nær von er aptur á þessum 80 halastjörnum?

Prestur. Já! og þegar einhver sjest hjer eptir nokkra stund, er orðið hægt að reikna hennar gáng, þó eru nokkur atvik, sem geta um lítinn tíma dregið hennar tilkomu, hver líka má reikna.

Guðmundur. Getið þjer, faðir minn góður! sagt okkur hvað lángur tími er á milli þess, að halastjarnan hverfur, og til þess hún sjest næst aptur?

Prestur. Það er ýmist, því þó þær allar gángi eptir sömu reglum, þá er samt stór munur á hverrar einnar ferð af þeim. Jeg skal, til dæmis, segja ykkur hvað leingi ein ferð hverrar af 7 halastjörnum varir kríngum sólina, og er þá ein slík ferð hverrar fyrir sig eitt hennar ár, eins og hver ferð jarðar vorrar kríngum sólina, er eitt vort á.

Halastjarnan, sem sást 1684 þarf 50 vor ár.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| — | — | 1682 | — 75 | — |
| — | — | 1337 | — 100 | — |
| — | — | 1677 | — 200 | — |
| — | — | 1744 | — 300 | — |
| — | — | 1665 | — 400 | — |
| — | — | 1680 | — 575 | — |

Lýður. Það veit jeg að einginn okkar lifir svo leingi, að hann sjái hana. En veit nokkur maður hvað margar halastjörnur eru til?

Prestur. Nei! en líklegt er að stór fjöldi sje til af þeim; því vjer sjáum einasta þær af þeim, sem koma nærri vegi vorrar jarðar. Hver ein stjarna er sól, sem svo að segja stendur kyr, gefur af sjer ljós og birtu, og hefur að líkindum hver ein margar jarðir, sem kríngum hana gánga, má þetta með öllum rjetti kallast þeirrar sólarkerfi eður heimskerfi. Þessar jarðir fá birtu hver af sinni sól, þar sem hún á þær skín, og sýnast því frá næstu jörðum bjartar að nokkru leiti, eins og væru þær stjörnur, en vegna þess þær eru sífeldlega á ferð kríngum sína sól, þá kallast þær reikandi stjörnur. Þessar reikandi stjörnur eru tvennslags, svo sem hann Lýður litli sagði áðan, aðrar sem fara í aflaungum baug, eins og sporaskja sje eður eggmynd, og komast aldrei svo lángt frá sólunni, að svari mörgum þeim bilum, sem er millum sólarinnar og þeirrar sömu jarðar, þegar bilið er sem minnst, þessar heita plánetur, og meðal þeirra eru jörð vor, kvöld- eða morgun-stjarna (því sama er sú plánetan) og 5 aðrar, sem menn enn þá þekkja. Hinar fara í miklu leingri og mjórri bug kríngum sólina, komast á ferð sinni mikið leingra frá henni, og kallast halastjörnur. Gætum nú að, hvað lángt bil er millum hverrar plánetu (eður jarðar) í okkar sólarkerfi, þá má að líkindum ráða hvað margar halastjörnur þar gætu haft nóg rúm. Frá

1770 til 1785 hafa fundizt 16 nýjar halastjörnur, hverjar allar, og líka allar sem áður hafa verið útreiknaðar, að einum 2 fráteknum, hafa verið nær sólunni, þegar þær hafa komið henni næst, enn plánetan Mars, og er þó Mars næsta pláneta við jörð vora Milli plánetanna Mars og Júpíter eru 15 milliónir og 200 þúsundir þíngmannaleiða (5 mílur í hverri), og aptur milli Júpíters og Satúrns enn leingra, nefnil. 18 milliónir og 200 þúsundir þíngmannaleiða, þá er líklegt, að í því ógnar plátsi sje mörg ein halastjarna, sem vjer ei verðum varir við, og geti hún samt verið stærri enn vor jörð, þegar vjer einasta aðgætum, að Júpíter sýnist oss eins og lítil stjarna, vegna þess hann er svo fjærri oss, er hann samt svo stór pláneta, að hún gæti verið efni í 1500 eins stórar jarðir og vor jörð er, en þykkt vorrar jarðar er 344 þíngmannaleiðir. Lærði stjörnuspekíngurinn Lambert, (sem er sálaður hèr um fyrir 20 árum) hefur reiknað, að í þessum fyr tiltekna geim innan Satúrns vebanda, geti 5½ billíón[1] halastjörnur haft nóg rúm, svo eingin sje annari til baga. Nú er þó plánetan Úranus, sem 1781 sást í fyrsta sinni, 35 mill., 304 þúsund 208 þíngmannaleiðum utar, það er, leingra frá sólunni, enn Satúrnus, og hver veit hvað lángt frá sólunni plánetur enn kunna að finnast, og hvað lángt bil aptur sje þaðan til sólar í næsta heimskerfi. Sögurnar geta um meir enn 400 ýmsar halastjörnur, sem sjest hafa kíkirslaust, þángað til fyrir 150 árum, en síðan sjónpípur hafa uppfundizt, eru þær farnar að sjást miklu fleiri. Þó er stór fjöldi þeirra, sem að líkindum hafa, á himninum og sýnilegar verið, en samt ei sjest, af því þær hafa verið fyrir ofan sjóndeildarhrínginn um daga, hvað eð sannast af því, að 60 árum fyrir Krists fæðíngu varð sól-

---

[1]) Ein Billíón (tví-millíón) er þúsund milliónir, eður þúsundsinnum þúsund þúsundir.

ar formirkvan, sást þá á meðan á henni stóð, halastjarna skamt frá sólunni, sem án þeirrar formirkvanar ekki hefði sjest. Margar halastjörnur hafa getað verið sýnilegar, og þó ei sjest vegna skýja, þoku, eður jafnvel athugaleysis stjörnuspekínganna, því fleira verður sá var, sem með athygli rannsakar, enn hinn, sem ekki gjörir sjer far af því að leita hlutinn upp. Dæmi uppá það er, að þá menn 1759 voru að skygnast nákvæmlega eptir halastjörnunni, sem sjest hafði 1682, fundu þeir 7 aðrar á fáum árum, og 1760 þann 11. Febr. sáust 2 halastjörnur í einu.

Lýður. En hvernig eru halastjörnurnar útlits? eru þær eins skærar og pláneturnar?

Prestur. Í sjónpípu sýnist halastjarnan flekkótt og loðin, optast með þoku í kríng, en eins og kjarni eða hnöttur sje í miðjunni. Sumra þeirra skyn er dauft með þokuleitum hala, aðrar hafa skært skyn með björtum glansandi hala. Halinn snýr ætíð frá sólunni, hvort sem halastjarnan er á ferð til eða frá henni, stærstur er hann þegar stjarnan er næst sólunni, en skærastur næst sjálfri stjörnunni og svo þunnur, að almennilegar himinstjörnur sjást í gegnum hann.

Magnús. Er halinn þá mjög lángur?

Prestur. Misjafnt er það, eptir því, sem halastjarnan sjálf er stór eða lítil, er nærri sólunni og jörðunni eða fjærri þeim, og líka eptir því á hverja hliðina vjer eigum til að líta. Stundum er hann svo lángur, að hann sýnist að ná frá því hæst á himni, til ofanað því, sem ber lægst við jörð, er það mikið prýðilegt á að líta, og skýtur halinn sjer því leingra út, sem leingra er frá stjörnunni, hvers vegna þeir gömlu kölluðu það hár, en í vankunnáttu tíðunum kölluðu menn það sóp og reiðivönd Guðs. Þú veitst, Magnús litli! úr *Justino* þínum, að hann skrifar sú

halastjarna, sem sást þegar Mithriðates konúngur kom til, það er 130 árum fyrir Krists fæðíngu, hafi verið svo stór, að sýnst hafi eins og allur himininn væri í einn báli. Hali stjörnunnar, sem sást 1618, og um hverja hjer í Íslandi voru orktir nokkrir sálmar, skein yfir meir enn helmíng himinsins; sunnarlega í Norðurálfunni (því þar ber meira á halastjörnum enn hjer norðarlega) skein hali stjörnunnar 1680, sem hún Hallgerður var áðan að segja ykkur frá, yfir hálfan himininn, og halinn á þeirri, sem sást 1744, hver þó var ei nærri svo stór, sem á þeim er jeg fyr nefndi, var mældur að vera 1 millíón og 400 þúsund þíngmannaleiðir.

GUÐMUNDUR. Hvað leingi er slík halastjarna vön að sjást í einu?

PRESTUR. Það er misjafnt eptir sem stjörnunnar gángur er. Af eingri halastjörnu vita menn, sem hafi sjest yfir eitt missiri. halastjarnan, sem sást 1769, og sem jeg hjer í landi sýndi nokkrum, sást í 4 mánuði. Hali hennar reiknaðist 8 millíónir þíngmannaleiða, en ekki sýndist hann með beru auga ofsalángur.

LÝÐUR. Er hjá þeim, sem í halastjörnum búa kynnu, vetur og sumar eins og hjá okkur hjer á jörðunni?

PRETUR. Guð hefur tilbúið sínar skapaðar skepnur uppá svo ýmislegan máta, og hefur valið þau hentugustu meðöl, til að koma sínum allra bezta ásetníngi fram hjá þeim öllum, svo að vjer skiljum minnst í því, eigum því hvorki að efast um hans gæðsku, mátt nje speki í að gjöra allt hið bezta, hann sá líka í öndverðu allt hvað hann hafði skapað, og þá var það harla gott. Það er því ekki von vjer skiljum hvernig halastjörnum er varið, þegar vjer ei skiljum svo ótal margt, sem vjer daglega

höfum handa á meðal. t. d. stóra halastjarnan 1680, sem tal þetta reis útaf, kom 166 sinnum nær sólunni, og reyndi hennar hita 28 þúsund sinnum meir enn jörðin, það er: að hún varð 2000 sinnum heitari enn glóandi járnmillti er, ef hún hefur verið eins meðtækileg fyrir hita, sem það; aptur á mót má nærri geta hvaða kuldi í henni má vera, og hvað lítil birta, þegar hún er leingst frá sólunni, þar hún yfir 280 ár er að fjarlægjast sólina meir og meir. Nokkuð má ráða hvað stór umbreytíng verði á halastjörnunum við það þær nálgast sólina, því þá vex hali þeirra mjög og þær eru þá í sífeldri þoku; en hvað skal þá segja um halastjörnuna, sem sást 1779, í hverri eitt ár er 19009 vor ár, og sem fer 11 sinnum leingra burt frá sólunni enn Úranus, hver þó er 19 sinnum fjær henni enn vor jörð, samt er þessi 3 millíónir, 784 þúsund þíngmannaleiðir frá sólunni. Til eru þær halastjörnur, sem eru halalausar, en þær þekkjast af gánginum, sem öðruvísi enn plánetanna, og þær fara líka leingra til norðurs eða suðurs enn plánetur. Af þeim fjórum nýju halastjörnum, sem fundust á minna enn einu ári frá 18. Októbr. 1780 til 9. Októbr. 1781, sást eingin með berum augum, en einasta á tveimur þeirra sást hali.

Af þessu öllu sjáið þið þá, börnin góð! að halastjörnurnar eru partar af heiminum, hvern guð í öndverðu skapaði, og þá setti hverjum hans parti, hverjum einum jarðarhnetti, sín lög og sinn gáng, sem þeir ætíð síðan hafa og halda munu, þángað til þeim alvísa, algóða og almáttuga herra kynni þóknast með einu sínu orði að umbreyta þessu öllu, eða nokkru. Halastjörnurnar, eins vel, sem allur himinsins her, útbreiða hans dýrð, sýna hans almætti og speki, og það að vor jörð er ei meira enn duptkorn í metaskálinni, þó virðist hann blessaður, að

hafa umsjón fyrir þessu dupti, fyrir þessa duptkorns innbyggjendum, sem erum vjer mennirnir. Hefjum því upp vor augu, eins og spámaðurinn að orði kemst Esa. 40, 26. „Hefjum því upp vor augu, og sjáum hver svo mikla hluti hefur gjört, leiðir allan þenna her út, og nefnir þá alla (sem í honum eru) með nafni! hans kraptur og máttur er stór, svo ekki einn þeirra brestur„. Að hugsa halastjarnanna gángur boði ólukku, er fásinna, þeirra gángur er af skaparanum eins skorðaður, og hverrar annarar reikandi stjörnu, og það er sama tilhæfi til að halastjarna boði ókomna hluti, eins og að þjófur steli, sótt gángi, eður íllviðri komi, af því túnglið sjáist einhverntíma í hádegisstað á öllum vetrinum; og jeg legg það að jöfnu, að halastjarnan, sem sást 1680, hafi boðað að þjófur stal sjer til heingíngar skömmu seinna, eins og það var fyrir halastjörnunni, og boðaði hana, að annar þjófur kann hafa stolið einhverju skömmu á undan. Himintúnglin hafa öll sinn afskamtaðan gáng, eins og jeg strax sagði, því, „guð er sá, sem gjört hefur stjörnurnar á himninum, hann gjörir dásamlega hluti, sem einginn getur útgrundað, og óteljandi kraptaverk,„ Job. 9, 9. 10. En syndir vorar og ránglæti eru þau, sem vissast og óefanlega boða oss ólukku og guðs straff. Það er gamalt boðorð, „að menn ekki eigi að hræðast himinteiknin", Jer. 10, 2. hefur samt aldrei verið apturkallað. Sú ýðran, sem kemur af hræðslu fyrir himintúnglunum er sjaldan lánggæð; hún er opt áþekk skipmanna ýðrun, er hefur orð fyrir að vera mjög bráð og heit meðan háskinn yfir stendur, en vera gleymd þegar sjór og vindur aptur leika í lyndi. Vanvitrir menn hugsa lítið útí guðs dásemdarverk á meðan ekkert ábjátar, hlæja að þeim, sem eyða tíma og ómaki til þess að yfirvega þau, en sjálfir þeir hafa mestu virðíngu

fyrir spásagnarfólki, kunnáttumönnum og sjervitríngum, sem með vissum leyndardómssvip, tilgjörðarlegu augnaráði, undirfurðuhætti, stunum, dæsum og dylgjum, uppæsa einfaldra eptirvæntíngu, tala við þá eptir geði þeirra, og inntaka einfeldnínganna innbirlíngu, en þegar eitthvað fásjeð tilber, svo sem þá stór sólarformyrkvan, halastjarna, mikill himinroðmi, eða þvíumlíkt sjest, blikna upp, tala um ekkert annað enn dómadag, stríð, drepsótt og guðs syndastraff, en strax, sem það er hjáliðið, lifa og láta í glaum og gjálífi, í dreggjum hrekkvísinnar, eins eptir sem áður. Meti hver slíka yðrun eptir sem hann finnur fyrir rjettast, en jeg hef lært að guð eigi að prísast með góðum verkum, með því að lifa hreinferðuglega, guðlega og spaklega í heimi þessum, og með því að yfirvega verkin drottins og vegsama hann fyrir þau. Þau vitna um hans dýrð og gæðsku. „Lofið hann, — segir Davíð sálm. 148, 3 — 6. Lofið hann sól og túngl! lofið hann allar skært skínandi stjörnur! Lofið hann þjer hæstu himnar! lofið hann skýin í loptinu! vegsamið dýrð drottins! því hann skipaði, og strax var það allt skapað. Hann skorðaði það, að það ætíð skyldi vera innan sinna takmarka; hann setti því lög, sem það aldrei yfirtreður„.

## VIII.

*Hafið gát á yður og biðjið, ætíð nær þjer getið því viðkomið, svo þjer mættuð verðugir álítast að sleppa hjá því, sem fram mun koma og að verða Messíasar handgeingnir þjenarar Lúc. 21, 36.*

Út af þessari epirtektaverðu grein ásetti jeg mjer að tala við börn mín í kvöld um bænar aðferðina og það, sem vjer ætlum okkur með bæninni að geta afrekað, en þar jeg nýlega hafði lesið fallegt

samtal um sama efni, ljet jeg mjer nægja að brýna það fyrir þeim. Faðir hans Guðlaugs litla hafði gefið honum kver, á því voru ýmsir góðir lærdómar handa börnum, og samvaldar fallegar ritníngargreinir. Guðlaugi þótti vænt um bókina, og var strax fyrsta daginn búinn að lesa mikið af henni. Meðal annara fann hann þessa ritníngargrein:

*Drottinn er nálægur öllum þeim, sem ákalla hann, hann er hjá öllum þeim, sem sannarlega ákalla hann. Hann gjörir það, sem þeir guðhræddu girnast, hann heyrir þeirra kall, og hjálpar þeim. Sálm. 145, 18. 19.*

Útí þessa ritníngargrein fór Guðlaugur að hugsa, og þótti hún mjög eptirtektaverð; hann fjell í þánka, studdi hönd undir kinn, og hugsaði með sjálfum sjer: „jeg er guðhræddur, jeg bið á hverjum degi, „og þó gjörir guð minn góður ekki allt hvað jeg „girnist. Það er ekki meir enn mánuður síðan hún „amma mín sæl var sjúk, eg var í heila 2 daga sí„feldlega að biðja, og þó tók guð minn góður hana „frá mjer.“ Faðir hans kom í þessu að honum, og sá að Guðlaugur var í djúpum þaunkum, þaraf reis eptirfylgjandi samtal milli feðganna:

FAÐIRINN. Því ertú svo stúrinn Guðlaugur minn? kannske þjer líki ekki bókin þín?

GUÐLAUGUR. Ójú, faðir minn góður! mikið vel.

FAÐIRINN. Jeg sje þó að þjer þykir eitthvað að?

GUÐLAUGUR. Jeg fann hjerna ritníngargrein, sem jeg skil ekki.

FAÐIRINN. Hvernig hljóðar hún?

GUÐLAUGUR. Guð gjörir það, sem þeir guðhræddu girnast.

FAÐIRINN. Hvað þykir þjer óskiljanlegt í því?

GUÐLAUGUR. Jeg bið líka, og þó gjörir guð ekki allt, sem jeg girnist.

FAÐIRINN. Það er sjerlegt! jeg fyrir mitt leiti fæ af guði allt, sem jeg bið um. Hvað hefur þú þá beðið um, sem guð hefur ekki viljað gefa þjer?

GUÐLAUGUR. Að hún amma mín sæl mætti lifa.

FAÐIRINN. Hvernig baðstú þá?

GUÐLAUGUR. Jeg las á enda allar Þórðarbænir, sem hann föðurbróðir minn hafði gefið mjer.

FAÐIRINN. Er þarí nokkur bæn fyrir sjúkri ömmu?

GUÐLAUGUR. Nei.

FAÐIRINN. Þegar þú vilt fara út að leika þjer, og biður mig um að lofa þjer það, ætlar þú þá að lesa upp fyrir mjer það góða óska brjef, sem hann lærimeistari þinn skrifaði handa þjer á dögunum?

GUÐLAUGUR. (brosandi) nei.

FAÐIRINN. Því ekki?

GUÐLAUGUR. Þareð í því stendur ekkert um, að fá að fara út til að leika sjer.

FAÐIRINN. Því vildir þú þá fara að lesa út bænabókina þína fyrir guði, þegar þú ætlaðir að biðja fyrir henni ömmu þinni sælu, þareð ekkert var í bókinni, sem heyrði til því efni?

GUÐLAUGUR. (hugsar sig nokkuð um) Já; nú skil jeg, hvað mjer hefur orðið á. Jeg hefði átt að láta hann lærimeistara minn gjöra bæn handa mjer fyrir henni ömmu minni, þegar hún lá. Jeg hefði átt að lesa hana upp margsinnis á dag, þá hefði guð minn góður ekki tekið hana ömmu mína sælu frá mjer (hann fer að gráta).

FAÐIRINN. En þegar þú biður mig að lofa þjer að fara út að leika þjer, hver gjörir þá bænina handa þjer um það?

GUÐLAUGUR. Einginn.

FAÐIRINN. Hvernig getur þú þá beðið, þegar einginn gjörir bænina handa þjer?

GUÐLAUGUR. Jeg tala eins og mjer býr í brjósti. Jeg veit að þjer erað góður við mig, faðir minn! og þjer takið það ekki illa upp fyrir mjer, þó orðin sjeu ekki alltjafnt vel löguð.

FAÐIRINN. Hvað ætli þú segðir þá, þegar þú vildir biðja mig, að lofa þjer að fara út að leika þjer?

GUÐLAUGUR. Faðir minn góður! það er ofurgott veður í dag; lofið þjer mjer, að fara uppá túnbrekkuna; jeg skal vera skikkanlegur; jeg skal ekki fara leingra, og vera ekki leingur í burtu, enn þjer lofið mjer.

FAÐIRINN. Heldur þú jeg muni veita þjer þá bæn?

GUÐLAUGUR. Ójá! það held jeg; nema þjer hefðuð einhverjar sjerlegar orsakir til að láta mig vera heima.

FAÐIRINN. Heldur þú að guð þinn góður elski þig eins mikið og jeg?

GUÐLAUGUR. Jeg held hann elski mig enn meir, því þjer hafið sagt mjer, að allt það góða, sem þjer gjörið mjer, komi frá honum, og hann muni hafa umhyggju fyrir mjer, þó þjer dæuð frá mjer.

FAÐIRINN. Það er aldeilis rjett! gættú að augunum, eyrunum og öllum limum á þjer, það allt hefur hann gefið þjer, þó ekki hafir þú beðið hann um það. Það getur ei annað verið enn hann elski þig mikið. Því þorir þú þá ekki að tala við hann það, sem þjer leikur hugur á?

GUÐLAUGUR. Því hann er svo stór og voldugur herra.

FAÐIRINN. Satt er það. En ef konúngurinn okkar væri faðir þinn, ætli þú mundir ekki eins tala við hann, eins og þú nú talar við mig?

GUÐLAUGUR. Jeg held það.

FAÐIRINN. Skoðaðu þá! guð er líka þinn faðir.

Þegar þú les þá bæn, sem hann hefur kennt okkur, þá lætur hann okkur kalla sig föður okkar.

Guðlaugur. Hana þá! jeg skal hjer eptir tala við guð, eins og jeg er vanur að tala við yður.

Faðirinn. Gott er það. Ef hún amma þín sæla lifði núna, hvernig ætli þú vildir þá biðja guð fyrir henni?

Guðlaugur. (hugsar sig um) „guð minn góður!" „skyldi jeg segja, „láttu hana ömmu mína ekki deyja! „hún elskar mig, hún minnir mig á svo margt gott. „hún segir mjer úr biblíunni, hún ávítar mig þegar „jeg er óskikkanlegur, en gefur mjer köku þegar „jeg er ástundunarsamur og stiltur. Æ! láttu hana „ekki deyja! (hann fer að gráta).

Faðirinn. Rjett og gott! sú bæn hefði verið guði þægileg.

Guðlaugur. En ætli hún amma mín sæla hefði nú lífað, ef jeg hefði beðið svona?

Faðirinn. Segðu mjer enn aptur ritníngargreinina, sem þú varst að hugsa útí?

Guðlaugur. Hann gjörir það, sem þeir guðhræddu girnast.

Faðirinn. Hverra girnd uppfyllir guð?

Guðlaugur. Þeirra guðhræddu?

Faðirinn. Óttast þú þá guð?

Guðlaugur. Ójá! jeg skelf og hleyp í felur, þegar jeg heyri, að hann sendir reiðarþrumur. Jeg verð hræddur þegar hann lætur storminn blása. Mig hryllir við þegar jeg hugsa til helvítis.

Faðirinn. Allt þetta gjörði hún Signý, sem var vinnukona hjá mjer árið að tarna, og sem jeg varð að reka burt úr vistinni. Var hún þá líka guðhrædd?

Guðlaugur. Það er ómögulegt, hvernig gat slík ókind hafa óttast guð?

Faðirinn. Því sýnist þjer það ómögulegt?

Guðlaugur. Hún blótaði sífeldlega, hún var ófróm, að hún hlýddi hvorki föður nje móður.

Faðirinn. Er það þá nóg til að vera guðhræddur, að vera hræddur við reiðarþrumur, storm og helvíti?

Guðlaugur. Nei! jeg sje núna það er ekki nóg.

Faðirinn. Hvað útheimtist þá meira til þess?

Guðlaugur. Að hlýða guði.

Faðirinn. Gjörir þú það?

Guðlaugur. Æ! ekki alltíð.

Faðirinn. En þegar þú ferð sannarlega að verða guðhræddur, hvers viltú þá óska?

Guðlaugur Að jeg gæti verið guði hlýðinn.

Faðirinn. Er það hægt að vera guði hlýðinn?

Guðlaugur. Jeg held það sje ekki hægt. Jeg hugsa mjer dag hvern að vera það, og get þó ekki efnt það.

Faðirinn. Þú fjekkst ávítur í gær fyrir það, þú hafðir ekki lært lektsíuna, sem búið var að setja þjer fyrir; því forsómaðir þú að læra hana?

Guðlaugur. Jeg var frábitinn því.

Faðirinn. Í hinn fyrra daginn fórst þú út svo jeg vissi ekki af. Því gjörðir þú það?

Guðlaugur. Hann Sigmundur bræðrúngur minn kom mjer til þess.

Faðirinn. Þú kannske verðir enn margsinnis frábitinn því, sem gott er, og hann Sigmundur bræðrúngur þinn kannske beri sig aptur að koma þjer til íls. Hvernig viltú fara að, svo þetta gjöri þig ekki óhlýðinn?

Guðlaugur. Það mundi vera gott, ef jeg bæði guð minn góðan, að varðveita mig frá óhlýðni.

Faðirinn. Hvernig vildir þú þá biðja?

Guðlaugur. (eptir að hann hafði hugsað sig nokkra

stund um) guð minn góður! gefðu mjer lyst til þess, sem gott er, og varðveittú mig svo hann Sigmundur frændi minn komi mjer ekki til þess, sem íllt er

Fadirinn. Getur þá einginn annar komið þjer til þess, sem íllt er?

Gudlaugur. Ójú! dreingurinn í kotinu kom mjer einusinni til að taka brauð, og jeg var farinn að blóta henni Signýju.

Fadirinn. Hver veit hvað margir aðrir kynnu enn nú að verða til að leiða þig afvega? þú verður þá að hafa bænina öðruvísi.

Guðlaugur. Já! jeg ætla að segja: „varðveittú „mig, guð minn góður! að einginn leiði mig afvega.“

Faðirinn. Manstú til þess, að þú lágst veikur í haust? þú baðst læknirinn að gefa þjer aptur heilsuna, hverju svaraði hann þjer?

Guðlaugur. Jeg vil feginn gjöra það, Guðlaugur minn góður! sagði hann. En þú verður þá að taka inn dropana, eins opt og jeg hef sagt fyrir, og liggja kyr, svo ekki komi kuldi að þjer.

Fadirinn. Ætlar þú þjer hefði batnað, ef þú hefðir ekki gjört það?

Guðlaugur. Varla held jeg það.

Faðirinn. Guð hefur líka skipað okkur hvað við eigum að gjöra, ef við viljum hlýða honum. Jeg sagði þjer það fyrir skömmu, manstú það núna?

Guðlaugur. „Jeg á opt að hugsa til guðs; þeg„ar jeg er latur til þess góða, á jeg að hugsa stöð„uglega um þá ánægju, sem er vön að fylgja yðni „og góðum verkum; þegar jeg hef lyst til ílls, þá á „jeg að hugsa útí hið vonda, sem það dregur eptir sig.“

Fadirinn. Hvað ættir þú þá að gjöra, ef hann Sigmundur frændi þinn færi enn aptur að koma þjer til þess, sem er íllt?

Guðlaugur. Jeg ætti að hugsa um ávíturnar,

sem jeg feingi hjá yður, og hversu yður mundi mislíka, ef jeg ljeti hann ráða fyrir mig.

Faðirinn. Ef þú vildir biðja guð að gefa þjer hlýðni, en þú vildir samt ekki gjöra það sem þjer ber, heldur þú að bænin mundi þá hjálpa þjer?

Guðlaugur. Varla held jeg það. Jeg hugsa það yrði viðlíka, og þegar jeg beiddi lækninn um heilsuna, að jeg ætti líka að gjöra það, sem mjer væri skipað.

Faðirinn. Þá sjer þú þá hversvegna guð svo sjaldan gjörir það, sem mennirnir biðja um. Annaðhvort er þeirra bæn, að þeir einasta lesa upp úr bænabókum, það sem ekki á við þeirra ástand, ellegar þeir óttast ekki guð rjettilega, ellegar þeir leggja það ekki sjálfir til með hlýðninni, sem þeir eiga að gjöra.

(Hjer var föður hans Gauðlaugs sagt, að gestur væri kominn, sem vildi tala við hann, hann hætti þess vegna, en lofaði daginn eptir, að bæta þetta samtal),

Guðlaugi þótti mikið vænt um, að hann þurfti nú ekki leingur að efast um, hvernig bænheyrslunni er varið. Hann fjell glaður á knje, og bað: „æ! „guð minn góður! mikil gleði er mjer, að þú elsk„ar mig svo mjög, og jafnvel meir enn hann faðir „minn. Æ! jeg vildi jeg væri svo góður, sem jeg á „að vera! æ! jeg vildi jeg gæti hlýðt hjer í öllu eins „og gott barn! gef þú mjer lyst til þess góða! varð„veit mig, að jeg ekki afvega leiðist til ílls! jeg vil „gjarnan gjöra allt hvað jeg get, til að forðast ó„hlýðni.“ Þegar hann hafði endað þessa sína bæn, var hann lángtum ánægðari og fúsari til góðs, enn áður. Með gleði tók hann kverið sitt, og fór að læra ætlunarverk sitt, sem honum var sett fyrir til þess daginn eptir, og vegna þess hann hafði lyst á verki

sínu, svo átti hann lángtum hægra með að læra, enn hann var vanur.

A meðan hann hafði þetta nytsamlega verk fyrir hendi, kom frændi hans Sigmundur, og vildi fá hann með sjer í leik; en þó lystin vaknaði hjá Guðlaugi ad þyggja það boð, svo rann honum strax í hug, að það væri ekki rjett gjört af sjer, að fara að leika sjer, meðan hann væri ekki búinn með það, sem honum væri sett fyrir, og að hann mundi styggja, guð, ef hannn geingi á það heit, sem hann fyrir litlu stundarkorni hefði gjört.

„Frændi minn góður!“ sagði hann, „nú get jeg það „ekki, en strax og jeg er búinn með það, sem jeg „á eptir að læra, skal jeg gjarnan koma.“ Sigmundi þókti miður, og sagði, þá hyrði hann ekki um það. „Hana þá,“ svaraði Guðlaugur. „jeg ætla þá að vera „kyrr, en gjörðu það fyrir mig, að fipa ekki fyrir „mjer núna.“

Sigmundur fór fyrtur í burt, en Guðlaugi þótti vænt um, að hann svo lukkulega hafði yfirunnið freistnina. Hann var rólegri um kvöldið þegar hann fór að hátta, enn hann var vanur, og þakkaði guði, sem í þetta sinn svo auðsjáanlega hafði bænheyrt hann. Morguninn eptir fór hann að finna föður sinn, og bjóða honum góðan dag. Faðir minn góður! sagði hann, nú hef jeg reynt að guð gjörir það, sem þeir guðhræddu girnast. Jeg bað guð í gær að gefa mjer lyst til þess góða, og vernda mig frá að leiðast afvega. Hann hefur bænheyrt mig. Jeg var viljugur i gær að læra lektsíuna mína. Hann frændi minn vildi fá mig í leik með sjer, en jeg hafði dirfsku til að vísa honum frá mjer. Faðirinn faðmaði að sjer son sinn Haldtú áfram, sonur minn sagði hann, í því að hafa svo einlæga umgeingni við þinn guð, og þá mun þjer sífeldlega

fara fram í öllu góðu, og að reyna hans elsku, þú munt komast að raun um, að guðhræddur maður biður aldrei forgefins.

Ef jeg, sagði Guðlaugur, hefði beðið eins fyrir henni ömmu minni sælu, haldið þjer hún mundi þá hafa lifað núna?

Faðirinn. Jeg skal strax gefa þjer andsvar, þegar þú ert búinn að svara mjer til fárra einna spurnínga.

Guðlaugur. Ójá, faðir minn góður! ef jeg get það.

Faðirinn. Þegar þú biður mig að leggja út fyrir þjer ritníngargrein, eða sýna þjer grundvöllinn til einhverrar reglu í látínu máli, er jeg þá vanur að neita þjer um það?

Guðlaugur. Aldrei

Faðirinn. Því þá aldrei?

Guðlaugur. Því jeg held yður þyki ríða á því, að jeg allt af læri meira og meira gott.

Faðirinn. En þegar þú biður mig um sleikjusætindi, um sparifötin þín, um leyfi til að fara út, fær þú þá alltíð það, sem þú biður um?

Guðlaugur. Ekki alltíð.

Faðirinn. Því þá ekki?

Guðlaugur. Þjer hafið einusinni sagt mjer, að þjer hefðuð betur vit á enn jeg hvað mjer væri hollast. Jeg held þess vegna þjer neitið mjer um margt, vegna þess þjer sjáið, að það er mjer ekki hagkvæmt.

Faðirinn. Þú svaraðir vel! þegar þú þá heldur, að jeg viti betur enn þú, hvað þjer er hagkvæmt, hvernig áttú þá að laga bæn þína? hún móðir þín ætlar að hafa pönnukökur til borðs í dag, og jeg veit þú munir biðja um nokkuð af þeim; hvernig viltú þá haga orðum þínum?

Guðlaugur. Faðir minn góður! ætla jeg að segja, gefið þjer mjer nokkuð af kökunum þeim arna, ef þjer haldið þær sjeu mjer hollar.

Faðirinn. En ef jeg gef þjer nú ekkert, af hverju heldur þú það komi?

Guðlaugur. Þjer haldið þá, að þær sjeu mjer ekki hollar.

Faðirinn. En getur þjer þá þókt miður við mig, af því jeg neita þjer um þá bæn?

Guðlaugur. Ekki held jeg það.

Faðirinn Og því ekki?

Guðlaugur. Af því jeg beiddi um kökurnar undir því skilyrði, að þjer hjelduð þær væru mjer þjenanlegar.

Faðirinn. Skoðaðú þá! allteins er varið bæninni til guðs; þegar þú biður að guð vilji gefa þjer lyst og krapta til þess, sem gott er, heldur þú þá hann bænheyri þig?

Guðlaugur. Ójá!

Faðirinn. Og því þá?

Guðlaugur. Vegna þess jeg veit hann vill að jeg sje góður.

Faðirinn. En þegar þú biður um aðra hluti, t. d. að foreldrar þínir sjeu heilsu góðir, um barnagull, um peninga, eður þess háttar, hugsar þú að það sje þjer alltíð þjenanlegt?

Guðlaugur. Ekki held jeg það. Hann móðurbróðir minn gaf mjer einusinni boga, og með honum skaut jeg af gáleysi í gluggann hans nábúa okkar, svo ein rúðan brotnaði. Jeg sá fyrirfram hvaða refsíngu og ávítur jeg mundi fá hjá yður, og jeg varð svo hræddur, að jeg margsinnis óskaði jeg aldrei hefði sjeð þann boga.

Faðirinn. Hver veit þá betur, guð eða þú, hvað þjer er gagnlegt?

Guðlaugur. Það er einginn efi á því; guð.

Faðirinn. Hvernig viltú þá haga bæn þinni, þegar þú biður guð um þess háttar hluti? svo sem t. d. ef þú ættir nú að biðja fyrir henni ömmu þinni sjúkri, hvernig ætli þú mundir orða það?

Guðlaugur. „Guð minn góður! láttú hana ömmu „mína lifa, ef mjer er það þjenanlegt.“

Faðirinn. En þú átt ekki einasta að biðja fyrir þjer, þú átt líka að biðja fyrir henni ömmu þinni. Ef það hefði verið ólukka fyrir hana að lifa leingur, hefðir þú þá viljað biðja um, að guð skyldi gjöra hana ömmu þína ólukkulega þín vegna?

Guðlaugur. Ónei!

Faðirinn. Þú verður þá að laga bæn þína öðruvísi.

Guðlaueur. Já! jeg hefði átt að segja: „guð „minn góður! ef það er mjer og henni ömmu minni gagnlegt, þá láttú hana lifa!“

Faðirinn. Ef þú hefðir beðið þannig og hún amma þín hefði dáið samt: hvað mundir þú þá hafa hugsað um guð?

Guðlaugur. Að hann hafi þekkt, að annaðhvort hefði mjer eða henni eða báðum verið óþjenanlegt að hún lifði leingur.

Faðirinn. Hefðir þú þá með rjetti getað skuldað guð fyrir óhaldinyrði, þó hann hefði ekki bænheyrt þig?

Guðlaugur. Lángt frá, því jeg hafði ekki beðið um annað, enn að hún amma mín mætti lifa, með því móti, að það væri bæði mjer og henni þjenanlegt.

Faðirinn. Þú sjer þá, að guð gjörir allt, sem þeir guðhræddu girnast, það er biðja um, því þeir biðja guð einkanlega um lyst og krapta til hins góða. Það fá þeir alltíð, því sjálfur guð vill, að þeir sjeu góðir. Um aðra hluti biðja þeir alltíð með þeim

skilmála: ef guð sjái þeim það þjenanlegt. En þar eð guð er þeirra elskuríkur faðir, svo gefur hann þeim eptir þeirra girnd og beiðni allt það, sem þeim er þjenanlegt. En þá þeir opt ekki fá það, sem þeir biðja um, hugga þeir sig með því, að guð hafi þekkt þeim sje það skaðlegt.

---

Guðlaugur var vel ánægður með þessa útleggíngu. Þegar hann fór á fætur á morgnana, bað hann alltíð guð að gjefa sjer lyst og krapta til þess góða. Þegar hann var latur að því, sem hann átti að gjöra, ellegar fann að þrá og vondska breiddu sjer hjá honum, þá bað hann guð að hjálpa sjer að yfirvinna þau. Þegar lagsmenn hans vildu lokka hann til ílls, þá beiddi hann guð um hug og dug til að mótstanda þeirra tillokkunum. Hann vandi sig á að hugsa sífeldlega um, að guð væri nálægur. Hann hafði sjer ætíð fyrir hugskotssjónum þá ánægju, sem fylgir góðum verkum, og það ángur, sem leti, vondska og óhlýðni draga eptir sig. Þar af fór honum svo fram á stuttum tíma, að allir elskuðu hann, og hann var settur lagsmönnum sínum til eptirdæmis.

Tveimur árum þar eptir lagðist faðir hans i sótt. Guðlaugur beiddi guð daglega fyrir honum. Hann bað grátandi: „guð minn góður! ef það er „honum föður mínum og mjer fyrir beztu, þá láttú „hann lifa leingur.“ Faðir hans dó samt, Guðlaugur syrgði hann mjög, því þeir feðgar höfðu hjartanlega elskað hver annan. En Guðlaugur gat huggað sig. Hann hugsaði með sjer: „guð minn góður „hefði vissulega látið mig halda mínum elskuríka „föður, ef hann hefði ekki þekkt, að hans dauði var „betri bæði honum föður mínum og mjer. Máske „guð hafi tekið hann burtu til þess, að flytja hann

„þess fljótar inní himnaríki, og til að sýna mjer, að „guð er minn rjetti faðir.“

Eptir þá tíð hrósaði Guðlaugur sjer opt af því, að hann með bæninni hefði ljett af sjer allri sorg, neyð og mæðu. Hann fór margsinnis til grafar föður síns, og sagði grátandi: „guð launi þjer í allri „eilífð, minn bezti faðir! að þú kenndir mjer að „biðja.“

Áður enn við skiljum við þetta efni, skulum við taka undir hvert með öðru, og sýngja seinasta versið af sálmiuum: Ó! hvað bæn mannsins öflug er: *Bænin skal vera skikkuð rjett,* etc.

---

## IX. GÓÐ BÖRN ERU FORELDRANNA BEZTA AUÐLEGÐ.

---

### Gleði handa börnum
*í tveim flokkum.*

---

Þeir, sem gleðina leika, eru:

*Kristján,* kaupmaður.
*Steinn,* kaupmaður.
*Margret,* dóttir hans Kristjáns 15 vetra
*Hinrik,* bróðir hennar 14 vetra.
*Anna,* dóttir hans Steins 15 vetra.
*Hermann,* sonur hans Steins 13 vetra.
*Pjetur,* Hinriks skólameistari.
Einn kaupmanns þjón.

Fyrri flokkurinn fer fram í herbergi í húsinu hans Kristjáns, en sá síðari í skrifstofunni í húsinu hans Steins.

---

## Fyrri flokkurinn.

### 1. atriði.

*Margret. Hinrik.*

(Hafa thedrykkju við borð, og er Margret að hella á bollana.)

Hinrik. Ertu búin að hella á bollann handa mjer? Margret mín góð!

Margret. Já! þarna; (hún fær honum bollann, og hann drekkkur). Heyrðu! segðu mjer hvað að honum föður okkar góðum muni gánga? hann smakkaði hvorki vott nje þurrt, kastaði utanyfir sig klæðun um, og fór sem fljótast burt. Jeg bauð honum góðan dag --- þú veitst hvað góður, hýr, ljúfur og ræðinn hann er vanur að vera, á meðan verið er að drekka thevatnið, en hann tók ekki undir við mig. Jeg bauð honum aptur góðan dag og kyssti á hönd hans, hann tók í höndina á mjer, og leit ofur raunalega til mín.

Hinrik. Spurðir þú þá ekki hvort ekkert geingi að honum, eða hvort honum þækti nokkuð fyrir?

Margret. Jú! en hann svaraði ekki nema: „þið fáið, því ver og miður! nógu snemma að vita „það."

Hinrir. Æ! honum býr eitthvað þúngt í skapi. Núna í nokkrar nætur, þegar jeg hef vaknað, hef jeg heyrt til hans, að hann hefur stunið, og nærri því snöktað, og einusinni þegar ekkert bar á mjer annað enn jeg svæfi, heyrði jeg hann sagði: „æ! vesælíngs börnin mín!"

Margret. „Æ! vesælíngs börnin mín!" hvernig getur hann aumkað okkur meðan við eigum slíkan föður? en satt er það, að lukka okkar væri enn fullkomnari, ef okkar góða móðir væri enn á lífi.

Hinrik. Já! en ekki hefur það núna verið meiníng hans. Það er eitthvað, sem honum sjálf-

um viðkemur. Eitthvað má báglegt hafa uppáfallið fyrir honum, eða vera í vændum, en hann hafa aumkað okkur meir enn sjálfan sig.

Margret. Ef við kæmumst að hvað það væri, þá kannske við gætum eitthvað gjört honum til vilja, linað sorg hans, eða huggað hann.

Hinrik. Við — ætli við gætum það? að vera honum hlýðin? — það gjörum við gjarnan, hann lætur okkur vera það hægt; að láta vel að honum; — það gjörum við líka, og hugur okkar skipar það. Heyrðu! mig er farið að gruna nokkuð — jeg hef tvisvar, eða svo, sjeð að hann hefur feingið brjef, hrist höfuðið við og sagt í hálfum hljóðum við sjálfan sig: „illa fer það! kvöl er það! ekki verður mjer „aptur neitt úr þessari von!“ hvernig ætlar þú peninga ástand —?

Margret. Það vekur vissan þánka upp hjá mjer — þú manst hvað mikið hann missti, þegar hann Játgeir gat eingum sínum skuldaheimtumönnum borgað: þá sagði hann, þegar hann frjetti það: „einn missir eptir annan! haldi því arna fram, hvað „ætli þá verði að lokunum!“

Hinrik. Jeg hef sjeð, að nú í nokkra daga hefur svo að segja aldrei verið mannlaust í skrifstofu hans. Í gjær kom jeg snöggvast þar inn til að sýna honum skriptina mína. Í því kom þjenari inn til hans, sem átti að heilsa honum frá hússbónda sínum, og spyrja hvað liði með að borga það, sem þeim á milli færi? síðan meðan jeg var að fara upp stigann, heyrði jeg að eitthvað hátt gekk á milli þeirra.

Margret. Þú munt geta rjett til! jeg hugsa að hann muni vera í skuld, og geta ekki borgað.

Hinrik. Svo mun vera! en það er jeg viss um hann hefur ei getað að því gjört. Hann hefur misst

hjá hinum og þessum, og nú mun hann ekki hafa svo mikið, sem hann þarf.

Margret. Æ! taki hann allt af mjer, sem jeg á.

Hinrik. Blessuð vertú! hvað ætli það hrökkvi? varla til að borga með einn saumareikníng.

Margrft. Við verðum að bera okkur að fá hann til að segja okkur það. Æ! meðau hann er svona sorgbitinn, hef jeg einga gleði í veröldinni. Þó ekki væri annað þá gætum við samt að minnsta kosti haft hlutdeild í sorg hans með honum.

Hinrik. Já! guð gæfi við gætum líka hjálpað honum! en jeg skal strax, sem hann kemur, og jeg sje að hann er hnugginn, bera mig að komast eptir hvað það er, þángað til hann segir mjer hvað að sjer gángi, og þó hann fyrtist við mig.

Margret. Hann faðir minn góður! — fyrtast? — þegiðu! mjer heyrist hann koma upp stigann — en hvað fljótt hann hleypur! —

## 2. atriði.

*Margret. Hinrik. Kristján.*

(Kristján kemur úfinn, kastar hattinum og stafnum á borðið, og fleigir sjer raunalega í lenastólinn, en talar ekki orð. Bæði börnin koma hægt og hálf hrædd til hans. Margret tekur hægri höndina á honum og kyssir, en Hinrik þá vinstri, með hverri Kristján þó heldur fyrir augun á sjer. Hann tekur með henni í hönd hans Hinrks, en lítur raunlega og þegjandi til barnanna).

Margret. Hvað hefur komið fyrir yður? faðir minn góður!

Hinrik. Er yður nokkuð íllt? — æ! talið þjer við okkur!

Margret. Æ! talið þjer við okkur, faðir minn góður! yðar sorg stíngur mig í hjartað!

Hinrik. Jeg nærri græt af ángist!

Kristján. Æ! vesælíngs börnin mín! jeg vildi jeg þirfti ekki að segja ykkur það!

Margret. Ekki? því ekki? vera má yður verði það til ljettirs?

Kristján. Æ! stórs —

Hinrik. En það sýnist á því, sem þjer segið, að við verðum að fá að vita það; og óvissan —

Kristján. Já! víst verðið þið að vita það — þið skuluð þá vita — æ! að jeg — að jeg — er svo gott, sem tapaður frá ykkur — þið mjer!

Margret. Guð minn góður láti það ekki vera.

Hinrik. Hvernig er það mögulegt, á meðan guð lætur yður vera lífs?

Kristján. Æ! í hið leingsta að stundu liðinni hjer frá — leingur ekki — skil jeg við ykkur —

Margret. Þjer! að skilja við okkur? við skulum samt ekki skilja við yður.

Hinrik. Æ! hvert ætlið þjer að fara, að við getum ekki fylgt yður?

Kristján. Í myrkrastofu börnin mín!

Margret. Í myrkrastofu! æ! guð minn góður!

Hinrik. Hver ætli varni okkur að fylgja yður þángað? — og þó það væri í dauðann?

Kristján. Jeg — æ! mín elskulega Margret! minn bezti Hinrik! þið einsömul eruð, sem mjer svíðið sárt í óláni mínu. Jeg skyldi fús og glaður gánga að öllum kostum. En þið eruð núna þau, sem liggið mjer þýngst á hjarta, eins og þið híngað til hafið verið mín einasta gleði!

Margret. Æ! nei! æ! nei! við ætlum að vera eins eptirleiðis! hver ætlar að setja yður í myrkrastofu? jeg held þjer hafið ekkert íllt aðhafzt?

Hinrik. Við skulum fara, við skulum falla honum til fóta, hversu harður, sem hann kann að vera, og kyssa á hönd honum, biðja, tárast og

grát-bæna hann! hvers vegna á að kasta yður í diblissu?

Kristján. Þið verðið að vita það alltsaman; þar eð jeg veit ekki hvað lángt kann að líða þángað til jeg fæ að finna ykkur aptur, og jeg verð fyrirfram að leggja niður fyrir ykkur hvernig þið skuluð að fara.

Margret. Æ! hvaða ógæfa! faðir minn góður! en kannske þjer hræðist meir enn —

Hinrik. Æ! víst! þjer hafið opt kennt okkur, að vonin lætur ekki til skammar verða.

Kristján. Við skulum ekki heldur sleppa henni aldeilis, þó svo sýnist eins og hún nú sje mjög fjarlæg. Þið skuluð þá vita, að allt hvað jeg á, er ekki nóg fyrir skuldunum, sem jeg er kominn í. En hatið samt ekki föður ykkar þess vegna, og bríxlið honum ekki um, að hann hafi komið ykkur í ólukku!

Margret. Guð minn góður! við hata yður? við sem eigum yður allt að þakka?

Hinrik. Sem við elskum eins og lífið í okkur!

Kristján. Jeg veit það! mikil óhöpp, sem hafa komið hvað eptir annað uppá fyrir mjer og skiptavinum mínum; ofmikið traust til þeirra, sem ef til vil voru þess ei í allan máta verðugir; von í kauphöndlun minni, sem líkleg var, en þó brást; skuldir, sem jeg á hjá öðrum — en hvað hjálpar það, þó jeg uppreiknaði hvert eitt tilfelli, sem hefur hjálpazt til að koma mjer í ógæfuna? en það, sem nú ríður um allt bak, hlotnast af einum vini mínum — en á hann enn þá það nafn, þareð hann lætur mig sökkva í þenna afgrunn? — í stuttu máli: það er vegna eins, sem jeg hef geingið í borgun fyrir. Fyrir hálfu ári hefði hann viljað borga skuldina, jeg hef gefið honum frest, en nú er sá, sem

skuldina átti hjá honum, búinn að fá dóm yfir mjer, að jeg annaðhvort skuli strax gjalda hana, eða hann megi setja mig í fángelsi. Einginn vill hjer lána mjer, allir loka eyrunum þegar jeg bið, og í dag á dóminum að gjörast fullnægja.

Margret. Æ! guð hjálpi mjer! en mun ekki maðurinn láta sig uppá neinn máta mýkja? við skulum fara —

Hinrik. Já! við skulum veina og kveina, þángað til hann hlýtur að vakna.

Kristján. Nei! jeg hef lángsamlega þekkt hann, og veit að hann er harður og þver maður. Jeg er búinn að láta reyna allt! jeg hef beðið hann, nokkrir vinir okkar hafa gjört það líka, en allt er forgefins! naumast fekk jeg af honum að lofa mjer, að fara einusinni til ykkar, og þurfa ei að láta flytja mig opinberlega í myrkrastofu. Jeg varð að lofa honum uppá æru mína, að koma aptur innan eins klukkutíma, til að láta setja mig fastan, og nú eru einasta fá orð, sem jeg þarf að undirtala við ykkur.

Margret. Faðir minn góður! getið þjer ekki neinstaðar falið yður?

Hinrik. Ellegar strokið?

Kristján. Hvað? vilduð þið að jeg bæri að mjer böndin, og sannaði sjálfur að jeg væri svikari, ellegar jeg væri hjálparlaus með ángist að hrekjast úr einum stað í annan? skoði þeir reikníngsbækurnar mínar, og þá mun sjást, að jeg er ærleg manneskja, og kannske — enn nú sjeu til þeir ærumenn, sem, þegar þeir fá að vita, að jeg hef ekki sjálfur verið skuld í óláni mínu, heldur hraparleg tilfelli, kannske, segi jeg, að hugur þeirra vikni til meðlíðunar, og þó jeg eigi bágt., þeir að minnsta kosti ekki leggist á ykkur líka. Þeir sjá hvað lángt

þa, sem jeg á, hrökkur fyrir skuldunum, og taka það. Guð mun vera ykkar faðir!

Margret. Nei! nei! faðir minn góður! við skiljum ekki við yður: þar sem þjer eruð, þar viljum við líka vera —

Hinrik. Já! við viljum líða það sama með yður, sem þjer líðið; því þjer hafið látið okkur hafa eins gott og þjer höfðuð.

Kristján. Það tjáir ekki! þið fáið ekki að koma þángað! ykkur yrði hrundið burt, og kannske þið yrðuð líka barin, það sviði mjer meir enn allt annað og það mundi auka mestu á sorg mína. Þið skuluð og verðið að vera hjer! jeg vil svo hafa það.

Margret. Við verðum þá. En —

Kristján. Tíminn er naumur. Þeir koma innan skamms að innsigla í skrifstofu minni, farðu Hinrik, og kallaðu á hann lærimeistara þinn! — æ! hann getur ekki leingi verið það úr þessu! jeg ætla að biðja hann að koma þjer fyrir til kennslu — farðu!

Hinrik. (í því hann fer burt) æ! ein ógæfan kemur á fætur annari!

Margret. Æ! hvað ætli verði úr okkur? Faðir minn góður! —

## 3. atriði.

*Kristján. Margret.*

Kristján. Þið verðið að læra að bera mótlætið í veröldinni. Það er satt, að það dynur snemma yfir ykkur! en verið þið hughraust! það færir með sjer opt og tíðum þá sætustu og beztu ávexti til seinni tímanna. Nokkuð verða þeir að ætla ykkur til uppeldis og viðurværis, og þó það verði lítið, þá skaðar það ekki. Til að viðhalda lífinu þarf ekki mikið, en spart uppeldi hjálpar opt til, að geta búið þess betur seinna.

Margret. Æ! faðir minn góður! jeg vil gjarnan láta mjer nægja einsamalt vatn og brauð, til þess þjer hafið ei neinn skort.

Kristján. Þjer er núna (það er þinni góðu móður þakka — og guði sje lof, að hún lifði ei þenna dag) þjer er, segi jeg, núna svo farið fram í kvenna handvirðum, að þú þess á milli getur unnið þjer nokkuð inn.

Margret. Æ! jeg vil gjarnan vinna nótt og dag, ef jeg á að vinna handa yður.

Kristján. Þess vona jeg þú munir ei viðþurfa. Guð hefur einnig gefið þjer góða skynsemi, og það, sem er betra enn allt annað, gott hjartaþel. Þjer hefur verið kennt allt það, sem getur leiðt þig til vitsku og dygða.

Margret. Æ! það er lángt frá jeg sje svo góð, sem jeg ætti að vera.

Kristján. Hver er sá, barnið mitt! sem getur hrósað sjer af, að hann sje það? en vertú einasta guðhrædd, og berðu þig að vera góð, svo verður þú það líka.

Margret. Já! það skal jeg, og það vil jeg, svo leingi, sem jeg lifi

Kristján. Þú ert nú senn komin á hættumesta aldurinn. Þú ert af náttúrunni til vel sköpuð, og býður góðan þokka af þjer. Vertú ekki stollt af því, á stolltinu hefur fríðleikurinn opt skipbrot liðið. Vertú heldur fátæk og haltú sóma þínum, enn þú látir freistnina yfirbuga þig, til að verða rík og mikilsháttar með að tapa skírlífinu.

Margret. Æ! hver ætli taki mig undir sína vernd og varatekt, þegar þjer eruð frá mjer? hver ráða mjer heilt? hver hjálpa mjer? jeg er svo úng og óreynd! mikið vildi jeg mega vera hjá yður! að vera

einsömul hjerna í húsinu — yfirgefin og án yðar — hvernig á jeg að þola það?

Kristján. Þú hvorki skalt vera hjer, nje getur það. Þetta hús getur þar að auk ekki leingi verið okkar. Að sönnu á jeg hjer marga kunníngja, en jeg get ekki af mjer feingið, að trúa neinni af þeim, sem jeg hjer þekki, fyrir þjer, svo jeg geti treyst henni til að gánga þjer í móður stað, þær eru svo opt í samkvæmum, lifa í óhófi —

Margret. Æ! hugsið þjer jeg vilji eða geti það, meðan þjer væruð að líða sorg og neyð, og andvörpuðuð í fángelsi? einganveginn!

Kristján. Þær mundu og naumast vilja taka þig, svo það væri að fullu og öllu. Þegar einhver verður fátækur, þá keppist einginn um að fá hann til sín, og jeg veit líka það mundi ei leingi bíða þángað til annað kvennfólk færi að öfunda þig — svo veit jeg einnig, að bágt er að lifa meðal þeirra, sem áður hafa sjeð fyrri velgeingni þess, sem hrapað hafa í armóð. Þó þeir sjeu svo vænir að fyrilíta okkur ekki, þá er samt niðurlægíngarkeimur þar af, að þeir aumka vesælíngana, en viðkvæmt hjartalag góðs barns særist eins mikið af því, sem foreldrum þess er annaðhvort með rjettu eða raungu legið á hálsi fyrir, eins og það ætti sjálft þátt í því.

Margret. Já! tíusinnum meir! miklu heldur vildi jeg líða fyrir yður sorg, sótt og sjálfan dauðann, og tíusinnum heldur fara í fángelsi, enn að þjer þyrftuð að líða það!

Kristján. (faðmar hana að sjer) hjartans góða dóttir! æ! það er huggun að eiga slík börn, sem þú ert — óumræðileg lukka — og hvaða mæða — fyrir mig, að geta ei gjört þau svo lukkuleg eins og þau eiga skilið!

Margret. Og að missa slíkan föður, sem þjer

eruð — hvaða huggun getur verið móti því í veröldinni?

Kristján. Að lángtum betri faðir lifi — en, barnið gott! við verðum að bera okkur, að taka okkur þetta ekki ofnærri. Stöðugleiki í mótlætinu er líka dygð, og hana vilda jeg geta kennt ykkur með mínu eptirdæmi — jeg kom frá því, sem jeg ætlaði að segja þjer. Eptir því, sem jeg áður sagði, þykir mjer ekki vel fara, að þú verðir hjer kyr.

Margret. Á jeg að fara í burt frá þeim stað, sem þjer eruð í?

Kristján. Já? þú veitst að jeg á systur átta þíngmannaleiðum hjer frá, hún er ekkja og mikil dygðakona.

Margret. Ójá! hún föðursystir mín! en faðir minn góður! hún er sárfátæk, og þjer hafið alltíð híngað til verið að senda henni, hvernig ætli hún geti —?

Kristján. Ekki skaltú kvíða því! þú ert ekki svo fátæk eins og þú hyggur. Þú átt eptir hana móður þína sælu kvennsilfur með gimsteinum, og dýrmætar perlur, sem föðursystir hennar hafði testamenterað henni. Þá dýrgripi átt þú sjálf — (hann fer að skáp, sem er í veggnum) hjerna í skápnum þeim arna eru þeir, í svarta stokknum þeim arna. Þeir eru sex þúkund ríkisdala verðir, og hver hellzt gimsteinakaupmaður sem er, gefur þjer það fyrir þá, auk smíðalaunanna; því smíðið er farið að verða gamaldags.

Margret. Sex þúsund ríkisdali! — en — hvernig á jeg að fara með þá?

Kristján. Jeg er búinn að hugsa fyrir því. Hún systir mín er ráðdeildarsöm, jeg er búinn í brjefinu því arna, að vísa henni á gimsteinakaupmann, sem fyrir laungu hefur boðið þetta fyrir þá og mælst til

þeirra. Jeg hef lagt niður fyrir henni, hvernig hún skuli setja peníngana á vöxtu, og eptir hennar sparsemi á þeim stað, sem hún á heima, hvar allt er ódýrt, getið þið ekki einasta lifað, heldur vona jeg líka þú gleymir ekki honum bróður þínum, því hann á ekkert til.

Margret. Æ! hann bróðir minn! þó ekki ætti jeg nema einn bitann, þá skyldi hann fá helmíng af honum — En mjer dettur annað í hug! gætuð þjer ekki losað yður frá þeirri ólukku, sem nú dynur yfir, með þessum gimsteinum og perlum? æ jú! faðir minn góður! — jeg tek ekki við þeim —

Kristján. Þú hlýtur það að gjöra. Í fyrstu eru þeir þínir að öllu leyti, og jeg á ekki hið minnsta í þeim. Hefðu þeir verið keyptir með mínum peníngum, þá skyldi jeg, svo sem guð á mig, hafa látið þá til þeirra, sem skuldir hjá mèr eiga, og ekki dregið þá undan.

Margret. Jeg gef yður þá, úr því þeir eru mín eign, og þá eru þeir yður rjettfeingnir.

Kristján. Nei! því nú ert þú þjer sjálf næst, og þú tækir frá þjer það einasta meðal, sem gæti verið þjer og honum bróður þínum og henni föðursystur þinni til hjálpar. Það kynni kannske líka að koma ykkur svo á veg, að þið seinna gætuð orðið mjer til aðstoðar. Og í annan máta yrði einn skuldaheimtmaður minn friðstilltur, en hinir mundu ekki þegja fyrir það.

Margret. Æ! faðir minn góður og blessaður! —

Kristján. Í stuttu máli, jeg vil svo hafa það. Skylda og skynsemi útheimta það svo. Þarna! taktú við lyklinum, og geymðu hann þángað til hún föðursystir þín kemur. Jeg skrifaði henni til með seinasta pósti, að hún skyldi koma, sem allrafyrst mögulegt væri að sækja þig. Þar liggja líka í skúffunni

hundrað ríkisdalir í bánkaseðlum, þá skaltú brúka til ferðarinnar, og annars kostnaðar, sem viðþarf — biddú hann herra Pjetur að ráða þjer í því, það sem bezt er. En farðu nú, og vittú hvort farið er að innsigla, og sjeu þeir komnir, svo gjörðu mjer þann greiða, og láttú sækja mjer stólbörur.

Margret. (í því hún fer burt) Æ! guð minn góður!

## 4. atriði.

*Kristján.* (einsamall.)

Þetta er þá kaupið, sem jeg fæ fyrir allt mitt erfiði og mæðu! má sá ei vera heimskíngi, sem tekur svo nærri sjer að lifa í heiminum? og hvað ber hann þá úr býtum? til þess seinast — að líða skort, kvöl og húngur, gjöra sig og sína ólukkulega! verða foraktaður, forsmáður, og jafnvel álitinn að vera svikari! já, svikari! æ! það er sárt! mín einasta huggun er, að jeg er það ekki! hefði jeg tekið þá peninga, sem jeg fekk með henni konu minni sælu, og verið með þá í húsmennsku í einhverjum litlum kaupstað eða við búhokur á landsbygðinni, lifað á þeim lángt frá veraldar umsvifum, háska og freistíngum, til að verða ríkur, svo hefði jeg getað verið óhultur, og lifað í ró til ellidaga — (hann hugsar sig nokkuð um) en samt, nei! manneskjurnar eru skapaðar til vinnu og atorku — jeg hef líka komið mörgu góðu til vegar, gjört margan lukkulegan, og útvegað mörgum fátækum atvinnu — og sá, sem jeg nú gjöri ólukkulegan — er jeg einsamall — ekki börnin mín, því auðæfi gjöra ekki ætíð farsælan, og sú ógæfa, sem hverein manneskja ei er sjálf sök í, er opt dygðaskóli — en þar kemur hann herra Pjetur. —

## 5. atriði.

*Kristján. Pjetur. Hinrik.*

Kristján. (geingur móti honum Pjetri) þjer munuð vera búnir að heyra bágindi mín? herra Pjetur!

Pjetur. Því miður! hann Hinrik minn hefur sagt mjer frá þeim, og mig tekur það svo sárt

Kristján. Jeg veit, að þjer hafið ætíð verið mjer og mínum velviljaðir. Æ! mikið á jeg yður að þakka vegna barnanna minna!

Pjetur. Og jeg — jeg miklu meir fyrir yðar sjerlegu góðvild, elskusemi og vináttu, sem jeg hef notið í yðar húsi. Það, sem jeg hef gjört, var skylda, ekkert meir enn skylda —

Kristján. Nú væri aptur á mót skylda mín að borga yður fyrir það; en, æ! það er líka ein mesta mæðan mín, að jeg get það ekki, og verð að láta þann einsamlan gjöra það, sem bæði getur og vill launa það. Jeg vona að börnin mín —

Pjetur. Þau eru með yðni og eptirlátsemi búin vel að borga mjer mína litlu fyrirhöfn, og munu betur gjöra það eptirleiðis.

Hinrik. (kyssir á höndina á honum) Ójá! það vil jeg og skal gjöra, og jeg skal ekki láta mjer vera svo annt um nokkurn hlut svo sem að vera yðar verðugur, og verða vænn, rjettnefndur dánumaður.

Kristján. Þess vænti jeg mjer af þjer og þínu hjartalagi. En Pjetur minn góður! þjer sjáið að svo er nú komið, að jeg get ekki leingur haldið lærimeistara handa syni mínum —

Hinrik. (tekur í höndina á honum Pjetri, og þurkar um augun á sjer) Æ! minn bezti lærimeistari —

Kristján. Þetta svíður mjer sárast, mitt elskubarn! af því jeg veit, hvað miklu þú tapar við það; en þó þið hljótið að skilja, þá verður hann samt ætíð þinn trúfastur vinur og ráðgjafi.

Hinrik. Viljið þjer það? lærimeistari minn góður!

Pjetur. Svo leingi, sem jeg lifi minn elskulegi litli vin! faðir, vinur, ráðgjafi, allt skal jeg vera — sem jeg get.

Kristján. Þess átti jeg von af yðar dygðageði. Nú skal jeg þá segja yður hvernig jeg held bezt sje að fara með hann Hinrik minn. Til Jónsmessu verður hann hjá yður. Svo leingi vona jeg þjer fáið yðar litla kaup úr búi mínu.

Pjetur. Og jeg segi yður, að jeg skal ekki í heilt ár láta hann frá mjer.

Hinrik. Hvað segir minn góði lærimeistari?

Pjetur! Ekkert annað enn hvað vinátta mín til þín og þinnar lukku — og stærsta þakklæti við þinn góða föður útheimta, og það að jeg vil sjálfur lukku mína og ánægju —

Kristján. (umfaðmar hann) ó! hvaða sæla og yndi að finna slíka vini í mótgánginum! en hvaraf? jeg tek viljann fyrir verkið hjá yður!

Pjetur. Hugsið þjer ekkert fyrir því! góðvild yðar og sparsemi mín hafa sett mig í stand til að geta haft nóg handa mjer og mínum litla kæra Hinrik nærsta ár. Jeg ætla að fá mjer lítið herbergi til leigu, jeg á nokkra bæklínga skrifaða, sem jeg hugsa jeg geti selt bóksölum, og þareð hann sjálfur er viljugur og yðinn, þá vona jeg að geta haft tíð, að innvinna mjer svo mikið, sem mjer og honum nægir —

Kristján. Hætti þjer, minn elsku góði Pjetur! annars stendst jeg ekki leingur yðar góðvild. Hún lætur mig vikna meir enn öll mín neyð, og þegar jeg hugsa til að geta aldrei endurgoldið— (hann þurkar á sjer augun og kinnarnar.)

Pjetur. Jeg er búinn að segja yður það, að það er mjer gleði og ánægja, og mjer yrði ekki verra gjört, en ef jeg yrði að neyðast til að láta frá

mjer til ókunnugra svo vel siðað barn, meðan það er ekki staðfast í góðu, eða nóg undirbúið í þeim fræðum, sem það hefur eptir þess aldri getað náð, því þó þeir, sem því seinna ættu að kenna, sjeu verðugri enn jeg, þá geta þeir samt ekki elskað það eins og jeg; kannske líka þá kynni að vanta tíma og ástundun til þess.

Hinrik. (grætur) æ! allrakærasti lærimeistari minn góður! jeg vildi jeg gæti sagt yður þá tilfinníngu —

Kristján. (þurkar sjer um augun) Beggja okkar tár, barnið mitt gott! segja meir enn alit það, sem túngan kynni að tala — jeg skal samt segja yður mína þánka, og hvað jeg hafði tilætlað. Jeg hef síðan fyrir mánuði sjeð ógæfu mína. Jeg talaði þess vegna við hann herra Góðráð. Þjer vitið að hann er víða vel heyrður og metinn. Hann hefur lofað mjer áður enn misseri væri liðið hjer frá, að koma honum Hinrik mínum á skóla ölmusu. Jeg hef sagt honum að þjer munduð koma til hans, og undirtala það við hann, sem þarf.

Pjetur. Vel er það; jeg skal tala við hann, og biðja hann um hjálp ef jeg þarf hennar við; en nú sem stendur —

## 6. atriði.

*þeir fyrri. Margret.*

Margret. (grátandi) æ! faðir minn góður! —

Kristján. Vel! eru þeir komnir? — er farið að innsigla? — ertú búinn að láta sækja handa mjer stólbörurnar?

Margret. (grátandi) jeg er — búin að — senda — eptir þeim.

Kristján. Svo ætla jeg þá að fara ofaní skrifstofuna, tala við þá, sem eru að innsigla, og bíða

eptir stólbörunum — þú grætur barnið gott? berðu þig vel! þó jeg falli, þá hef jeg samt góða von um framtíðina. Skoðaðu (hann bendir til herra Pjeturs) þessi góði ráðvandi maður ætlar að taka hann Hinrik minn að sjer, og þá — þá sje jeg, að ykkur báðum börnunum mínum er fyrst um sinn ráðstafað, og guð mun framvegis sjá fyrir ykkur — verið þjer sælir Pjetur minn góður! (hann kveður hann og umfaðmar) aldrei skal jeg gleyma (grátkjökrandi) yðar gæðsku og vinsemd.

Hinrik. (tekur um hann föður sinn) ætlið þjer að fara frá okkur? Faðir minn góður! — nei! nei! jeg sleppi yður ekki, jeg skal fara með yður!

Kristján. Hjer tjáir ekki að standa á móti, barnið gott! jeg undirkasta mig þolinmóðlega því, sem verður svo að vera, og svo hlýtur þú líka að gjöra. Jeg vona við verðum ekki svo skyldir hver frá öðrum, að þú getir ekki endrum og sinnum komið til mín að finna mig.

Hinrik. Fái jeg einasta að koma til yðar, þá vil jeg sjá hver mig getur aptur frá yður skilið!

Kristján. Það sjest allt seinna, sonur minn!

Margret. Ætli jeg fái ekki líka að koma til yðar? faðir minn góður!

Kristján. Æ! já! Margret mín blessuð! jeg vona hún föðursystir þín komi til þín áður enn lángt um líður! og nú (hann umfaðmar hana og kveður) vertú sæl! — gleymðu ekki mínum lærdómum! prýð þú sál þína meir og meir með dygðunum, þá bæði verður þú farsæl, og gjörir mig lukkulegri, enn ríkidæmi og virðingar hefðu getað gjört mig! —

Margret. Æ! minn góði — minn bezti faðir! (hún kemur ekki meiru upp fyrir ekka, heldur klútnum fyrir augun, og grúfir með andlitið upp við stól).

Kristján. Æ! (við Hinrik, sem alltaf heldur sjer í handlegginn, á honum) slepptú mjer, Hinrik minn! farðu

elskudreingurinn minn! farðu — vertú með ástundun og dygðum að góðum manni, svo þú getir dregið mig uppúr eymð minni, og verið kóróna elli minnar með sóma og farsæld! óttastú guð! og stunda hvað rjett er, svo mun þjer vel vegna. Hjálpið þjer mjer frá honum, Pjetur minn góður! (hann kyssir hann, vindur hann af sjer, og fer. Hinrik hleypur á eptir honum, og Pjetur þar á eptir).

## 7. atriði.

*Margret.* (einsömul).

Æ! á jeg ekki að fylgja honum líka? nei! jeg gæti ekki staðið á fótunum hvort sem er, og kannske jeg líka gjörði minn góða föður hræddan með því (hún kastar sjer grátandi niður á stól, sem stendur hjá borði, og styður hönd undir kinn), mikil óláns skepna er jeg! dauðinn tók frá mjer þá beztu móður — og nú harðar manneskjur hinn bezta föður! — get jeg þá ekkert orðið honum föður mínum að gagni? — hann elur svo elskulega önn fyrir mjer! hvað? ef jeg tæki núna gimsteinana? — satt er það, að hann sagði þá væri ekki neitt eptir handa mjer, og honum bróður mínum og henni föðursystur minni, okkur til lífs uppeldis, og þá feingi einn skuldaheimtarinn sína nægju, en hinir væru samt eptir, það er að skilja, hann væri ekki frí fyrir það; en máske hann faðir minn góður hugsi einasta um okkur, og ekkert am sjálfan sig? já! svo er það. Jeg þekki hann; hann færi í dauðan sjálfan okkar vegna, svo er hann góður við okkur — svo skal jeg þá líka af elskunni til hans voga eitthvað. Hann sagði, að nokkuð yrðu skuldaheimtumenn hans að láta okkur fá til nauðsynlegasta lífs viðurværis, — og — en þarna kemur minn góði Hinrik —

## 8. atriði.

*Margret. Hinrik.* (grátandi og er að vinda höndurnar).

Margret. Er hann burtu?

Hinrik. Já! því miður! ekkert! ekkert! gat slitið mig frá honum. En — æ! hann skipaði mjer með alvarlegri raust — hann bað mig að bæta ekki á mæðu sína — — hvað átti jeg að gjöra? — æ! jeg varð — — jeg varð að hlýða!

Margret. Við vesælíngar! en hvar er hann herra Pjetur?

Hinrik. Hann gat ekki haldið sjer frá ekka og gráti, og fór sem fljótast í herbergið sitt. Hann ætlaði að harka þar af sjer, og koma híngað aptur.

Margret. Sagði hann faðir okkar þá ekkert meir?

Hinrik. Nei! því mennirnir, sem voru að innsigla í skrifstofunni hans, hindruðu hann, líka voru stólbörurnar komnar. Hann skipaði mjer burt, og þegar jeg móti vilja mínum fór skjálfandi og grátandi, og hjelt í höndina á honum Pjetri, kallaði hann mig blíðlega til sín áður enn hann fór inní stólbörurnar, rjett eins og hann yðraðist eptir, að hann hefði verið svo harður við mig, faðmaði mig með elsku að sjer, runnu þá tárin í lækjum niðureptir kinnunum á honum ofaná mig, síðan skautst hann fljótt inní stólbörurnar. Æ! betur þeir færu nú ei ílla með hann föður okkar!

Margret. Það er nóg íllt, að þeir hneppa hann í fángelsi, hvar hann kannske fær lítið að borða, hefur einga birtu, og fær ekki að sjá okkur börnin sín, því það veit jeg honum fellur sárast.

Hinrik. Já! víst er það, því hann elskar okkur! ó! hversu mjög hann elskar okkur! — svo mikið getum við aldrei elskað hann aptur.

Margret. Jeg skal segja þjer nokkuð, Hinrik minn góður! mjer sýnist bezt við reynum til, og förum til hans herra Steins, þó hann faðir okkar hafi bannað okkur það, föllum honum til fóta, og biðjum hann þángað til —

Hinrik. (fellur um háls henni) ójá! það skulum við! það skulum við! fljótt! elsku systir mín góð!

Margret. Hann faðir minn hefur að sönnu sagt, að það sje til einkis, hann sje harður maður —

Hinrik. Og! sje hann harður! hann getur þó aldrei meira gjört enn barið mig, eða lokað mig í fángelsi, og það má hann ef hann vill. Jeg þarf ekki að hafa betra enn hann faðir minn góður.

Margret. Vilji hann ekki neitt heyra, þá veit jeg hvað jeg skal gjöra. Hann á dóttur, jeg hef einusinni sjeð hana í samkvæmi, jeg skal grátbæna hana að biðja fyrir mig, og hjálpi það ekki, svo skal jeg — svo skal jeg borga fyrir hann föður minn.

Hinrik. Þu að borga? hvar ætlar þú að taka það? ef þú átt peninga, því hefur þú ekki strax sagt honum föður mínum það? því fekkstú honum þá ekki strax?

Margret. Því hann hefur nýlega sagt mjer, að jeg ætti peninga eður þeirra virði.

Hinrik. Hvers vegna tók hann ekki þá peninga strax? — þú munt þó ekki hafa viljað halda þeim fyrir honum?

Margret. Hvernig getur þú, Hinrik minn! leiðt þjer það í hug?

Hinrik. Fyrirgefðu mjer, Margret mín blessuð! en jeg sje hann mun hafa bannað þjer það, eins og hann bannaði mjer að fara með sjer?

Margret. Ó! já!

Hinrik. Hvers vegna þá? hvers vegna?

Margret. Hvers vegna? okkar vegna; en hans vegna skulum við nú í fyrsta sinni vera óhlýðin.

Hinrik. Jeg ætla að fara strax og segja honum lærimeistara mínum frá því.

Margret. Nei! Hinrik minn góður! fyrir kost og mun gjörðu það ekki; hann kynni að fallast á þær orsakir, sem hann faðir okkar bar fyrir sig, því þú veitst að hann er vanur að samsinna honum í öllu — og þá kynni hann að tala það úr okkur, og ef til vill ekki sleppa okkur.

Hinrik. Það er satt, sem þú segir. En hvað á jeg þá að segja? bæði verð jeg að láta hann vita að jeg fer burt, og hvert jeg ætla að fara.

Margret. Segðu honum, að mjer hafi dottið í hug hún dóttir hans herra Steins, að jeg sje henni kunnug, og jeg viti líka hún eigi bróður, og ætlum við að fá þau systkynin til að biðja hann föður þeirra, að sleppa honum föður okkar.

Hinrik. Já! það fer vel, og eru eingin ósannindi. Jeg ætla líka að finna þenna son hans herra Steins. Jeg hef að sönnu heyrt hannn sje ekki rjett skikkanlegur, en hann getur ekki meira gjört enn neitað mjer um það, samt skal jeg biðja hann svo vel sem mjer er mögulegt.

Margret. Komdu þá aptur til að fylgjast með mjer, jeg ætla ekki að gjöra annað enn láta á mig kápuna. Æ! guð gæfi við feingjum hann föður okkar aptur! (Hinrik fer burt) — en jeg verð að taka gimsteinana með mjer (hún fer í skápinn, tekur úr honum lítinn stokk, læsir svo aptur) jeg skal láta þetta innaní klút, og stýnga því í handagjörfið mitt (hún geingur burt).

## Annar flokkur.

Gleðisvæðið er skrifstofa með kaupmanns bókum og borði, sem hann herra Steinn situr við og er að skrifa.

## 1. atriði.

Steinn (talar við sjálfan sig) Já svo harðt skal jeg með hann fara eins og mögulegt er — fyrstu fjórar vikurnar skal hann ekki fá annað enn vatn og þurt brauð — að hafa svona af mjer nokkur þúsund ríkisdali! — — (eptir nokkra þögn) satt er að ekki gat hann garmurinn sá arna við því gjört — en — því var hann slík hjáræna — að gánga í borgun fyrir annan! já! jeg skal finna þig! — jeg er svikinn! hvað varðar mig um hvort hann gat við því gjört eða ekki? — hegning verður að vera — máske að einhver meðaumkunarfullur einfeldníngur gángi aptur í borgun fyrir hann. Hana þá! þess betur, — ef svo væri! — — (einhver ber á dyr) mjer heyrist einhver berji að dyrum? (hann fer, lýkur upp, og kallar útúr dyrunum) kom þú inn stúlkukind!

## 2. atriði.

*Steinn. Margret.*

Steinn. Hver ertú? hvað viltú — hana! fljótt. (Margret fer að gráta, og getur ekki strax komið orði fyrir sig) nú hver kemur til fólks, að skæla sig framaní það?

Margret. Fyrirgefið þjer mjer, minn herra! en sorgin —

Steinn. Hvað varðar mig um sorgina þína? með hana er ekki verðt að fara til fólks. Hèr er vissulega betl —

Margret. Æ? mjer er svo sárt að missa þann elskulegasta föður —

Steinn. Á! kannske þú sjert dóttir þess dáfallega Kristjáns, sem hefur prettað mig um fjögur þúsund ríkisdali?

Margret. Ónei! hann faðir minn hefur vissulega ekki prettað yður.

Steinn. Ætli þú vitir það betur enn jeg?

Margret. Þá þekkið þjer ekki frómlyndi hans og dánumennsku — æ! þjer vitið ekki hvað góðan föður þjer hafið tekið frá mjer, og honum vesælings bróður mínum.

Steinn. Á! svo! frómlyndi og dánumennsku! sá, sem geingur í borgun fyrir annan, að hann skuli gjalda fyrir hann, og geldur þó ekki, hann er ærulaus svikari þegar hann geldur ekki.

Margret. Æ! guð minn góður! og líka þó hann vilji hjartans gjarnan borga en getur ekki?

Steinn. Svo átti hann aldrei að lofa því.

Margret. Hann hugsaði sjer væri það óhætt fyrir hann vin sinn.

Steinn. Það mátti hann ekki hugsa nema hann væri viss um það, annars var hann heimskur, eins og hann faðir þinn, og verður narraður eins og hann faðir þinn.

Margret. Æ! jeg bið yður, tala honum ekki ílla til! honum kann að hafa yfirsjest, og það, sem nú er framkomið sýnir, að honum hefur sjest yfir; en —

Steinn. En! en, en, — hvað hjálpar að kýtast um að tarna! jeg læt ekki svoddan stelpu bera það ofaní mig, að jeg hafi rángt fyrir mjer.

Margret. Það kemur mjer hvorki í hug nje hjarta. Nei! jeg kem að biðja yður auðmjúklegast um meðlíðun og miskunsemi —

Steinn. Meðlíðun? miskunsemi? að kasta burt fjórum þúsund ríkisdölum, og rentunum að auki útí buskann?

Margret. Nei! að sleppa honum föður mínum úr fángelsinu, hafa þolinmæði og bíða —

Steinn. Hafa þolinmæði, þángað til fuglin er floginn útúr búrinu? og fara þá að láta dyrnar aptur?

nei! nei! sitji hann kyr, og týsti og skræki, svo það sje að marki!

Margret. Æ! minn góði, herra Steinn! æ! hvað bágt á hann faðir minn! við vesælíngs föðurleysíngjar!

Steinn. Á! verið þið vesælíngar eins og þið viljið. Jeg er ekki góður eptir það jeg er búinn að vera það nógu leingi áður. Ekki er jeg skuld í því, að þið eru vesælíngar! sje sá góður, sem vill vera svo góður að borga mjer!

Margret. Kannske einhver verði til þess, ef þjer einasta sleppið honum föður mínum, og lofið honum að hafa tíma fyrir sjer —

Steinn. Jeg hef gefið honum tvisvar frest, og í hvorugt sinn hafa peníngarnir verið til, og nú — nú er allt úti. Snáfaðu burt, og tefðu ekki leingur fyrir mjer.

Margret. Hugsið þjer eptir því hversu sárt honum vesælíngs föður mínum muni svíða að verða að skilja við okkur börnin sín, án huggunar, án aðstoðar, án vina, án ráðgjafa. Hugsið þjer eptir ef börnin yðar —

Steinn. Ekki annað enn það? börnin mín! fyrir þeim er jeg búinn að sorga! skoðaðu þarna (hann bendir henni til kistu), hvað sem af mjer verður, þá hafa þau þarna huggarann, sem trúlega heldur í hönd með þeim. Hefði hann faðir ykkar farið eins að, þá hefðuð þið nú nóga huggun, og hann sæti ekki fastur þar, sem hann er núna. Og jeg væri líka búinn að fá minn betalíng.

Margret. Æ! þjer megið vera vissir um það, að hann faðir minn góður hefur ekkert sparað til þess, að eptirláta okkur börnum sínum auðlegð af dygðum, guðhræðslu og góðu uppeldi; en við erum á þeim aldri, að við þurfum á leiðarvísir að halda,

áður enn við getum fært okkur það í nyt. En guð mun ekki yfirgefa okkur —

Steinn. Hana þá! þess betra fyrir ykkur! í stuttu máli: snáfaðu burt þinn veg, og komdu ekki svo nærri mjer!

Margret. (fer alltjafnt nær og nær, og seinast tekur í höndina á honum, og fellur á knje) æ! allrabezti herra Steinn! á mínum knjám — — (hann slítur sig frá henni) grátbæni jeg — — (hann hleypur í kríng í stofunni, og hún eptir honum, hann er alltaf að skrækja ekki! ekki! ekki! en hún heldur áfram með biðjandi raust) hafið þjer meðlíðun! sleppið þjer honum föður mínum, guð mun æfinlega blessa yður fyrir það! — — hana þá, viljið þjer ekki? svo heyrið þá!

Steinn. (stýngur fíngrunum í eyrun á sjer) jeg heyri ekkert, jeg sje ekkert, burt! burt!

Margret. Jeg skal borga — (Steinn hleypur inní herbergi innar af skrifstofunni, og skellir hurðinni í lás) hann er burt! mikið harðar manneskjur eru til í veröldinni! það hefði jeg aldrei getað ímyndað mjer! hann vill ekki heyra að jeg bauð mig til að borga — jeg sje að hjer get jeg eingu til vegar komið; jeg verð að fá hana dóttur hans til að bjóða honum það. (hún geingur grátandi burt).

## 3. atriði.

Steinn. (er að smágægjast útúr herbergis dyrunum, þángað til hún er burt, og kemur síðan út).

En hvað hún píndi sig stelpukrakkinn sá arna! hefði það varað leingur — jeg veit í sannleika ekki — mjer hitnaði svo um hjartaræturnar — litla greyið að tarna var svo hjartnæmt — hann faðir hennar má vera ekki svo slæmur, úr því hann á svo góða stúlku — andstygðar krakkarnir mínir mundu vissulega ekki svo biðja fyrir hann föður sinn, ef eins væri ástaðt

fyrir honum — jeg vildi að eins, að annarhver ánginn hefði verið við! mjer er sagt, en sýnt ekki, að þau þakki mjer eins vel fyrir það, að jeg safna svo miklu handa þeim, eins og hin fyrir það, að faðir þeirra hleypir sjer í skuldir. Já, hefði það ei verið nema fjögur hundruð, í staðinn fyrir að það eru fjögur þúsund ríkisdalir. — — Jeg held jeg hefði vegna þeirrar góðu stúlku —

## 4. atriði.

*Steinn. Hermann.*

Hermann. (flissandi) Hahaha, haha! —

Steinn. Nú! hvað geingur á fyrir þjer? hvað á heimsku - flissið að tarna?

Hermann. Hahaha! ef þjer vissuð, faðir minn góður! hvaða gaman jeg heyrði!

Steinn. Nú! jeg vænti einhver hafi geingið á svelli, og dottið á nasirnar?

Hermann. Æ! lángtum hláturlegra.

Steinn. Nú! aldrei vænti jeg hann hafi brotið í sjer banakríngluna?

Hermann. Ekki heldur það, faðir minn! hver haldið þjer hafi verið hjá mjer?

Steinn. Mikið flón ertú! og þú heldur jeg hafi ekki mikið að gjöra, að vera að hugsa útí það.

Hermann. Þjer getið þó ekki getið í kollinn — hann Hinrik litli —

Steinn. Á! á! nú skil jeg, og hún systir hans var hjá mjer — þú munt eiga að biðja mig um að sleppa honum föður þeirra? en jeg segi þjer —

Hermann. Ó! ekki þurfið þjer að slá varnaglann fyrir það! að sönnu vill hann það: en hahaha! jeg á að biðja yður, grátbæna — og jeg man minnst af því, sem hann var að vola framaní mig — jeg á að biðja yður, að taka hann, og láta hann aptur í

fángelsið, og gefa honum ekkert annað enn vatn og brauð, og gjöra við hann hvað sem þjer viljið — en einasta að sleppa honum vesælíngs föður hans, hahaha!

Steinn. sýnist þjer það svo hláturlegt? — hm!

Hermann. Nú! það var einginn, sem beiddi hann um það!

Steinn. Svo! þú hugsar þá, að þó honum föður þínum væri kastað í fángelsi, hvar eða hvernig, sem vera vildi, þá mundir þú láta vera að bjóða þig til að þola það í hans stað?

Hermann. Og nú verð jeg að hlæa að yður, faðir minn góður! þjer í fángelsi? ekki annað enn það! þjer hafið nóg af peníngum, og svo leingi, sem hver einn getur borgað, er honum ekki kastað í fángelsi.

Steinn. Það veit jeg, heimskínginn þinn! en ef jeg ætti nú ekki peninga, sem jeg er vakinn og sofinn með sveita mínum að draga saman handa ykkur, ellegar þjófar kæmu og stælu frá mjer peníngunum mínum, ellegar jeg geingi í borgun fyrir einhvern —

Hermann. Ekki koma þjófarnir, þeir geta ekki náð miklu hjerna. Þess vegna er hjer stór járnhurð, járnsteingur fyrir innan gluggana, og stór þrílæst járnbundin kista — og að gánga í borgun? — já! það vænti jeg þjer gángið í borgun?

Steinn. Mikið heimskulega talar þú! hvereinn kaupmaður verður opt að lána peninga, og hefur opt slæma skuldunauta — sjerðu ekki hvernig mjer geingur núna? — ef þeir borga mjer ekki, sem jeg á hjá, þá gæti jeg ekki borgað þeim, sem jeg er skyldugur, vegna þess jeg feingi ekki neitt hjá öðrum, og þeir, sem ættu skuldir hjá mjer, settu mig þess vegna

í fángelsi — þá vænti jeg þú mundir láta bíða að bjóða þig í fángelsið mín vegna? —

Hermann. Jh! faðir minn góður! ekki hefði jeg hleypt mjer í þær skuldir.

Steinn. Hefur þá hann Hinrik hleypt sjer í skuldirnar hans föður síns?

Hermann. Þess vegna er það svo hláturlegt! og þar að auki þá eruð þjer ekki svo einfaldir, að taka slíkan lítinn dreing í staðinn fyrir fullvaxinn mann.

Steinn. Hjer er nú ekki verið að tala um það hvað jeg ætla að gjöra, heldur hvað þú mundir gjöra. En ef svo væri að jeg ljeti mjer lynda að taka soninn í staðin fyrir föður hans í fángelsi, ellegar og ef skuldaheimtumaður minn, sem ætti eins penínga hjá mjer, vildi vera ánægður með, að taka þig í staðinn fyrir mig, ætli þú mundir gjöra það?

Hermann. Æ! faðir minn! það er kátleg spurníng! en hvað þjer getið verið nærgaungulir í að spyrja? — hana þá! yður gæti ekki verið það til neins gagns; og hvað ætli þjer vilduð gjöra við mig?

Steinn. Það sama, sem jeg á að gjöra við hann litla Hinrik, sleppa honum föður þínum, en láta þig vera í fángelsi, og hafa vatn og brauð þángað til hann borgar.

Hermann. En ef faðirinn gæti ekki borgað, eða vildi ekki?

Steinn. Hann væri þá alla sína lífstíð í fángelsi.

Hermann. Ekki vildi jeg eiga slíkan föður.

Steinn. Hermann! Hermann! jeg sje, að þó hann Kristján eigi ekki svo mikla penínga, sem jeg, þá á hann þó betri börn.

Hermann. Og ef hann ætti meiri penínga, þá væri hann betri faðir.

Steinn. Er dreingurinn þar enn?

Hermann. Já! jeg vildi ekki heyra hvað hann

var að masa, en hann kvaldi mig þángað til, að jeg varð að lofa honum, að jeg skyldi biðja yður að láta hann — (hlæandi) í fángelsi í staðinn hans föður síns.

Steinn. Þú átt ekki að hlæa að því, mjer líkar það ekki! — heyrðu! mjer þækti gaman að sjá hann, og vita hvað hann hefur til síns máls dreingurinn sá arna, því ef hann biður eins fyrir hann föður sinn, eins og stelpan hún systir hans, þá get jeg ekki sagt mjer mislíki það. Þarna hefur þú tvo skildínga, seigðu einhverjum að kaupa köku fyrir þá, og gefa honum; hann verður að hafa eitthvað fyrir það, að hann elskar svo mikið hann föður sinn, og láttú hann svo koma híngað á eptir.

Hermann. Og það vænti jeg hann vilji borða, faðir minn góður! hann er allt of sorgbitinn til þess, því hann hefur ekki gjört annað síðan hann kom, enn verið að gráta. Hann segir: að tár og grátur muni hjereptir verða maturinn sinn og hennar systur sinnar. Jeg vil ráða yður, að láta hann ekki koma, því jeg veit af því hann nauðar á yður.

Steinn. Farðu! og gjörðu, sem jeg segi þjer! — jeg hef staðið af mjer bæði systurina og föðurinn, og þá vænti jeg geti líka staðið af mjer dreinginn þann arna —

(hann Hermann fer burt).

## 5. atriði.

*Steinn.* (einsamall).

Mjer dettur núna í hug, að jeg geti kannske brúkað hann fyrir búðardreing, piltinn þann arna. Þeir hafa allir verið bófar, sem jeg híngað til hef haft, en með þenna gæti jeg farið eins og jeg vil, því það má vera góður dreingur, sem elskar svo slíkan föður, sem þannig hefur svívirðilega sóað sínu.

## 6. atriði.

*Steinn. Anna.*

Anna. (kemur hlaupandi) Hæ! faðir minn góður! gaman! gaman!

Steinn. Gaman? gaman? jeg er ekki svo kátur, að jeg vilji hafa gaman núna. Eða kannske það sje annað eins gaman, og hann bróður þinn hafði.

Anna. Jeg kem til að borga skuldina hans herra Kristjáns.

Steinn. Skuldina hans Kristjáns? ertú að ganta hann föður þinn, ellegar hafa hann að spotti?

Anna. Nei! nei! — en faðir minn! jeg borga ekkert, fyr enn jeg fæ í kaupið annaðhvort eyrna gull eða festi, eða hríng með demant, ellegar rjett fallegar perlur.

Steinn. Er ekki betra þú fáir það alltsaman? allt eða ekkert! og það seinna skaltú fá — jeg átti von á því að þetta mundi verða útúr. Ertú mig ekki stelpa! með svoddan spaugi hittir þú ekki á rjettan stað hjá mjer.

Anna. Gott og vel! jeg fer þá með minn betalíng til baka aptur — en sjá skuluð þjer hann samt! (hún tekur dýrgripina innanúr klút).

Steinn. Hvað er að tarna? hvað er það? — sýndu mjer! (hann ætlar að grípa það).

Anna. Nei! nei! jeg skal sýna yður það, (hún lýkur því upp).

Steinn. (skoðar þessi gersemi, sem er festi, eyrna gull, hríngir og perlur, hann glennir upp augun, og verður mikið hýrlegur) hvaða ósköp! — (hann tekur upp eitt eptir annað og skoðar) er að tarna frá honum Kristjáni? á jeg að fá það i betalíng? — það er meir enn fjögra þúsund ríkisdala virði! — þar höfum við skelmirinn — því gat hann ekki sparað sjer svívirðínguna og mjer mæðuna? — nú! hann er laus, strax skal hann

verða laus; sjái hinir skuldaheimtarar hvar þeir fá nokkuð, en —

Anna. En þjer verðið að gefa mjer eitthvað af því arna: annars — annars yðrast jeg þess, að hafa tekið við því af vesælíngs barninu.

Steinn. Vesælíngs barninu? hvaða vesælíngs barni?

Anna. Henni dóttur hans Kristjáns.

Steinn. Hefur hún dóttir hans Kristjáns feingið þjer að tarna? hún, sem hjerna var nýlega hjá mjer?

Anna. Já! segi jeg, já! hún segist eiga það, hún hafi erft það, eða henni hafi verið gefið það, eða — hvað veit jeg það. Í stuttu máli að segja, hún segist með gleði vilja láta það burt, ef hún geti frelsað með því hann föður sinn.

Steinn. Segir hún svo það góða barn?

Anna. Og jæja! já! en, faðir minn góður! þjer verðið endilega, að gefa mjer eitthvað af því! nei! skoðið þjer hvað vel mjer fer hríngurinn sá arna, ellegar perlurnar!

Steinn. Þá feingi jeg ekki minn betalíng, ef jeg gæfi þjer það aptur?

Anna. Á! faðir minn! þá væri mjer kvöl —

Steinn. Hvað? — hvað væri þjer kvöl? — að hann faðir þinn feingi skuld sína?

Anna. Nei! nei! — ekki svo það — en — en — ef jeg feíngi ekki að brúka það sjálf —

Steinn. Þú? þú skyldir brúka svoddan skart fyrir fjögur eða sex þúsund ríkisdali? hvað mætti fólk hugsa um ríkidæmi mitt? — nei! nei! sljett og rjett er nóg handa svoddan stúlku

Anna. En, hefði jeg vitað það — hún sagði vesælíngs stúlka, að þetta væri það einasta, sem hún og hann bróðir sinn ættu að lifa af, en hún sagð-

ist heldur vilja deyja útaf í vesöld fyrir sinn góða föður, enn vita, að hann væri ólukkulegur — hefði jeg ekki hugsað, að nokkuð mundi drjúpa af steikinni handa mjer —

Steinn. Á! já! já! dáfallega dótturkind! —jeg sje, ef að þú hefðir svoddan skart, þá mætti hann faðir þinn krókna útaf í fángelsi, hlekkjum og fjötrum eins og verða vildi, því að skartið væri þjer eins og kræsíngarnar honum bróður þínum, kærara enn faðir og móðir! —handa hverjum er jeg að draga saman? handa hverjum hef jeg svo mikla og sífelda mæðu?

Anna. Ójá! peníngarnir eru ekki til neins gagns á kistubotninum, ef eigandinn kaupir ekki nokkuð utaná sig fyrir þá.

Steinn. Ellegar etur og drekkur þá upp eins og hann skarpvitri bróður þinn vill. Eru þá ekki peníngarnir til neins annars? spurðu stúlkuna, sem fekk þjer gersemarnar þær arna, hvað það mundi hjálpa honum föður hennar ef hann hefði núna peninga! er ekki svo? gæti hún þá ekki haldið skartinu sínu?

Anna. En ef hún hefði ekkert skart, til hvers væru þá peníngarnir?

Steinn. Aldrei fær maður þakklæti hjá slæmum börnum, hversu mikið, sem hann dregur saman handa þeim! — farðu! láttú stúlkuna koma sjálfa híngað — jeg verð að heyra hvernig stendur á þessum gimsteinum, hvað dýrt hún vill selja þá, og hvað af þeim hún ætlar mjer; því jeg vil ekki hafa prjónsvirði framyfir það, sem hann faðir hennar er mjer skyldugur. Það væri blóðugt að hafa það af svo góðu barni.

Anna. Að minnsta kosti verð jeg að fá einn hríng af því.

(hún fer burt).

## 7. atriði.

*Steinn.* (einsamall.)

(Eptir að hann hefur hugsað sig nokkra stund),

Nei! mjer fellst ekki þetta úr fötum! — slík börn! — sonurinn vill fara í fángelsi fyrir föðurinn — dóttirin kemur híngað, kastar sjer fyrir fætur mjer — er að bjóða það lítð, sem hún á af kvennskarti, og — og fyrir hvaða föður þá? þann, sem steypir þeim í eymd og volæði, hleypir sjer í skuldir og geingur í borgun fyrir svikara. En börnin mín! — hvert sem þau líta, sjá þau ekki annað enn allsnæktir og auðæfi — og aldrei eru þau rjett þakklát — sonurinn sækist eptir eintómis yðjuleysi, en dóttirin að flíngra öllu utaná sig.

(Einhver lýkur upp dyrunum og Margret kemur inn).

## 8. atriði.

*Steinn. Margret.*

Margret. Fyrirgefið þjer hærstvirðandi herra Steinn! —

Steinn. Hvað? fyrirgefa? úr því þú ætlar að borga mjer. Því sagðir þú mjer það ekki strax áðan, svo hefðir þú verið mjer velkomin, og þá hefði hann faðir þinn núna verið orðinn laus.

Margret. Æ! hann faðir minn verið laus! æ hvaða lukka! — en þjer vilduð þá ekki heyra hvað jeg sagði —

Steinn. Hefðir þú strax í fyrstunni talað um gimsteina og borgun, þá hefði allt farið öðruvísi, en jeg man ekki jeg heyrði annað enn kvein og vol.

Margre. Satt er það, í fyrstunni ætlaði jeg að bera mig að koma yður til að aumkast yfir eymd og neyð hans föður míns, og okkar ólukku, en bera mig að halda því einasta, sem jeg, bróður minn og fátæk föðursystir, áttum að hafa okkur til viðurværis.

Steinn. En hann faðir ykkar getur aldrei forsvarað það, ellegar hann er ekki með öllum kaupmanns mjalla, að vera svo bláfátækur, og setja peninga í óþarfann þann arna, til að bera það skart á börnin sín. Peníngarnir eiga alltíð að vinna hjá kaupmönnum og ekki vera eitt augnablik kyrrir í handrraðanum, því einn peníngur á annan að vinna.

Margret. Þjer hugsið rángt í þessu, minn herra! Ömmu systir mín testamenteraði henni móður minni sælu, og hún aptur mjer þessar gersemar. Jeg hef aldrei vitað neitt af þeim; og enn síður brúkað þær.

Steinn. Hvernig þá?

Margret. Í fyrsta sinn í dag þegar hann faðir minn var svo ólukkulegur — æ! þjer vitið hvernig á því stendur! fekk hann mjer þær, þegar hann kvaddi okkur — (hún grætur) jeg beiddi hann borga þarmeð það, sem þjer ættuð hjá honum —

Steinn. Já! að vera svo órjettvís.

Margret. En hann sagði, það væru stærstu rángindi, ef hann borgaði skuldir sínar með því, sem væri mín eiginleg eign; jeg skyldi bera mig að selja það (og sagði hann mjer hvernig jeg skyldi fara að því) og brúka það mjer og bróður mínum og fátækri föðursystur minni til uppeldis, svo við þyrftum ekki að líða mjög stóra nauð.

Steinn. Og nú kemur þú, stúlka mín! með þessar gersemar, til að kaupa hann föður þinn út fyrir þær.

Margret. Já, herra Steinn! og jeg grátbæni yður, að láta ekki bíða eitt augnablik, að veita mjer þá gleði.

Steinn. Hvaraf ætlar þú þá að lifa á eptir, faðir þinn og bróðir?

Margret. Jeg þarf ekki mikið; minn góði faðir hefur látið kenna mjer aðskiljanlegar kvennahand-

yðnir. Jeg ætla að vera að bæði nótt og dag, og bera mig að vinna mjer nokkuð inn með því.

Steinn. Sannarlega, jeg fell í stafi og allt að tarna föður þínum til vilja?

Margret. Æ! minn herra Steinn! ætlið þjer að gjöra mjer það til kinnroða, ellegar að reyna mig að þjer spyrjið svona? getur nokkur gjört minna fyrir hann föður sinn og fyrir svo elskuríkan föður?

Steinn. Já! en hann faðir ykkar gjörir ykkur ólukkuleg?

Margret. Erum við ólukkuleg þegar við fáum hann aptur? hann hefur kennt okkur, að við skulum vera skynsöm, guðhrædd og dygðug, vera ánægð með lítið, vilja heldur hafa fróma fátækt enn ráng-feingin auðæfi; heldur auðmýkt og hófsemi, enn stollt og prjál, og hann hefur geingið undan okkur með sínu eptirdæmi í því öllu.

Steinn. En borgaðí mjer ekki.

Margret. Æ! elskulegasti herra Steinn! hann hefði gjarnan viljað borga hefði hann getað. Hafi honum yfirsjest, svo kemur það af góðmennsku hans, að hann hefur treyst vel ótrúum eða hyrðulausum vin.

Steinn. Þú getur vel mælt fyrir sök þinni — (hann geingur dálítið frá, og talar við sjálfan sig) það veit guð! aldrei hefur mjer böglast svo fyrir brjósti, mjer er svo þúngt eins og jeg ætli að gráta — það er rjett eins og innvortis sje eitthvað að hafa á móti mjer, að jeg get ekki með góðri samvitsku tekið gersemar þær arna.

Margret. Nú! minn góði herra Steinn! kannske yður þyki það ekki nóg að tarna, jeg vil gjarnan láta yður fá allt það lítið, sem jeg á í viðbót —

Steinn. (hann klökknar og fer út) Hættú barnið mitt! — jeg kem strax aptur.

## 9. atriði.

*Margret.* (einsömul).

Mjer sýndist hann vikna við og yrði klökkur — hann talaði við sjálfan sig — og kallaði mig barnið sitt — það er allt einskis virði, ef við einasta gætum feingið okkar elskuríka föður aptur.

## 10. atriði.

*Margret. Steinn. Hinrik.*

Hinrik. (heldur í höndina á honum, og þegar hann kemur inn, fellur á knje fyrir honum) já! miskunið þjer yður yfir okkur, og látið þjer okkur fá hann föður okkar góða aptur! — (í því hann sjer systur sína, stökkur hann upp) ertú hjerna Margret mín góð! æ! komdu og biddú hann herra Stein með mjer, að hann láti mig í fángelsi, í staðinn fyrir hann föður okkar. Hann faðir okkar getur unnið sjer inn nokkra penínga til að borga honum með, en jeg ekkert.

Margret. (tekur í hægri höndina á honum Steini, og grætur svo tárin renna niður á höndína) Ójá bróðir minn! jeg vona hann láti hann lausan — er ekki svo herra Steinn? hafið þjer ekki feingið betalíng? — (Steinn lítur á höndina á sjer; og Margret tekur eptir því) fyrirgefið þjer herra Steinn! — gleðitár — vonartár, að þjer munið heyra okkar bæn — jeg gat ekki bundist þeirra.

Steinn. Stúlka! stúlka! jeg vildi þú værir dóttir mín!

Margret. Óh! ef jeg væri það, þá hefði hann faðir minn aldrei komið í fángelsi. Jeg skyldi svo leingi hafa verið að grátbæna yður —

Steinn. Líka fyrir mig, ef jeg hefði verið honum föður þínum skyldugur, og hann hefði viljað kasta mjer í fángelsi?

Margret. Já! líka fyrir yður! fyrir yður skyld-

um við hafa beðið hann föður okkar. Yðar góðu börn hefðu ekki heldur getað verið án síns elskulega föðurs, heldurenn við án okkar, og aldeilis víst munu þau hafa beðið fyrir okkur.

Steinn. Ekki veit jeg til þess; en þau eru ekki heldur nærri svo góð.

Margret. Það kemur til af því þeirra lukka er svo stór, að meiga halda sínum elskulega föður, að þau geta ekki getið nærri hvað stór ólukka það væri að missa hann,

Steinn. Hm! — (hristir höfuðið) en, litli piltur! er það rjett alvara þín, að láta setja þig í fángelsi í staðinn fyrir hann föður þinn? — að vera í fángelsi, og fá ekki neitt annað enn vatn og brauð?

Hinrik. Guð veit það, minn kærasti herra Steinn! jeg bið um ekkert annað.

Margret. Þess þarf nú ekki leingur, Hinrik minn góður! hann herra Steinn lætur sjer nægja það, sem jeg er búin að borga. Er ekki svo? — (í því kemur Hermann, og hvíslar einhverju að honum föður sínum. Herra Steinn ætlar að fara burtu) æ! farið þjer ekki frá okkur, fyr enn þjer hafið lofað okkur, að við, sem fyrst fáum að sjá hann föður okkar aptur.

Hinrik. Já, jeg sleppi yður ekki fyrri! takið þjer mig, og látið þjer mig fara í fángelsið.

Steinn. Hana slepptú mjer! jeg skal strax koma aptur (hann fer burt)

## II. atriði.

*Margret. Hinrik. Hermann.*

Hermann. Nú! hvernig þykir þjer fara, Hinrik minn! vondi maðurinn er kominn að sækja þig, og flytja þig í fángelsið.

Hinrik. Með gleði, ef hann faðir minn er þá laus.

Hermann. Viljið þjer ekki fylgjast líka með? jómfrú! annars kynni jeg að biðja hann föður minn fyrir yður.

Margret. Jeg hugsa ekki þurfi á því að halda. Það er búið að borga honum föður yðar.

Hermann. Svo! og þjer hafið svo mikla peninga? sá faðir má vera rjett góður, sem ekki hefur það hann geti borgað með fyrir sjálfan sig, en gefur börnunum svo mikið, að þau geta borgað fyrir hann! þá undrast jeg ekki yfir því!

## 12. atriði.

*Þau fyrri. Anna.*

Anna. Nú! jómfrú! eruð þið faðir minn orðin kaupsátt?

Margret. Satt að seigja, held jeg ekki hafi þurft mikla framistöðu til þess. Hann ljet setja hann föður minn í fángelsi vegna skulda, nú fær hann peníngana sína, og þá sje jeg ekki —

Hermann. Á! jeg heyri að jómfrúin er búin að borga.

Anna. En það eru þó ekki peníngar samt, og jeg varð að hafa mig alla við að tala fyrir því.

Margret. Úr því þið eruð kaupmanns börn, svo held jeg þið vitið, að peninga virði er eins gott og peníngar.

## 13. atriði.

*Þau fyrri. Steinn. Kristján.*

(Margret og Hinrik hlaupa hæði í fángið á honum föður sínum).

Margret. Faðir minn góður!

Hinrik. Æ! faðir minn!

Kristján. Börnin mín góð (hann umfaðmar þau).

Margret. (hleypur og tekur stokkinn með gersemun-

um, sem stendur þar á borði, og fær honum Steini) þarna, herra Steinn! takið þjer við! takið þjer við! og þúsund, þúsund þakkir.

Hinrik. Jeg þakka yður auðmjúklega, að þjer gefið okkur hann aptur!

Kristján. (við hana Margretu) Hvað er þetta? hvað hefur þú gjört barn?

Margret. Það sem skylda mín — það, sem mín hjartanleg elska heimtuðu af mjer! æ! átti jeg að eiga nokkurn hlut, sem jeg hefði getað útvegað með frelsi handa yður, og laumast í burt með það, en láta yður sitja í fángelsi? — nei! nei! bezti faðir! minn seinasti blóðdropi —

Kristján. Æ! elskulegasta barn! jeg þekki þitt ástríka ypparlega hjartalag, en núna var þetta ekki, að breyta forsjállega og skynsamlega.

Margret. En rjettvíslega! fyrirgefið þjer mjer, faðir minn góður! þjer hafið gefið mjer eptirdæmið, Þjer gættuð ekki sjálfir að yðar velgeingni til þess að börnin yðar gætu átt þetta. Gátum við þá minna gjört.

Kristján. En, það er þín eigin eign! — herra Steinn! jeg vona þjer hafið svo mikla tilfinníng, þareð þjer eigið sjálfir börn, að þjer — lofið þjer mjer að segja yður frá! —

Steinn. Jeg veit það allt, alltsaman veit jeg það.

Kristján. Hana, hafið þjer þá svo mikla meðlíðun, og látið þjer mig aptur í fángelsið, þángað til jeg get —

Hinrik. Nei! nei! faðir minn! hann herra Steinn ætlar að taka mig fyrir borgunarmann. Jeg ætla að fara í fángelsið fyrir yður; þess vegna er jeg híngað kominn —

Kristján. Vesælíngur, góði Hinrik! jeg tek viljann fyrir verkið. En farðu núna og lærðu nokk-

uð, svo getur þú með tíðinni veitt mjer nóga hjálp og huggun.

Steinn. Þegið þið! þegið þið! — jeg vikna svo við það — í sannleika að segja — augun fljóta í vatni á mjer — vissulega herra Kristján! — þarna! þarna! elsku stúlkan mín! þarna eru gersemarnar þínar aptur! þú ert perla, gimsteinn — — já, meira verð enn allar perlur og gimsteinar í veröldinni.

Margret (vill ekki taka á móti). En hann faðir minn — ekki fyr herra Steinn.

Steinn. Taktú við! taktú við barn! þú gjörir mjer á móti, ef þú tekur ekki við því — ekki skal hann í vegi standa! taktú við segi jeg, ef þú vilt ekki jeg verði reiður! (hún Anna hnippir í hann föður sinn, og bendir honum með augunum, en hann lítur reiðuglega til hennar).

Margret. Jeg tek á móti því og þakka yður; en ekki nema með skilyrði —

Kristján. Jeg er í yðar valdi, og er fángi.

Steinn. Herra Kristján! vegna yðar góðu barna gef jeg yður enn nú frest uppá skuldina yðar í heilt ár. (Margret og Hinrik hlaupa til hans taka sitt hverja hönd og kyssa þær).

Margret. Æ! hæstvirðandi herra Steinn! þjer gáfuð okkur lífið —

Hinrik. Okkar huggun, okkar vernd, allt okkar aptur! hvernig eigum við nógsamlega að þakka yður!

Kristján. (tekur í höndina á honum Steini innvirðuglega og eiginlega) Jeg skal finnast þakklátur við yður! jeg skal borga yður strax, sem guð hjálpar mjer. (Steinn tekur upp klút og þurkar sjer um augun, en á meðan hlaupa Hermann og Anna til hennar Margretar).

Anna. Æ! lofið þjer mjer enn einusinni að sjá þessa fögru gimsteina!

(Margret sýnir henni, og á meðan hún er flýrulega að furðast yfir þeim tekur Margret einn hríng upp úr).

Margret. Þarna! jómfru! þyggið þjer þenna hríng eins og litla endurminníng um mitt þakklæti fyrir gæðsku hans föður yðar.

Steinn. Nei! aldeilis ekki! jeg ætla ekki að láta borga mjer fyrir það, sem jeg hef gjört gott.

Anna. Nú! jómfrúin gaf mjer hrínginn, er ekki satt?

Margret. Jú af öllu hjarta.

Anna. Og jeg hef fullan rjett til að halda því, sem mjer hefur verið gefið.

Steinn. Á! og líka þegar hann faðir þinn bannar þjer það? nei! aldeilis ekki! skilaðu aptur!

Anna. Ekki verður af því! jeg hef hann og ætla að halda honum.

(Hún hleypur útúr dyrunum, og faðir hennar á eptir).

Hermann (talar á meðan við sjálfan sig). Jeg hugsaði jeg skyldi líka bera mig að ná nokkru; en það varð ekki úr því, jeg skil ekki hvað að honum föður mínum er komið núna, hann er ekki vanur að vera svo örlátur (hann fer burt).

Steinn (mætir honum í dyrunum og kemur varla út orði fyrir mæði). Segðu henni systur þinni — hún skuli skila aptur — ellegar — ellegar það skuli ekki verða gott úr því. Æ! jeg varð svo reiður! — en segið þjer mjer herra Kristján, hvernig þjer hafið getað feingið svo góð börn, en jeg á svoddan ótætis krakka? jeg veit, jeg veit úrtöku vel, hvernig jeg skal hefna mín á þeim (hann fer að skrifborðinu sínu, og er að leita í skjölunum).

Kristján. Má jeg tala eins og mjer býr í brjósti.

Steinn. Býr í brjósti? já, um hreinlyndi þykir mjer vænt.

Kristján. Svo er jeg hræddur um þjer sjeuð sjálfir skuld —

Steinn (fyrtist og kemur hlaupandi að honum). Hvað? jeg skuld í því að börnin mín eru óhlýðin og ó-skikkanleg? læt jeg þau bresta nokkuð? er jeg ekki að sveitast fyrir því bæði nú og eptir dauða minn, að þau aldrei, aldrei þurfi að óttast fyrir fátækt, eins og börnin yðar? hef jeg ró nótt eða dag? og allt gjöri jeg það þeirra vegna.

Kristján. Þjer megið ekki láta yður þykja fyrir, herra Steinn! það er ekki yðar eins yfirsjón, það er mörgum ríkum mönnum, sem sjest yfir í því; þeir innprenta börnunum strax á únga aldri ofmikla virðíngu fyrir auðæfunum, og að meta þau alltof mikils, en aðra maktáríðandi hluti oflítils.

Steinn. Hvað þá? get jeg þá ekki útvegað mjer allt með ríkidæminu.

Kristján. Ekki allt. Ekki eina af öllum þeim dygðum, sem gjöra oss elskuverða í guðs og manna augum, nema auðæfin sjeu brúkuð til þess, sem er gott og sómasamlegt. En ef barnanna tilhnegíngum, ástundun og girndum er einasta stýrt til að safna auðæfum, þá uppfyllir sú hugsun alla þeirra sálu, að allt fáist fyrir þau; en hvar á þá elskan til guðs, foreldranna, skyldunnar, dygðanna og alls þess, sem er rjett og sómasamlegt, að fá rúm?

Steinn. Jeg held í sannleika, að þjer hafið rjett fyrir yður.

Kristján. Þegar börnin eru svo vanin, þá vilja þau ekki leingur hlýða, verða tilfinníngarlaus, hvort öðrum geingur vel eður ílla, leita ekki að dygð og speki nema í peníngakistunni, og þareð ágirndin vex sífeldlega, þola þau naumast að bíða þángað til foreldrarnir deyja, vegna þess þau hugsa, að þá fái þau allt, sem þau eptir óska.

Steinn. Guð minn góður! það er dagsanna! börnin mín hafa einga elsku til mín. Stelpan hugsar ekki um annað enn skart, en dreingurinn er sólginn í peninga til að svalla þeim út.

Kristján. Þaraf kemur, að þareð únglíngum þykir aldrei vænt um peninga sjálfra peninganna vegna, en hafa alltíð aðrar girndir meðfram ágirndinni, þá, þegar þeir fá meðölin í hendurnar, eyða þeir þeim öllum til að seðja þær girndir, verða dublarar, drykkjurútar, berast heimskulega á, eta upp, svalla og sóa því, sem þeir erfa eptir foreldra sína, og dregið hefur verið saman með mæðu og ángist.

Steinn. Það er aldeilis satt, herra Kristján! jeg sje fyrirfram hvernig börnin mín verða að róta í peníngakistunni minni! stelpan að kaupa allrahanda viðhafnar glíngur, en dreingurinn að halda veizlur! þjer opnið á mjer augun: en ætla — já vissulega ætla jeg — æ! jeg veit ekki sjálfur eiginlega hvað jeg ætla, eða hvernig jeg á að því að fara, að eiga önnur eins börn og þjer! æ! segið þjer mjer, hvað jeg á að gjöra, eða hvernig þjer hafið að farið?

Margret. Kæri herra Steinn! þjer hafið ofgóða þánka um okkur!

Hinrik. Við höfum líka okkar bresti!

Steinn. Aldrei játa börn mín það!

Kristján. Jeg hef sífeldlega innprentað börnum mínum elsku og virðíngu fyrir guði og dygðunum, kennt þeim að þetta einúngis geti gjört þau farsæl bæði þessa heims og annars; sagt þeim, að tign og ríkidæmi sje að svo miklu leyti gott, sem það sje brúkað til góðs; strax í tíma haldið þeim frá yðjuleysi; vanið þau til hlýðnis: látið kenna þeim allt, sem jeg hef verið umkominn, þeim gat verið til gagns og ánægju, og er eptir þeirra standi; og loksins kappkostað að vera þeim til góðs eptirdæmis

í öllu, sem jeg eptir breiskleika mínum hef getað. Við hvert eitt tækifæri hef jeg sýnt þeim merki til, að jeg elski þau, og þau hafa borgað mjer það aptur með því að elska mig.

Steinn. Og jeg hef gjört mikið lítið eða ekkert af öllu þessu. Jeg hef ekki látið þau bresta neitt, og svo hef jeg ekki skipt mjer mikið meir af þeim. — En, en, herra Kristján! það eptirdæmi, sem þjer gáfuð þeim með því að gánga í borgun, var það líka skynsamlegt?

Kristján. Kannske það hafi ekki verið nógu varkárnislegt. En samt yðrast jeg þess ekki, enn nú þetta augnablik.

Steinn. Yðrist þjer þess ekki? nú geingur yfir mig! ef jeg hefði nú verið fastur á mínum ásetníngi? ellegar börnin yðar — ó! blessuð góðu börnin þau! —

Kristján. Þegar jeg gekk í borgun fyrir vin minn, þá gjörði jeg eins og vináttu skyldan í það sinn af mjer heimtaði. Hafi vinur minn, eða sá, sem jeg í það skipti áleit fyrir vin, ekki haldið sitt loforð, eða getað fullnægt því, þá er öll skuldin og andsvarið hjá honum. —

Steinn. En straffið og ólukkan kemur yfir yður!

Kristján. Innan skamms álít jeg það ekki neina ólukku. Börnin mín hafa lært þaraf, að þau meiga ekki reiða sig á manneskjurnar, ellegar á peníngа, því hvert eitt lítið atvik getur gjört alla vora von og lukku að eingu. Þau hafa nú lært að þekkja, hversu gott það er, að eiga þann fjársjóð innvortis hjá sjálfum sjer, sem þau geta seinna brúkað sjer til nota. Þau hafa verið svo ólukkuleg, af því þau voru hjartagóð og elskuðu mig, að uppvekja yðar höfðíngsgeð, sem þjer hafið auðsýnt mjer, og ávinna sjer yðar hylli. Og fresturinn, sem þjer nú hafið

gefið mjer, skal eptir því, jeg vona, sannfæra yður um það, að jeg er ærlegur.

Steinn. (fer að þurka á sjer augun, geingur enn einusinni að skrifborðinu sínu, sækir skjal, og rífur það í sundur, en fær Kristjáni rifrildin) Ó! það eruð þjer! — þarna! — jeg gef yður upp alla kröfuna! fyrirgefið mjer alla þá mæðu, sem jeg hef gjört yður og yðar góðu börnum (hann grætur).

Kristján. (umfaðmar hann) Nei! nei! jeg er yður allteins skyldugur — þó þjer hafið hastarlega klökknað af þessu, þá kannske þjer kynnuð að sjá yður seinna um hönd, en mitt orð er allteins gyldt eins og skjal með undirskrifuðu nafni og signeti. (Kaupmanns þjenari kemur inn með brjef).

Þjenarinn. Hjerna er brjef til yðar, sem var innaní öðru til hans hússbónda míns, og jeg á líka að skila frá honum að þjer megið láta sækja peníngana þegar þjer viljið.

Steinn. Hvaða penínga? — en það er vel! (þjenarinn fer burt, og Steinn lítur utan á brjefið) guð minn góður! það er höndin hans Loðvíks! — það skal jeg fljótt lesa! (hann brýtur það upp).

Kristján. Höndin hans Loðvíks?

Steinn. (les).

„Herra minn!

„Jeg hef farið lángt frá mínu föðurlandi, og „sjerlegt ógæfu atvik, um hvert jeg ætla með nærsta „brjefbera að skrifa honum herra Kristjáni skilmerki„lega, er orsök til, að jeg ekki hef getað sendt yð„ur skuld mína, og ekki svo mikið, sem að geta „skrifað. Hjer fylgir þá Assignatíón (skuldskeitíng) „uppá kaupmann Diðrik með rentu og renturentum“ og svo framvegis.

(Steinn blínir á hann Kristján).

Herra Kristján!

Kristján. Þetta var mjer mikil gleði, að hann vinur minn er líka ærlegur maður.

(Margret og Hinrik grípa af fögnuði hönd hans herra Steins).

Margret. Óh! mikil gleði er mjer það, að guð hefur launað yður gæðsku yðar við okkur!

Hinrik. Já! mjer líka — og að þjer, faðir minn góður! þurfið ekki leingur að hafa mæðu af því arna.

Steinn. (eptir að hann kemur til sjálfs sín, og hefur verið svo sem fyrir utan sig) Börn! —— börn! — þarna! (hann fær þeim Assignatíónina) hún er ykkar! hún skal vera ykkar! — í fyrsta sinni á minni lífstíð finn jeg til þess, hvaða ánægja það er — að gjöra gott góðum manneskjum, og það hafið þið kennt mjer. — Óh! oh! jeg get ekki komið til sjálfs mín aptur — (börnin vilja ekki taka á móti, og líta uppá hann föður sinn) refsið þið mjer ekki fyrir það, að jeg var harður, og neitið mjer ekki um — þessa litlu hugnun! — æ! hversu miklu ríkari eruð þjer, herra Kristján! vegna barna yðar enn jeg! nú sje jeg, að það er satt, sem stendur í fræðunum, að góð börn eru partur af daglegu brauði! verið þjer minn vinur!

Kristján. Aldrei skal jeg gleyma yðar stórmannlega örlæti!

Margret. Og við aldrei okkar velgjörðamanni.

## X. OPT ER FLAGÐ UNDIR FÖGRU SKINNI.

*Núshirvan* Persa konúngur er í sögunum nafnfrægur fyrir rettvísi og geðgæðsku. Hann gekk einusinni í dularklæðum, kom í drykkjustofu, og sá úngan stríðsmanna foríngа, er sat afsíðis og sýndist sorgbitinn. Konúngurinn gaf sig á tal við hann, fann að hann var skýr og greindur, og spurði loksins af hverju hann væri svo stúrinn. Hinn úngi maður þagði um hríð, hugsaði sig um, og svaraði loksins: við höfum ekki sjest fyr enn nú, en svipur þinn og góðmennska opna á mjer munn og hjarta,

jeg skal því segja þjer allt hvernig ástaðt er fyrir mjer. Jeg vildi eiga eina stúlku, sem var fríðleikurinn sjálfur, annar úngur maður beiddi hennar með mjer, hann var fríðari enn jeg, en þó mjer sje skyldt málið, get jeg samt með sanni sagt, að mitt hjartalag var betra enn hans. Hún var sjer sjálf ráðandi, hugsaði sig leingi um, loksins játaðist hún mjer; brúðkaupsdagurinn var tilsettur, og jeg áleit mig þann lukkulegasta, rjett í því að jeg og aðrir voru kallaðir til stríðs. Jeg og sambiðill minn vorum hver hjá öðrum í bardaganum, þar sem harðast var, hann flúði fyrstur manna, og nokkrir af nágrönnum hans, síðan fleiri og fleiri, og þá voru nærri hundrað manns hraktir til baka, þegar jeg og fjórir aðrir brutustum fram í skarðið, hughreystum þá, sem farnir voru að hrökkva undan, og bæði með uppörfunum og okkar eigin dæmi komum öllu í lag, svo síðan fekkst fullkominn sigur. Í þessum svifum fekk jeg stórt sár í höfuðið, eins og þjer sjáið af örinu því arna í enninu á mjer, jeg datt tilfinningarlaus til jarðar, en lagsmenn mínir hjálpuðu mjer, svo jeg hjelt lífinu.

Við komum heim aptur. Mikils ummegnugir vinir hans sambiðils míns gátu hindrað, að hann fekk ei sitt verðskuldaða straff; fullur af gleði flýtti jeg mjer til að umfaðma unnustu mína; en örið gjörði mig ljótan í hennar augum, mig fyrirleit hún, en móti hínum níðíngnum tók hún með ást og gleði. Það svíður mjer mest, að hún skyldi svo með mig fara, fyrir hverja jeg hefði viljað gefa mitt líf þúsundsinnum, og hún skyldi þá velja svoddan níðíng fram yfir mig.

Þess skal hefnt verða, sagði Núshirvan, stóð hastarlega upp, og hinn úngi maður rak uppá hann augun segjandi: hvernig? hvað? hver er — jeg er Núshirvan! hvað heitir þú? — Ali.

Hafir þú sagt satt, þá kom þú til mín innan eyktar, og sjáum hvað þá verður.

Þessi úngi maður var viss um málstað sinn, mætti á tilsettum tíma, og sá níðínginn og svikatóuna bæði knjekrjúpandi fyrir Núshirvans hásæti; en konúngurinn ljet eins og hann tæki ekki eptir þeim.

Jeg ljet kalla á þig, stúlka mín! sagði konúngurinn. Hann faðir þinn þjónaði mjer með trú og dygð meðan hann lifði, og mjer var vel við hann. Jeg hef komizt að því, að hugur ykkar, mannsins, sem þarna liggur á knjám hjá þjer, og þinn, standi saman. Ef þú elskar hann sannarlega, svo segðu mjer það hátt, og rjettu að honum höndina, að þú viljir verða kona hans, því jeg ætla að halda veitslu í dag hvort heldur er.

Bezti konúngur! —

Sleppum öllu hrósi! þú veitst ekki enn, hverju þú þarft að hrósa! svaraðu mjer einlæglega! elskar þú þenna mann?

Já!

Elskar þú eingan nema hann?

Nei! aldeilis eingan.

Hefur þá einginn betri eða verðugri beðið þín?

Margir hafa beðin mín, og margir rjett vænir — en einginn betri og verðugri enn þessi.

Hana þá! farið þið og giptist þið strax. Einn af hirðprestum mínum skal gefa ykkur saman, og þegar það er búið, þá leiðið þið þau híngað aptur.

Þau voru leidd burt.

Núshirvan var rjóður í andlitinu, yfir hverju allir undruðust, er þekktu hann — hann litaðist um með alvarlegu tilliti, þekkti Ala í mannfjöldanum kríngum hásætið, og bendti honum að hann skyldi koma nær.

Undrastú yfir þessu, sem þú hefur heyrt og sjeð?

Ónei! þó ekki geti jeg skilið hvað þjer ætlið

fyrir yður með því, herra! en jeg veit það muni verða skynsamlegt og rjettvíst, þareð það kemur frá yður.

Heldur þú það? — kannske! stattú þarna kyr!

Skömmu eptir komu nýgiptu hjónin. Brúðurinnar andlit var hýrt og glansandi af gleði, og þau köstuðu sjer á knje fyrir hásætinu, til að útausa sínu þakklæti.

Sparið ykkar þakklæti, sagði konúngurinn (og leyndi þá ekki leingur reiði sinni). Líttu upp, kona! og talaðu! þekkir þú manninn þann arna?

Hún bliknaði upp eins og nár og svaraði: já! herra! það er hann Ali sonur nábúa míns.

Beiddi hann þín ekki einusinni? varstú ekki búin að játa honum þinni hönd og trygð?

Jú! jeg gjörði það — en —

Því hjeldst þú þá ekki þitt loforð?

Vegna þess — vegna þess —

Á! ókindin þín! af því hann var betri maður, trúrri þegn, hugaðri stríðsmaður, heldurenn dáðlausi kvennvæflulegi stroku - og meinsæris - maðurinn sá arna! vegna þess að skráman, sem stríðshetjum er sú stærsta æra, var til lýta á enninu á honum — gott og vel! þú ert búin að velja hinn, þú skalt líka eiga hann! ykkar band sje óuppleysanlegt! jeg gaf þjer tíð og tækifæri að sjá þig um hönd; gjörðu það þá nú! — þjer þókti æruskráman ljót á enni mannsefnis þíns, það er þá bezt að reyna hvort smánar-örið fer bónda þínum betur! — farið þið strax burt með níðínginn, sem strauk burt úr bardaganum, ruglaði fylkíngunni, og af bleyðuskap var nærri búinn að steypa föðurlandinu í fordjörfun! — hann skal brennimerkjast á ennið með drottins - svikamarki, síðan skal færa þau bæði til hjónarúmsins, og á morgun skal leiða þessi heiðurshjón gegnum öll staðarins stræti, og láta úthrópa með hárri röddu fyrir þeim: svona

á hver sú stúlka að straffast, sem forsmáir ærumanninn, er vantar það, sem útvortis með honum mæli, en giptist niðíngnum, af því hann er fríðari, eða útvortis álitlegur.

Grátandi og hálfdauður kastaði vesælíngurinn sjer niður fyrir fætur konúngsins, titrandi bað hann um vægð. Ali bað um náð fyrir bæði hjónin, en Núshirvan bendti sínum þjenurum, og dóminum var fullnægja gjörð.

Þessi strángi dómari snjeri sjer síðan náðuglega til Ala. Þú átt, sagði hann, skilið að fá betri konu enn þá, sem þú misstir. Vel þjer hverja, sem þú vilt af mínum hirðmeyjum! og þú skalt fá það fyrsta ljensherradæmi, sem losnar, til launa fyrir hreysti þína og trúmennsku.

## XI. GÁTUR.

41). Sópur. 42). Vax. 43). Guð. 44). Sólin, 45). Ljósasöx eður Kola.

46). Jeg verð aldrei eldri enn 12 mánaða, þó sýni jeg tímann í öllum hans ásýndum, bæði barn, únglíng, fullorðinn og gamalmenni.

47). Bóndinn sáir því, jörðin ber það, því er drekkt, það er steikt, það er brotið, vefarinn fær það, allir brúka það, mylnumaðurinn tekur það, allir fá það aptur, þá er það við lýði, ellegar eyðist, einginn veit hvar? eða hvernig?

48). Jeg er ekki annað enn munnur og eyra, og gjöri þjer kunna otal hluti, sem skeð hafa, og enn nú við bera, þó hefur þú aldrei sjeð mig.

49). Jeg er er ekki annað enn magur hryggur, sem hvorki hef hold nje bein, og þó verð jeg að bera hold og bein, og pressa hold og bein.

50). Jörðin gaf mjer líf, jeg óx upp ár frá ári, járnið varð mjer að bana, vatnið að líkbörum, en eldurinn gröf.

## XII.

*Blindir fá sýn, haltir gánga, líkþráir hreinsast, daufir heyra, dauðir upprísa og ángruðum boðast að Kristur sje kominn. Matth. 11. 5.*

Guð er vor góður faðir, bæði að því leyti, sem hann hefur veitt oss andlega og líkamlega velgjörnínga í sköpuninni, og líka þegar vjer höfðum misst þá eptir syndafallið, varð hann að nýju vor velgjörða faðir með að senda oss sinn son. Það kenniteikn átti þess vegna vel við, sem Esajas fyrirspáði, og Jesús með áðurtjeðum orðum í guðspjallinu bendir Jóhannesi skírara til, hvaraf hann skuli vissulega þekkja að Kristur sje í heiminn kominn, nefnilega: að þessi drottins smurði væri að útbýta hjer að ofan nefndum guðs velgjörníngum. Út af þessu efni spurði jeg í kvöld börn mín, og sagði: manstú Magnús litli! til nokkurrar ritníngargreinar í hverri guð er kallaður rjettur faðir?

Magnús. Það mun vera Efes. 3, 15. „Sá sem rjettur faðir er yfir allt hvað börn kallast bæði „á himni og jörðu.“

Prestur. Já! lætur guð þá ásannast að hann sje allra faðir?

Magnús. Það finnum vjer og reynum sífeldlega.

Prestur. En hefur guð þá föðurlegt hjartalag til hinna vondu?

Magnús. Já! Lúk. 6, 35. „Hann er góðfús við „óþakkláta og vonda.“

Prestur. Lýður litli! við hverja er guð góður?

Lýður. Við alla, bæði góða og vonda.

Prestur. Er hann þá jafn-góðfús við alla?

Lýður. Þeir góðu, guðhræddu og þakklátu meiga vænta meira góðs af honum, enn hinir vondu.

Prestur. Guðmundur er það þá ekki meira, enn að vjer meigum vænta góðs af guði?

Guðmundur. Hann gefur oss líka gott.

Prestur. Hvað opt?

Guðmundur. Alltíð og sífeldlega.

Prestur. Getur hann það líka alltíð? svara þú, Magnús!

Magnús. Þegar vjer ekki sjálfir hindrum hann, þá bæði getur hann og vill gjöra oss gott.

Prestur. Veit hann líka með hverju móti bezt fer að hjálpa oss?

Magnús. Já! því hann veit og þekkir allt.

Prestur. Seigðu mjer nú, hver þjer er betri faðir, jeg eða guð? ef þú ættir um annanhvern að velja, hvern ætlar þú að þú mundir kjósa þjer?

Magnús. Guð, því minn líkamlegi faðir getur hvorki hjálpað mjer í svo mörgu, eða svo mikið eða sífeldlega, eða svo leingi sem guð.

Prestur. Seig þú mjer, Kristrún mín! hvernig Jesús hefur kennt oss að þekkja guð?

Kristrún. Eins og hann sje vor faðir.

Prestur. Er guð þá í raun og sannleika vor faðir?

Kristrún. Já! því hann vill oss allt gott eins og faðir, hann gefur oss allt gott, sem vjer meðþurfum, og gefur oss það sífeldlega.

Prestur. Hvað gott hefur guð gefið þjer?

Kristrún. Margt og mikið.

Prestur. Hvað er, Guðmundur litli! það helzta, sem guð hefur gefið þjer?

Guðmundur. Lífs uppeldi — heilbrigði — sál.

Prestur. Já! já! mikilsverðt er það. Hvað gott höfum vjer af sálunni?

Guðmundur. Hún gjörir, að vjer erum lifandi.

Prestur. Hvað er þá það helzta góða af því, sem þú nefndir?

Guðmundur. Lífið.

Prestur. Hefur guð gefið oss lífið? Lýður litli!

Lýður. já! einginn gat gefið oss það nema hann.

Prestur. Hversvegna er lífið það bezta?

Lýður. Því ef vjer hefðum það ekki, þá gætum vjer ekkert gjört.

Prestur. Gætum vjer haft nokkra gleði ef ekki væri lífið?

Lýður. Nei! því þá gætum vjer hvorki heyrt nje sjeð, geingið eða talað.

Prestur. Hver er þá grundvöllur til allrar tímanlegrar og eilífrar lukku?

Lýður. Jeg hugsa það sje lífið.

Prestur. Er það þá sú bezta gjöf?

Lýður. Já! og í guðspjallinu telzt með Krists velgjörníngum: dauðir upprísa.

Prestur. En er það þá sú einasta gjöf? Magnús!

Magnús. Nei! heilbrygðin.

Prestur. Er hún þá svo mikilsverð?

Magnús. Já! næst lífinu er heilbrygðin mest verð af tímanlegum hlutum.

Prestur. Hvað mikils mundi meiga virða einnrar einustu manneskju heilbrygði? hundrað hundraða? — eð þúsundsinnum hundrað hundraða?

Magnús. Það er ekki mögulegt að virða hana. Hún getur ekki borgast með neinum peníngum.

Prestur. En ef einhver hefði nóg af öllu, og meir enn nóg, en væri heilsulaus?

Magnús. Hann hefði samt ekkert gott af því.

Prestur. Guðmundur litli! hverjum eigum vjer heilbrigðina að þakka?

Guðmundur. Guði. Og hjer var líka þess minnst í guðspjallinu: líkþráir hreinsast.

Prestur. En alla líkamans og sálar krapta?

Guðmundur. Guði líka.

Prestur. Eru þeir þá mikils verðir? t. d. að geta fundið til og skynjað?

Guðmundur. Já!

Prestur. Hvað er það þá að skynja?

Guðmundur. Að þekkja og reyna með skilníngarvitunum.

Prestur. Hvað kallast það, sem kemur því til leiðar?

Guðmundur. Tilfinníngarkraptur.

Prestur. Hverjum eigum vjer hann að þakka?

Guðmundur. Guði.

Prestur. Er sá kraptur svo góður? t. d. sjónin? svara þú, Kristrún!

Kristrún. Já! og hennar er getið líka í guðspjallinu: blindir fá sýn.

Prestur. Hvað mikils ætlar þú hún sje verð? eins og þúsund ríkisdalir?

Kristrún. Miklu, miklu meira, því þeir peníngar gætu ekki hjálpað mjer ef jeg væri sjónlaus.

Prestur. Getur sá, sem er blindur, verið sjer og öðrum eins til gagns, og haft eins mikla ánægju, eins og sá, sem hefur sjónina?

Kristrún. Nei! sjónin er betri enn allir peníngar.

Prestur. Hvað mikla peninga heldur þú, Lýður minn! þú vildir hafa, ef einhver vildi kaupa af þjer heyrnina?

Lýður. Jeg vildi heldur heyrnina enn alla penínga. Í guðspjallinu er líka til þess tekið, svo sem stórs velgjörníngs, að daufir feingu af Jesú heyrnina.

Prestur. En hvað marga fyrir luktan, smekk og tilfinníngu?

Lýður. Jeg held jeg gæti helzt verið án luktarinnar; en heldur vildi jeg hafa öll mín 5 skilníngarvit, enn alla peninga, sem til eru, þó jeg ætti áður ekkert af þeim.

Prestur. Hverjum eigum vjer allt þetta að þakka?

Lýður. Guði.

Prestur. Það er þá bæði margt og mikið, sem vjer eigum guði að þakka?

Lýður. Já! margt og mikið!

Prestur. En seig þú mjer, Magnús minn! þetta var einasti einn sálarkraptur; höfum við ekki fleiri? manstú ekki líka það, sem þú hefur lesið, sjeð, heyrt, gjört, o. s. fr.?

Magnús. Jú! vjer höfum minni.

Prestur. Það mun vera mikils verðt?

Magnús. Já.

Prestur. Ímyndaðu þjer þá mann, sem væri minnislaus!

Magnús. Það væri sá aumasti maður.

Prestur. Gæti hann verið skynsamur?

Magnús. Nei! því hann myndi ekkert.

Prestur. Gæti hann lært nokkuð?

Magnús. Nei! hann væri sáraumur maður. Þegar einhver beiddi hann að gjöra eitthvað, ætla sjer eitthvað, senda hann frá sjer til einhvers, þá gleymdi hann því strax. Hann vissi ekki svo mikið, sem hvernig ætti að komast útúr túninu eða húsinu. Hann þekkti ekki aptur kúna frá kettinum.

Prestur. Hvað mikið heldur þú, Guðmundur litli! að þú vildir selja minnið fyrir, ef þú ættir að vera skaðlaus?

Guðmundur. Sú guðs gáfa er meira verð enn allir peníngar.

Prestur. Er það þá satt, sem margur segir um fátæka: Guð hefur lítið ljent honum?

Guðmundur. Ónei! þeir hafa þegið af guði það, sem er miklu betra enn auðæfi, sem er líf og heilbrygði og margt annað gott.

Prestur. Finnst það líka í biblíunni að allt gott, sem vjer höfum, sje frá guði?

Guðmundur. Já „Jac. 1, 17. öll góð og öll „fullkomin gjöf kjemur að ofan frá föður ljósanna, hjá hverjum hvorki er umbreytíng nje skuggi af „umskiptum,"

Prestur. Hvað lærum vjer af þeirri ritníngar grein? Kristrún?

Kristrún. Að vjer eigum guði allt gott að þakka.

Prestur. Er það góða þá lítið?

Kristrún. Nei! það er mikið, það mun reynast mikið, þegar vjer hugsum útí það.

Prestur. Höfum vjer þá, Lýður litli! rjett í því, að kalla guð vorn föður?

Lýður. Já.

Prestur. Lætur sá, sem er góður faðir sjer nægja með að gefa börnunum?

Lýður. Nei! hann gjörir þeim fleira gott.

Prestur. Hvað gjörir hann þá meir? kannske hann kjenni þeim líka?

Lýður. Já! hann segir þeim hvað þeim sje gott eða skaðlegt.

Prestur. Hann gjörir þá meira enn að gefa þeim mat og drykk?

Lýður. Já!

Prestur. Getur þú, Magnús minn! sagt mjer ritníngargrein uppá, að guð gefi oss líka mat og drykk?

Magnús. Já! „1 Pet. 5, 7. kastið allri yðar „áhyggju uppá hann, hann ber umhyggju fyrir yður."

Prestur. Hver er meiníngin í því?

Magnús. Þegar vjer berum oss eptir eins og hann hefur skipað, þá meigum vjer treysta því, að vjer fáum nóg til vors nauðsynlegs lífs-uppeldis.

Prestur. Hefur hver einn góður faðir líka umhyggju fyrir uppfræðíngu barna sinna?

Magnús. Já! eins og góður faðir sjer hann fyrir því, að þau læri það, sem er gott og nytsamlegt, svo þau verði vel siðuð og skynsöm.

Prestur. Finnur þú það í ritníngunni?

Magnús. „Esaj. 48, 17. svo segir drottinn
„þinn lausnari, sá heilagi í Ísrael: jeg er drottinn
„þinn guð, sem kjenni þjer það sem þjer er nytsam-
„legt, og leiði þig á þá götu, sem þú átt að gánga.
„Æ! að þú vildir hlýða því, sem jeg segi þjer, þá
„mundir þú farsæll verða!"

Prestur. Seg þú mjer, Guðmundur minn! hvað vjer lærum af þessari ritníngargrein?

Guðmundur. Að guð kjenni oss allt það, sem oss er nytsamlegt.

Prestur. Til hvers gjörir hann það?

Guðmundur. Svo að menn verði farsælir.

Prestur. Getur þú sagt mjer það með öðrum orðum?

Guðmundur. Svo þeim líði sífeldlega vel.

Prestur. Seg þú mjer, Kristrún mín! hvern hefur guð sjerílagi sendt, sem fremur öðrum hefur kjennt oss.

Kristrún. Jesúm Krist, og það nefnist hjer í guðspjallinu: ángruðum boðast að Kristur sje kominn.

Prestur. Já! börnin mín! hann hefur bezt kjennt oss að þekkja guð. Hann hefur kjennt oss hvað guð vill vjer skulum gjöra, og hvað guð ætli sjer með oss. Hann hefur kjennt oss, hvernig vjer

eigum guði að þóknast, svo hann aptur á mót elski oss. En — sjer góður líkamlegur faðir ekki þar að auk fyrir því, að börnin hafi not af uppfræðíngunni?

Kristrún. Jú!

Prestur. Gjörir þá guð eins við oss?

Kristrún. Já! hann ber í allan máta umhyggju fyrir vorri velferð.

Prestur. Lætur góður líkamlegur faðir sjer nægja með að kjenna börnunum hvernig þau eiga að breyta, hefur hann ekki líka gætur á hvernig þeim ferst að?

Kristrún. Já! hann gætir að því, og passar uppá það.

Prestur. Gjörir þá guð eins við oss?

Kristrún. Já.

Prestur. Getur þú, Magnús litli! sagt mjer nokkra ritníngargrein, sem hljóði uppá það?

Magnús. Já! „sálm. 139, 1. Drottinn þú ran- „sakar og þekkir mig!“ og aptur seinna v. 23. 24. „ransaka þú mig, guð! og reyn mitt hjarta hvernig „jeg er sinnaður, sjá þú hvort jeg er á vondum vegi, „og leið mig á þann eilífa veg.“[1]

Prestur. Hvað þýðir það að ransaka nokkurn?

Magnús. Að komast eptir hvernig hann hegði sjer.

Prestur. Getur maðurinn gjört eður hugsað nokkuð, sem guð veit ekki?

Magnús. Nei! því í sama sálms 2. versi stendur: „hvort, sem jeg sit eða stend, þá veitstú það; „þú þekkir mínar hugrenníngar áleingdar.“

Prestur. En hvað þýðir það, sem kemur strax

[1] Meiníngin í seinustu orðunum er: sjá þú hvort jeg er á raungum vegi, og leið mig á þann veg, sem liggur til eilífrar sælu.

á eptir í 3ja versinu: „hvort, sem jeg geing eður ligg, „þá ertú í kríngum mig[1] og sjer alla mína vegu?“

Magnús. Þú ert ætíð mitt vitni, þú sjerð allt það, sem jeg hefst að.

Prestur. Seg þú mjer, Lýður litli! getur nokkur líkamlegur faðir verið eins vitni til þess, hvað öll börn hans hafast að, eins og guð?

Lýður. Nei; einginn líkamlegur faðir getur sífeldlega verið hjá börnum sínum, og allrasízt vitað þeirra þánka.

Prestur. Þá skilst mjer, að guð hafi enn meiri tilsjón með börnum sínum enn nokkur maður?

Lýður. Já! hann veit líka allt, sem þau vilja gjöra, þó ekki verði af því.

Prestur. Hvað gjörir góður líkamlegur faðir, þegar barnið dettur og meiðir síg, eða því verður eitthvað á? svara þú, Guðmundur!

Guðmundur. Hann lætur græða það, eða fær því í hendur meðöl til að koma því í stand, sem úr lagi hefur farið.

Prestur. Gjörir guð eins við oss!

Guðmundur. Já! hann hefur gefið oss endurlausnarann Jesúm Krist, sem hefur komið oss í sátt við guð, og þann gleðiboðskap nefnir líka guðspjallið: ángruðum boðast að Kristur sje kominn.

Prestur. Getur þú sagt mjer ritníngargrein uppá það?

Guðmundur. Já! „Róm. 5, 8—11. guð hefur „auðsýnt sína elsku til vor í því, að Kristur hefur í „vorn stað dáið, þegar vjer enn þá vorum syndugir „— en ekki einasta erum vjer frelsaðir, heldur meigum gleðjast af guði, vegna drottins vors Jesú Krists, „hver oss hefur komið í sátt við hann.“

---

[1] Lærðir menn hafa fært sönnur á að orðið: „vera í kríngum einhvern“ megi vel útleggjast fyrir að þekkja hann grant.

Prestur. Segðu mjer, Kristrún! er líkamlegum föður sama hvernig börnin hans hegða sjer?

Kristrún. Nei!

Prestur. Hvað heimtar hann þá af þeim?

Kristrún. Að þau hegði sjer vel.

Prestur. Hvað gjörir hann ef þau hegða sjer vel?

Kristrún. Hann elskar þau.

Prestur. Hvernig er honum til geðs af því?

Kristrún. Hann gleðst yfir þeim, og þykir vænt um þau.

Prestur. En, Lýður litli! gleðst hann þegar hann sjer að eingin tilsögn tjáknar?

Lýður. Nei! það getur ekki verið honum til gleði; honum mislíkar það.

Prestur. Er þessu eins varið hjá guði?

Lýður. Já! honum getur ekki verið óhlýðnin til gleði eður velþóknunar.

Prestur. Er guði þá ekki sama hvernig sem vjer hegðum oss?

Lýður. Nei! því guði er eingin gleði af oss, eða honum er ekki þókknanlegt nema þegar vjer erum guðhræddir.

Prestur. Getur þú sagt mjer ritníngargrein uppá þetta? Magnús minn!

Magnús. Já! „1. Mós. 4, 7. guð sagði við „Kain: er ekki svo? ef þú ert frómur, þá ertú þakk„næmur. En sjert þú ekki frómur, þá hvílist synd„in fyrir dyrum[1] hún situr um þig, en þú átt að „hafa yfirráð yfir henni."

Prestur. Nær erum við þá guði þókknanlegir?

Magnús. Þegar vjer erum guðhræddir.

Prestur. Hvað er þá að vera guðhræddur?

---

[1] Þessi vanda grein hefur verið af ýmsum ýmislega útlögð. Þar sem ekki finnst annað bersýnilega betra, er rjettast að halda þeirri gömlu og siðvanalegu útleggíngu.

Magnús. Að vera fús á að gjöra það, sem guð vill.

Prestur. Gott og vel! en er það ei meira?

Magnús. Að bera sig hvern dag að verða skynsamari og betri.

Prestur. Þar við má líka bæta, að það á að framkoma af elskunni til guðs. En hvernig er sá af guði álitinn, sem er guðhræddur?

Magnús. Þægur. Guð hefur þókknun á honum.

Prestur. En þegar einhver er ekki guðhræddur, eður er óhlýðinn, getur guð haft velþókknun á slíkum?

Magnús. Nei! „sálm. 5, 5. þú ert ekki sá „guð, sem hefur þókknun á óguðlegu athæfi. Sá „vondskufulli fær ei að staðnæmast hjá þjer.“

Prestur. Svo gætir þá guð að oss, og álítur oss með velþókknun, ef vjer erum guðhræddir, en með misþókknun ef vjer erum óguðlegir, vondir og lastafullir; en gjöra þá líkamlegir feður ei meir enn gæta að?

Magnús. Þeir rannsaka hvort börnin hafi verið hlýðin.

Prestur. Finnst það um guð í ritníngunni?

Magnús. Já!„1 Pjet. 1. 17. og með því þjer „ákallið þann föðurinn, sem án manngreinar álits „dæmir hvern eptir sínum verknaði, þá hagið yðar „dagfari með óttablendni, svo leingi, sem þjer dveljið hjer eins og gestir.“

Prestur. Hvað lærum vjer hjeraf? Guðmundur!

Guðmundur. Að guð dæmir án manngreinar álits.

Prestur. Það er að skilja, að vjer eigum að standa reikníng af vorri hegðun. Eptir hverju mun guð dæma?

Guðmundur. Eptir hvers eins verkum, hvort sem maðurinn er í hárri eða lágri stjett.

Prestur. Þegar þið nú, börnin mín! alltíð gjörið það, sem er gott, eruð alltíð skikkanleg, hvers hafið þið þá að vænta af ykkar föður?

Öll börnin. Alls góðs.

Prestur. En þegar þið eruð óskikkanleg, og gjörið það, sem er ljótt, hvers megið þið þá vænta?

Öll börnin. Refsíngar.

Prestur. Hvers meigum vjer vænta af guði, ef vjer gjörum ætíð gott? svara þú, Kristrún!

Kristrún. Að oss gángi ætíð vel.

Prestur. Hvernig var að orði kveðið um það í ritníngargreininni, sem hann Magnús las fram seinast?

Kristrún. Vjer eigum að haga voru dagfari með óttablendni.

Prestur. Hvað þýðir það?

Kristrún. Vjer eigum að lifa forsjállega og með varkárni, svo vjer gjörum ekkert íllt.

Prestur. Hversu leingi?

Kristrún. Svo leingi, sem vjer erum hjer til húsa, það er, á meðan vjer lifum.

Prestur. Má sá sem gjörir þetta, vænta sjer góðs af guði?

Kristrún. Já!

Prestur. Getur hann glaðt sig af því, að guð er hans faðir.

Kristrún. Ójá!

Prestur. Hversu leingi? Lýður!

Lýður. Eilíflega.

Prestur. Deyr guð nokkurn tíma?

Lýður. Nei!

Prestur. Er það stundum, sem hann er ei viðlátinn?

Lýður. Nei! hann getur alltíð hjálpað.

Prestur. Vill hann alltíð hjálpa?

Lýður. Já! guð kann ei að svíkja; hann heldur eins og góður faðir, allt það, sem hann hefur lofað.

Prestur. Höfum vjer orsök til að gleðja oss af því, að Jesús Kristur hefur kjennt oss að þekkja guð svo sem vorn föður?

Lýður. Já!

Prestur. Hver er þá vor skylda aptur á mót?

Lýður. Að hegða oss svo, að guð hafi velþókknun á oss.

Prestur. Mun oss þá vegna vel, börnin mín! ef við gjörum það?

Öll börnin. Já! þá vegnar oss vel.

Prestur. Viljið þið þá breyta og lifa svo, að guði sje það til gleði, og hann álíti ykkur með velþókknun?

Öll börnin. Já! við viljum lifa og breyta svo.

Prestur. Og opt verður misbrestur á því fyrir ykkur — opt hafið þið gleymt því, sem þið nú lofuðuð! æ! gleymið því aldrei hjeðan í frá! ef þið viljið að guð, eins og góður faðir, gleðji ykkur, þá eigið þið líka eins og góð börn, að vera honum til gleði, og það getið þið ef ekki vantar viljann hjá ykkur, því kraptana gefur hann sjálfur!

En nær sýndi Jesús Kristur mesta traust, sem hann hafði á guði sínum föður? svara þú Magnús!

Magnús. Þegar hann rjett undir andlátið fól honum sína sál í hendur.

Prestur. Við skulum þá öll að endíngu þessa samtals, sýngja 19. versið af sálminum: hrópaði Jesús hátt í stað etc.

Vertú, guð faðir! faðir minn, o. s. fr.

## XII. UM SKRÝMSLIÐ GÓÐA.

Einusinni var kaupmaður nokkur flugríkur; hann átti 6 börn: 3 syni og 3 dætur, en þareð hann var

skynsamur maður, svo sparaði hann ekkert uppá uppeldi barna sinna, heldur hjelt þeim til allsslags mennta. Dætur hans vóru dáfríðar, þó sjerílagi sú ýngsta, og var hún í barnæsku sinni alltíð kölluð fríða barnið, svo það nafn hjeldst við hana ætíð síðan, að hún hjet Fríða, hvaðeð vakti stóra öfund hjá systrum hennar. Svo sem þessi ýngsta systirin var sú fríðasta, svo var hún einnig betri enn báðar hinar, því þær voru stolltar af ríkidæmi sínu; ljetu eins og þær væru stór-herra dætur, og vildu ekki tala við önnur kaupmannabörn, eða umgángast nema aðalsfólk. Þær vóru dag hvern við dansleika, gleði og veitslur, en spottuðu ýngstu systur sína, sem brúkaði mestan tímann til að lesa í góðum bókum, eða vinna eitthvað þarft. Vegna þess að allir vissu þær voru ríkar, svo biðluðu margir mestuháttar kaupmenn til þeirra, en þær tvær eldri svöruðu: að þær aldrei vildu giptast, nema ef það væri hertuga, eður í það allraminnsta einhverjum jarli.

En hún Fríða þakkaði hæversklega þeim, sem báðu hennar, sagði samt undir eins: að hún væri ofúng, og hún vildi enn nú vera nokkur ár hjá föður sínum. Allt í einu missti kaupmaðurinn eigur sínar, svo hann átti ekki eptir nema eitt lítið kot lángt frá kaupstaðnum. Hann sagði börnum sínum grátandi, að nú lægi ei annað fyrir, ef þau vildu lífinu halda, enn flytjast þángað, og fara að vinna eins og aðrir bændur. Báðar eldri dæturnar svöruðu: að þær vildu ekki skiljast við kaupstaðinn, þær hefðu svo marga biðla, sem teldu sjer það fyrir lukku, að eiga þær, hversu fátækar, sem þær væru, en þeim góðu stúlkum skjátlaðist í því, þareð biðlarnir vildu ekki líta til þeirra, þegar þær voru orðnar fátækar. Einginn elskaði þær, af því þær voru svo stolltar, og allir sögðu, að það væri mátulegt fyrir þær, þó

drambið lækkaði nokkuð í þeim, þær skyldu nú látast vera stórherra dætur, á meðan þær væru að mjólka í kvíunum. En undir eins sögðu allir: hvað hana Fríðu snertir, þá fer það ílla, að henni skuli gánga á móti; hún er góð stúlka; hún talaði við alla með góðsemi, og var þýðlynd og skikkanleg. Þar voru og nokkrir mikilsháttar menn, sem vildu eiga hana, þó ekki ætti hún eitt fiskvirði, enn hún sagði þeim, að nú gæti hún allrasízt feingið af sjer að skilja við föður sinn í þessari hans baráttu, og hún ætlaði að fara með honum útá landsbygðina honum til hugfróa, og til að vinna fyrir honum. Í fyrstunni fjell henni þúngt að missa sitt ríkidæmi, en hún sagði með sjálfri sjer: „hversu mikið, sem jeg græt, svo „fæ jeg aldrei þar með aptur eigur; jeg verð að bera „mig að verða lukkuleg, án þess að vera rík.“ Þegar þau voru komin til kots síns útá landsbygðina, fór kaupmaðurinn og synir hans að vinna alla landsvinnu. Hún Fríða fór á fætur hálfri eykt fyrir miðjanmorgun, fór að sópa húsið, búverka og búa til matar handa öllu fólkinu. Í fyrstunni fjell henni það þúngt, því hún var ekki vön að gánga í öllu eins og vinnukona; en að tveggja mánaða fresti var hún orðin sterkari, og erfiðið hafði gefið henni fullkomna heilbrygði. Þegar hún var búin að ljúka sínu verki, fór hún að lesa í bók eða spila á hljóðfæri, eða saung og spann svo undir eins. Þar á móti gátu ei hinar tvær systur hennar á sjer tekið fyrir leiðindum; þær fóru á fætur jafnnærri báðum hádegi og dagmálum, voru á ráfi allan daginn, og höfðu af fyrir sjer með því, að telja raunatölur sínar, um fallegu fötin, sem þær höfðu átt, og veizlurnar sem þær höfðu verið í. „Skoðaðu hana ýngstu systur „okkar, sögðu þær sín á milli, það er eingin sóma

„tilfinníng í henni, því hún er svoddan hjáræna, að „hún er ánægð með vesöldina, sem hún nú er í.“

En sá góði kaupmaður, áleit þetta öðruvísi enn dætur hans. Hann vissi að hún Fríða var betur fær um að vera sjer til sóma í stórveizlum, heldurenn systur hennar, hann dáðist að hennar dygðageði, en sjerílagi hennar þolinmæði, því systrum hennar var ekki nóg, að láta hana vinna allt hvað gjöra þurfti á heimilinu, heldur snupruðu hana sífeldlega þará ofan.

Þannig leið eitt ár, sem fólk þetta var í einsetu útá landsbygðinni, þegar kaupmaðurinn fekk brjef um að eitt skip með vörur hans væri lukkulega til hafnar komið. Af þessum frjettum gátu þær eldri dæturnar ekki ráðið sjer fyrir gleði, því nú hugsuðu þær, að loksins væri sá tími kominn að þær gætu komizt frá landsbygðinni, hvar þeim leiddist mjög. En þegar þær sáu að faðir þeirra var ferðbúinn, beiddu þær hann að kaupa handa sjer föt og silki, kvennsilfur og allskonar óþarfa. Hún Fríða beiddi um ekkert, því hún hugsaði með sjálfri sjer, að allir peníngarnir fyrir vörurnar mundu ekki hrökkva til að kaupa allt það, sem systur hennar báðu um. „Biður þú mig ekki um að kaupa neitt?“ sagði faðir hennar til hennar. „Þar þjer eruð svo góðir að „hugsa til mín, svaraði hún, svo vil jeg biðja yður „að færa mjer eina rós, því þær vaxa hjer ekki.“ Það var ekki af því, að henni Fríðu væri svo mikið um gefið að fá rós, en hún vildi ekki með sínu dæmi lasta breytni systra sinna, sem hefðu sagt að hún vildi vera öðruvísi enn aðrir, ef hún hefði ekki beðið um neitt. Sá góði maður ferðaðist burtu, og þá hann kom þángað, sem hann ætlaði, fekk hann ei sínar vörur; sú sök kom til dóms og laga, og eptir mikla mæðu og kostnað snjeri hann til baka aptur, eins fátækur og hann hafði nokkurntíma ver-

ið. Hann átti ekki eptir meir enn tvær þíngmannaleiðir að komast heim, og var farinn að gleðja sig af því yndi, sem hann hefði af að sjá börn sín aptur, en vegna þess leið hans lá ígegnum þykkvan og lángan skóg, villtist hann og fann hvergi bæ. Mesta kafald var og svoddan stormviðri, að honum kastaði tvisvar af hestinum, nótt var komin, og hann hugsaði ekki annað enn hann mundi deyja, annaðhvort af húngri eða kulda, ellegar hann mundi verða uppetinn af úlfum, sem hann heyrði voru að ylfra allt í kríngum hann. Rjett í einu sá hann á milli eikanna ljós mikið, sem honum sýndist vera lángt burtu. Hann reið í þá átt, og sá, að það kom frá stórri höll, sem öll var ljósum prýdd. Kaupmaðurinn þakkaði guði fyrir þessa hjálp, og skundaði til hallarinnar. En hann undraðist mjög, að hann fann einga manneskju á gángi. Hesturinn hans sá stórt hesthús opið, fór þar inn, fann þar gott fóður, og þar hann var húngraður, át hann rösklega þar af. Eptir að kaupmaðurinn var búinn að binda hann, fór hann til hallarinnar, en fann þar eingan mann. En þá hann kom í einn stóran sal, fann hann þar yl og borð vistum búið, en ekki lagt á það nema handa einum manni. Vegna þess hann af snjó og regni var orðinn holdvotur, fór hann til eldsins að þurka sig, og sagði við sjálfan sig: „hússbóndinn „eða ráðsmaður hans munu fyrirgefa mjer, þó jeg „gjöri mig heimakominn, því það mun ekki bíða „leingi þángað til þeir koma.“ Hann beið þar eptir lángan tíma, en þegar komið var undir miðnætti, hríngdi hann með litilli klukku, og þó kom einginn. Hann gat þá ei leingur staðið á móti húngrinu, tók einn hænsna-únga, og borðaði hann í tveimur bitum, þó skjálfandi. Hann drakk líka góðan sopa af víni, varð síðan djarfari, fór útúr salnum, og gekk ígegn-

um nokkur herbergi, sem öll voru ríkmannlega útbúin. Loksins fann hann eitt svefnherbergi, með góðri rekkju, og þareð þá var yfir miðnætti, en hann þreyttur, rjeði hann af, að loka að sjer dyrunum og gánga til hvílu.

Morguninn eptir var vel liðið af dagmálum, þá hann fór á fætur, og undraðist yfir að finna hjá sjer góðan klæðnað í staðinn fyrir fötin sín, sem öll voru skemd eptir óveðrið daginn fyrir. „Án alls efa“ sagði hann með sjálfum sjer, „má þessa höll „eiga einhver góður loptandi, sem hefur miskunað „sig yfir mig.“ Hann leit út um gluggann, og sá ekkert til snjóar, en þar á móti blómsturbuska, sem voru fagrir ásýndar. Hann kom aptur í stóra salinn, hvar hann hafði haft kvöldverð áður, og fann þar lítið borð með morgunverði. „Jeg þakka þjer herra „loptandi, sagði hann hátt, að þú hefur hugsað fyrir ár„bita mínum.“ Eptir að þessi maður hafði hresst sig og mettað, fór hann að leggja á hest sinn, og þareð hann gekk þá fram hjá rósarunna nokkrum, kom honum í hug hvað hún Fríða hafði beðið hann um, og tók einn kvist af þeim mörgu, sem þar voru. Undir eins heyrði hann hark mikið, og sá að til sín æddi skrýmsli, svo ógnarlegt, að nærri leið yfir hann. „Mikið óþakklátur ertú,“ sagði skrýmslið við hann, með skelfilegri rödd. „Jeg frelsaði þitt líf, og hýsti „þig í minni höll, en til launa fyrir það stelur þú „rósunum mínum, sem mjer þykir vænna um enn „nokkurn annan hlut í veröldinni. Fyrir þetta þitt „tiltæki skaltú deyja, og jeg gef þjer ekki nema „fjórða part úr klukkutíma til að biðja guð fyrir „þjer.“ Kaupmaðurinn kastaði sjer á knje, spennti greipar, fórnaði höndum, og sagði við skrýmslið: „náðugi herra! fyrirgefið þjer mjer! jeg ætlaði ekki „að styggja yður, þó jeg tæki eina rós handa einni

„af dætrum mínum, sem hafði beðið mig um hana.“
„Jeg heiti ekki náðugur herra“ svaraði ófreskjan, „en jeg heiti skrýmsli; jeg er ekki fyrir fagurgala, „en jeg vil hver segi eins og hann hugsar, og þú „þarft ekki að hugsa að vinna neitt hjá mjer með „hræsni þinni. En, þú sagðist eiga dætur? jeg skal „þá fyrirgefa þjer með því móti, að ein þeirra komi „fríviljuglega hingað að deyja í þinn stað; jeg vil „ekki heyra eitt orð meira, farðu af stað, og sver „mjer eið, að þú skulir koma aptur innan hálfs miss- „iris, ef eingin af dætrum þínum vill deyja í þinn „stað.“ Þessi góði maður ætlaði sjer aldrei, að gefa neina af dætrum sínum úti dauðann handa þessari ófreskju, en hann áleit, að frestur væri á íllu beztur, „því jeg hef þó í hið minnsta,“ hugsaði hann, „það yndi að sjá börn mín enn nú einusinni, og „kveðja þau,“ hann sór þá, að hann skyldi koma aptur, og skrýmslið sagði honum, að hann mætti fara burt, nær sem hann vildi, en „þó vil jeg ekki, „sagði það, að þú farir tómhendtur. Farðu til baka „inní herbergið þar sem þú svafst í nótt, þar er stór „kista tóm, láttú í hana hvað þú vilt, jeg skal koma „því heim til þín.“ Undir eins fór skrýmslið í burtu, og sá góði maður sagði við sjálfan sig: „úr því jeg „verð að deyja, svo er mjer það þó huggun, að jeg „get eptirlátið vesælíngs börnunum mínum, nokkuð „til lífsuppeldis.“

Síðan fór hann aptur i herbergið, sem hann hafði sofið í, og fann þar mikla hrúgu af gullpeníngum, fyllti af þeim kistuna, sem skrýmslið hafði talað um, læsti henni, tók síðan hestinn sinn, og reið burt frá þessari höll eins sorgbitinn, eins og hann hafði verið glaður að komast þángað. Hesturinn hans fór af sjálfum sjer eina götu út úr skóginum, og innanskamms kom hann heim til kofa sinna. Öll börnin

flykktust að honum, en í staðinn fyrir að taka þeirra blíðlátum, fór kaupmaðurinn að gráta, þegar hann sá þau. Hann hjelt á rósakvistinum í hendinni, fekk henni Fríðu hann og sagði: „Fríða! taktú við rós- „unum þeim arna! þær hafa kostað mig vesælíng „nógu mikið,“ og síðan sagði hann börnum sínum frá allri þeirri ólukku, sem hann hafði í ratað. Þeg- ar báðar eldri systurnar heyrðu það, skræktu þær uppyfir sig og álösuðu henni Fríðu, að hún grjet ekki. „Skoðið þið hverju stolltið kvikindisins þess „arna kemur af stað, sögðu þær, því beiddi hún ekki „um skart eins og við? en jómfrúin vildi vera öðru- „vísi enn aðrar, og hún er nú orsök í dauða hans „föður okkar, en grætur samt ekki“ „það væri til „lítils gagns“ svaraði hún Fríða: „hvar fyrir skyldi „jeg gráta dauða hans föður míns? hann skal ekki „missa lífið! þareð ófreskjan vill láta sjer nægja með „eina af dætrum hans, svo ætla jeg að gefa mig „henni á vald, og jeg kalla mig sæla, að jeg get „með dauða mínum haft þá gleði, að frelsa hann föð- „ur minn, og sýna honum hversu jeg elska hann.“ „Neí, systir mín!“ sögðu þeir þrír bræður, „þú skalt „ekki deyja, við skulum fara og reyna okkur við „skrýmslið, og drepa það eða sjálfir falla.“ „Hugs- „ið ekki til þess, börnin mín!“ sagði kaupmaðurinn, „því skrýmslisins makt er svo stór, að það er eing- „in von eða vegur til að drepa það. Mjer þykir vænt „um hjartagæðsku hennar Fríðu, en jeg vil ekki „hleypa henni út í dauðann. Jeg er gamall, jeg á „ekki lángt eptir ólifað, svo jeg get ekki misst utan „fáein ár af lífi mínu, í hverjum mjer er lítil eptir- „sjón, nema ykkar vegna, mín kæru börn.“ „Jeg „segi yður sannleikann, faðir minn góður!“ sagði hún Fríður til hans, „að þjer skuluð ekki svo fara „til hallarinnar, að jeg sje ekki með; þjer skuluð

„ekki geta hindrað mig frá að fylgja yður; þó jeg sje „úng þá elska jeg samt ei lífið, og jeg vil heldur „að skrýmslið rífi mig í sundur, heldurenn að deyja „af hugarângri að missa yður.“ Hvað, sem hver sagði, þá vildi hún Fríða endilega ferðast til hallarinnar, og systrum hennar þótti vænt um það, vegna þess þeim var farið að leika öfund á dygðum hennar.

Kaupmaðurinn var svo hugsjúkur yfir því að missa dóttur sína, að hann hugsaði ekkert til kistunnar, sem hann hafði fyllt upp með gullpeníngana; en undir eins og hann var búinn að loka aptur sínu svefnherbergi, gekk yfir hann, þegar hann fann hana við höfðalagið á rúminu sínu. Hann einsetti sjer, að láta ekkert á þessu bera við börnin sín, að hann var orðinn ríkur, því dæturnar hefðu þá viljað fara aptur til kaupstaðarins, en hann var búinn að einsetja sjer að enda sína daga á landsbygðinni, en henni Fríðu trúði hann fyrir því, og hún sagði honum, að meðan hann hefði verið burtu, hefðu nokkrir höfðíngsmenn komið, og meðal þeirra tveir, sem hefðu hugi til systra hennar. Hún beiddi föður sinn að gipta þær, því hún var svo góðhjörtuð að hún elskaði þær, hversu mikið, sem þær höfðu gjört henni íllt.

Þessar tvær vondu stúlkur njeru á sjer augun með lauk til að gráta, þegar hún Fríða fór burt með föður þeirra; en bræður hennar og faðirinn grjetu af alúð. Einginn var grátlaus nema hún Fríða, vegna þess að hún vildi ekki þarmeð auka hinna hrygð. Hestarnir hjeldu leiðina til hallarinnar, og um kvöldið var þar allt ljósum prýdt, eins og í fyrra sinni. Hestarnir fóru í hesthúsið, og sá góði maður fór með dóttur sinni í þann stóra sal, þar fundu þau borð og alls-næktir á, en lagt á borðið fyrir tvo. Kaupmaðurinn gat ei af sjer feingið að borða, en hún Fríða bar sig að sýnast róleg, settist til borðs,

og lagði uppá fyrir hann. Síðan sagði hún með sjálfri sjer: „skrýmslið ætlar að ala mig, áður enn „það vill eta mig, úr því það setur svoddan stór- „veizlu upp handa mjer.“ Þegar þau höfðu borðað heyrðu þau mikinn skruðníng, og kaupmaðurinn kvaddi dóttur sína grátandi, því hann hugsaði að skrýmslið væri það, sem kæmi. Fríða fjekk hryllíng í sig alla, þegar hún sá þessa ógnarlegu mynd; en hún herti sig upp svo sem hún gat, og þá þessi ófreskja spurði hana að: „hvort það væri með góðu „geði, að hún væri híngað komin?“ svaraði hún skjálfandi: já! „mikið góð ertú,“ sagði skrýmslið, „og jeg þakka þjer fyrir það. Farðu á stað aptur á „morgun góður maður! og kom þú híngað aldrei „optar. Vertú sæl Fríða!“ „vertú sæll skrýmsli“ svaraði hún, og í því fór skrýmslið burt. „Æ! dóttir „mín sæl“ sagði kaupmaðurinn, og umfaðmaði hana Fríðu: „jeg er hálfdauður af hræðslu. Láttú mig „ráða, og skildu mig hjerna eptir.“ „Nei! faðir minn „góður,“ sagði Fríða og var einbeitt; „farið þjer „til baka á morgun, og látið guð sjá fyrir mjer; „hann mun miskuna mjer.“ Þau fóru að hátta, en hugsuðu, að dúr mundi ekki koma á auga sitt alla þá nótt; en varla voru þau geingin í rekkjur sínar fyr enn þau sofnuðu sætt og rótt. Í svefninum dreymdi Fríðu að kona nokkur kom til hennar, sem sagði: „jeg læt mjer vel lynda þína geðgæðsku, „Fríða! það góðverk, sem þú gjörir í því, að gefa „út líf þitt til að frelsa föður þinn frá dauða, skal „ekki verða ólaunað.“ Þegar Fríða vaknaði sagði hún föður sínum þenna draum, og þó honum væri hann nokkur hugfró, æpti hann samt hástöfum, þegar hann varð að skilja við þessa sína ástkjæru dóttur.

Eptir að hann var burtu farinn, settist Fríða niður í stóra salnum og fór líka að gráta. En þar

hún hafði mikla hugprýði til að bera, fól hún sig guði á vald, og einsetti sjer að slá burt öllu hugarvýli þann stutta tíma, sem hún ætti eptir ólifaðan, því hún taldi það víst að skrýmslið mundi eta sig upp sama kvöldið. Á meðan tók hún sjer fyrir að sjá sig um kríng, og skoða þessa fallegu höll. Hún dáðist að hversu fallegt allt var, en mest undraðist hún yfir, að hún sá skrifað yfir einum dyrum: húsið hennar Fríðu. Hún lauk dyrunum upp, og fann þar svoddan viðhöfn, sem hún aldrei fyr hafði sjeð. En það, sem henni þótti sjerlegast, var stór bókaskápur, harpa og nótnabækur. „Mjer á ekki að leiðast“ sagði hún í hljóði; síðan hugsaði hún: „ef jeg „ætti ekki að vera hjer utan einn dag, þá hefði ekki „allur þessi tilbúníngur verið hafður.“

Þessi hugsan hughreysti hana aptur; hún lauk upp bókaskápnum, og sá eina bók hvará skrifað var með gull-letri: óskaðu! skipaðu! hjer ertú drottníng og hússfreyja! „æ! sagði hún“ og stundi við, „jeg óska einkis nema að sjá hann vesælíngs föður „minn, og vita hvernig honum líður.“ Hún hafði naumast sagt þetta í huga sínum. En hvað stór var ekki hennar forundran, þá henni varð litið í stóran speg , að hún sá þar bæinn sinn, og hann faðir hennar kom þá heim mjög dapur í bragði. Systur hennar komu á móti honum, og hvernig, sem þær skældu sig til að sýnast sorgbitnar, var þó auðsjen á andlitinu á þeim fögnuðurinn yfir að hafa misst hana systur sína. Strax þar eptir hvarf allt þetta, og Fríða hugsaði með sjálfri sjer, að góðgjarnt væri skrýmslið, hún mundi þess vegna einkis ílls von þurfa af því að eiga.

Um miðdegi fann hún að búið var að leggja á borðið, og meðan á máltíðinni stóð, heyrði hún yndislegan hljóðfæraslátt, en sá eingan mann. Um

kvöldið þegar hun var setst til borðs, heyrði hún skruðníng, sem skrýmslið gjörði, og þá varð hún mjög hrædd. „Fríða!“ sagði skrýmslið við hana, „viltú lofa mjer að vera hjer meðan þú ert að borða?“ „hjer stendur allt í yðar valdi“ svaraði Fríða, en þó skjálfandi. „Nei!“ svaraði skrýmslið, „hjer er einginn „hússráðandi nema þú. Þú þarft ekki annað að „segja mjer enn gánga í burtu, ef jeg er þjer til „leiðinda, jeg skal þá strax fara minn veg. En seg „mjer, sýnist þjer jeg ekki hræðilega ljótur?“ „jú! jú!“ sagði hún Fríða, „því jeg kann ekki að skrökva, en „jeg held þjer sjeuð góðgjarn.“ „Það er líka satt,“ svaraði skrýmslið, „en fyrir utan það jeg er svo ljót-„ur, þá hef jeg ekki minnsta korn af skarpleika, og „jeg veit að jeg er ekki annað enn skynlaus skepna.“ „Einginn er skynlaus,“ svaraði hún Fríða, „sem „þekkir skynsemdarleysi sitt, því heimskíngjarnir „þekkja sig aldrei.“ „Borðaðu þá, Fríða!“ sagði skrýmslið við hana, „og berðu þig að láta þjer ekki „leiðast í þessu þínu húsi, því allt hvað hjer er, er „þitt, og mjer væri það ángur ef þú ekki yrðir á-„nægð.“ „Mikið góður eruð þjer,“ sagði Fríða; „jeg er vel ánægð með yðar hjartalag, þegar jeg „hugsa um það, svo sýnist mjer þjer ekki mjög ljót-„ur.“ „Æ! stúlka,“ já! svaraði skrýmslið, „góðgjarn „er jeg, en jeg er ófreskja.“ „Til eru margir menn, „sem eru meiri ófreskjur heldur enn þjer,“ svaraði Fríða, „og mjer þykir vænna um yður með yðar „útliti, heldur enn þá, sem undir fríðri manns ásýnd „dylja hrekkjafullt, svívirðilegt og óþakklátt hjarta-„þel.“ „Ef jeg hefði nokkurn skarpleika,“ svaraði skrýmslið, „þá skyldi jeg haga nett orðum mínum „til að þakka þjer, en jeg er heimskíngi, og allt hvað „jeg get sagt þjer er, að jeg er þjer skuldbundinn.“

Fríða borðaði með góðri matarlyst. Lítið vant-

aði á, að hún væri orðin óttalaus fyrir skrýmslinu; en hún var nærri liðin niður af hræðslu, þegar það sagði til hennar: Fríða! viltú verða konan mín?“ hún gat ekki nokkra stund svarað, hún var hrædd um að reita skrýmslið til reiði, ef hún neitaði, samt sagði hún titrandi: „nei! skrýmsli!“ í því sama augnabragði ætlaði vesælíngs skrýmslið að stynja, en það varð svo ógnarlegt gaul, að undir tók í allri höllinni. Hún Fríða hughreystist samt fljótt aptur; því eptir að það hafði mjög sorglega sagt: „vertú þá sæl, „Fríða!“ fór það út úr salnum og leit endrum og sinnum til baka á meðan það var á ferðinni út. Þegar Fríða sá að hún var alein, fann hún hjá sjer mikla meðaumkun til skrýmslisins. „Æ! sagði hún, „það fer ílla að það er svo ljótt, því það er þó góð„hjartað.“ Fríða var hálft missiri í þessari höll sæmilega róleg. Á hverju kvöldi kom skrýmslið til hennar, og talaði við hana meðan hún var að borða, aldrei greindarlaust, en aldrei heldur með því, sem kallað er skarpleiki í heiminum; á hverjum degi sá hún Fríða ný merki til góðgirndar hjá því, hún var orðin svo vön að sjá það, að hún tók ekki eptir hversu ljótt það var, og svo lángt var frá hún kviði fyrir það kæmi, að hún gætti opt að því hvað framorðið væri til að vita hvort ekki væri liðið að náttmálum, því þá var víst að vænta að ófreskjan kæmi. Það var ekki utan einn hlutur, sem gjörði henni Fríðu ángur, sem var áðurenn skrýmslið fór burt á hverju kvöldi, spurði það hana að, „hvort „hún vildi vera konan sín?“ og sýndist að verða mjög sorgbitið, þegar hún sagði: „nei.“

Einusinni sagði hún: „þjer ángrið mig með þessu, „skrýmsli! jeg vildi jeg gæti átt yður, en jeg er of „einlæg til að segja annað enn jeg meina; jeg held „það verði aldrei. Jeg skal alltíð vera yður vinveitt,

„og berið yður að láta yður það nægja.“ „Það „verður þá svo að vera,“ svaraði skrýmslið, „jeg „þekki mig sjálfur. Jeg veit að jeg er mikið hrylli-„legur; en jeg elska þig yfir máta, og þessvegna „tel jeg það lukku mína, að þú vilt vera hjá mjer. „Lofaðu mjer því að þú skulir aldrei skilja við mig.“ Þá Fríða heyrði þetta, roðnaði hún. Hún hafði sjeð í speglinum sínum, að faðir hennar var sjúkur af hug-arángri að hafa misst hana, hún óskaði sjer því að meiga finna hann. „Jeg gæti lofað yður því“ sagði hún Fríða við skrýmslið, „að skilja aldrei til fulls „við yður, en mig lángar svo til að tala við hann „föður minn, að jeg held jeg deyi af sorg, ef þjer „neitið mjer um þá ánægju.“ „Jeg vil heldur deyja „sjálfur“ sagði ófreskjan, „enn gjöra yður á móti. „Þó jeg láti yður fara til hans föður yðar, þá verð-„ið þjer þar kyr, og yðar vesælíngs skrýmsli deyr „þá af sorg.“ „Nei“ sagði hún Fríða, grátandi: mjer „þykir vænna um yður enn svo, að jeg vilji vera „orsök í yðar dauða. Jeg lofa yður að koma aptur „að átta daga fresti. Þjer hafið sýnt mjer, að syst-„ur mínar eru giptar, og bræður mínir farnir í leið-„ángur; faðir minn er þess vegna einsamall heima, „lofið þjer mjer þá að vera hjá honum eina viku!“ „þú skalt koma til hans á morgun í bítið“ svaraði skrýmslið, „en mundu til þess, sem þú hefur lofað „mjer. Þú þarft ekki annað enn láta hrínginn þinn „á borðið, þegar þú geingur til rekkju, ef þú vilt „koma til baka. Vertú sæl, Fríða!“ og skrýmslið stundi eins og það var vant, þegar það sagði þessi orð, en Fríða fór að hátta, var samt mjög hnugg-in af því, að hún sá ílla lá á skrýmslinu. Þegar hún vaknaði um morguninn, var hún í húsi föður síns, og kallaði, þángað kom ein vinnustúlka, er hljóðaði, þegar hún sá hana. Þegar sá góði maður heyrði

þetta hljóð, hljóp hann til, og ætlaði nærri að deyja af gleði, er hann sá aptur sína kjæru dóttur, hjeldust þau leingi í faðmlögum að heilsa hvert öðru. Eptir þann fyrsta gleðifund hugsaði hún Fríða, að hún hefði eingin föt að fara í, en vinnustúlkan sagði henni, að hún hefði rjett núna fundið í næsta herbergi stóra kistu fulla með kvennklæðnað, settan með gulli og gimsteinum. Fríða þakkaði sínu góða skrýmsli fyrir þessa umhugasemi: hún tók þann fatnað, sem minnst var haft við, og sagði vinnustúlkunni, að láta hina niður aptur, því hún ætlaði að gefa þá systrum sínum, en varla var hún búinn að úttala þessi orð, fyr enn kistan hvarf. Faðir hennar sagði henni, að skrýmslið vildi, að hún hjeldi öllum þessum klæðnaði sjálf, og strax voru klæðnaður og kista komin aptur á sama stað. Fríða fór þá að klæða sig, en meðan á því stóð voru send boð til systra hennar, hverjar ekki ljetu leingi eptir sjer bíða. Þær voru báðar mikið ólukkulegar: sú eldri hafði eignast dáfríðan mann, en honum þókti svo vænt um sína eigin mynd, að hann frá morgni til kvölds tók sjer ei annað fyrir að gjöra, en hugsa um hana, foraktaði aptur á mót fríðleika konu sinnar. Hin önnur átti flugskarpan mann, sem ekki brúkaði skarpleikann til annars, enn hæða alla og erta upp, enn þó einna mest og helzt konu sína. Báðar systur hennar Fríðu voru nærri dauðar af sorg, þegar þær sáu að hún var klædd eins og konúngdóttir, en fríð og árleg ásýndar. Hversu blíðar, sem þær sýndu sig við hana, var öfundin samt stæk hjá þeim, bættist þó mikið á hana þegar hún Fríða var búin að segja þeim frá hversu vel sjer hefði liðið. Þær tvær öfundsjúku systur fóru þá útí garð til að gráta, svo einginn sæi, og sögðu hver við aðra: „því er kvikindið að tarna lukkulegra enn við? er-

„um við ekki elskuverðari enn hún?“ systir mín!“ sagði sú eldri, „mjer kemur nokkuð í hug: við skul- „um bera okkur að láta hana vera hjer leingur enn „átta daga, því þá fýkur í heimsku skrýmslið henn- „ar, svo það etur hana upp, þegar hún heldur ekki „sitt loforð.“ „Það er satt, sem þú segir, systir mín!“ svaraði hin önnur; „við skulum vera úrtöku blíðar „við hana,“ og þá þær höfðu bundið þetta fastmæl- um, fóru þær inn aptur og voru svo vinalegar við hana systur sína, að hún Fríða grjet gleðitárum yfir því. Þegar átta dagar voru á enda, rifu báðar syst- urnar í hárið á sjer, og ljetust vera svo sorgbitnar yfir hennar burtför, að hún lofaði að vera enn þá átta daga hjá þeim.

Eptir þetta nagaði Fríða sig mikið í handarbökin fyrir þá sorg, sem hún gjörði sínu vesælíngs skrýmsli, hvert hún elskaði heilhuga og henni leiddist að hún sá það ekki. Tíundu nóttina, sem hún var hjá hon- um föður sínum, dreymdi hana, að hún væri í urta- garðinum hjá höllinni, og sá þar skrýmslið liggjandi í grasinu, komið að dauða, og var að brýxla henni um hennar óþakklæti. Fríða hrökk upp í svefnin- um, og tárfeldi mjög. „Er jeg ekki yfrið vond“ sagði hún „að gjöra skrýmslinu svoddan mæðu, sem „hefur verið mjer svo gott og eptirlátsamt? það er „ekki því að kenna þó það sje ljótt og skarpleika- „laust? það er góðhjartað, sem er betra enn allt „annað. Því hef jeg ekki viljað eiga það? jeg hefði „verið lukkulegri hjá því enn systur mínar eru með „þeirra mönnum. Hvorki er það skarpleiki nje fríð- „leiki mannsins, sem gjörir hverja eina konu á- „nægða, heldur er það góðsemd, dygðir, eptirlátsemi, „en skrýmslið hefur allt þetta gott til að bera. Jeg „hef ekki elsku til þess, en samt hef jeg fyrir því „virðíngu, vinskap og þakklæti. Jeg á ekki að vera

„ollandi þess ólukku, því svoddan óþakklæti yrði „mjer sífeldlega fyrir hugskotssjónum alla mína lífs- „tíð.“ Þegar Fríða hafði þetta sagt, reis hún upp, ljet hrínginn sinn á borðið og lagði sig aptur til svefns. Naumast var hún lögst útaf fyr enn hún sofnaði, og þegar hún vaknaði um morguninn, sá hún með gleði, að hún var í höll skrýmslisins. Hún bjó sig þann dag, sem bezt hún gat til þess að þókknast því, og leiddist mikið allan daginn að bíða eptir því að náttmálum, en þá svo var fram- orðið, kom skrýmslið ekki. Fríða var þá orðin hrædd um, að hún hefði verið orsök í þess dauða. Hún hljóp um alla höllina kallandi og æpandi, en fann það hvergi. Eptir að hún hafði allstaðar leitað, kom henni í hug draumurinn, og hljóp í urtagarðinn til lækjarbakkans, þar sem hún hafði sjeð skrýmsl- ið í draumnum. Þar fann hún það liggjandi tilfinn- íngarlaust, og hugsaði það mundi vera dauðt.

Hún kastaði sjer ofanyfir kroppinn, og hafði þá eingan viðbjóð á þess mynd, en þareð hún fann að hjartað blaktaði enn þá í því, tók hún vatn úr lækn- um, og skvetti framaní það. Skrýmslið lauk þá aug- unum upp, og sagði við hana Fríðu: „þú hefur gleymt „þínu loforði, og af hugarvýli að missa þig, var jeg „búinn að taka fyrir mig að svelta mig í hel, en nú „dey jeg ánægður, þar jeg hef þá gleði að sjá þig „enn nú einusinni.“ „Nei! mitt elsku skrýmsli! þú „skalt ekki deyja,“ sagði hún Fríða, „þú skalt lifa „til að verða maðurinn minn; nú gef jeg þjer mína „hönd uppá það, og sver að jeg aldrei skal eiga „neinn annan. Æ! jeg hugsaði jeg mundi ekki „hafa utan vináttu til þín, en nú sýnir mjer þessi „sorg, sem jeg þinna vegna ber, að jeg get ekki án „þín lifað.“ Varla var hún Fríða búinn að úttala þessi orð, fyrenn hún sá að öll höllin var ljósum

prýdd, og allskonar hljóðfæri ljeku, eins og búizt væri við stórveizlu. Samt festi hún ekki huga sinn við neitt þessháttar, heldur leit strax til síns elskulega skrýmslis, hugsjúk um þann háska, sem það var í. En hlessa varð hún, að það var horfið burt, og hún sá hjá sjer standandi konúngsson fríðan og fallegan, sem þakkaði henni fyrir, að hún hefði nú látið álögur þær, sem á honum voru, enda taka. Jafnvel þó henni þækti mikið til þessa konúngssonar koma, spurði hún samt hvað orðið væri af skrýmslinu. „Jeg er sá hinn sami,“ sagði konúngssonurinn. „Íllskufull norn hafði lagt á mig, að hafa þessa mynd „þángað til einhver fríð stúlka sjálfviljuglega hefði „viljað eiga mig, en hún bannaði mjer að sýna, að „jeg hefði nokkurn skarpleika, þess vegna var eingin nema þjer, sem höfðuð svo mikla geðgæðsku að „gángast einúngis fyrir mínu góðu geðslagi, og til „þakklætis fyrir það tilbýð jeg yður að setjast að „ríkjum með mjer.“ Fríðu þótti vænt um þetta; konúngssonurinn og hún fylgðust að heim til hallarinnar, og þar jókst mikið gleði hennar, að hún fann þar föður sinn, og alla sína ætt, sem sú fríða frú er henni hafði birtst í draumi, hafði flutt þángað. „Fríða!“ sagði þessi frú, sem var ein mikilsháttar lopt-gyðja; „tak hjer á móti launum fyrir það þú valdir svo vel „þinn ektamaka! þú mattir meira dygð og góðgirni, „heldurenn fríðleika og skarpleika. Þú verðskuldar „þess vegna að finna allt þetta sameinað hjá einni „og sömu manneskju. Þú verður nú mektug drottning, og jeg vona að það háa stand ekki skemmi „þínar dygðir. Hvað ykkur viðvíkur, konukindur!“ sagði lopt-gyðjan við báðar eldri systurnar, „þá þekki „jeg ykkar hjartalag og alla þá vondsku, sem þarí „býr. Verðið þið að tveimur stein-stoðum, en þið „skuluð halda allri ykkar skynsemi innaní steininum,

„þið skuluð standa þar sín við hvern dyrustaf á „höllinni hennar Fríðu, og jeg legg ekkert á ykkur, „nema að horfa þar uppá hennar lukku, og þið skul-„uð ekki komast aptur í ykkar fyrra stand, fyr enn „þið þekkið ykkar brest. Það hefur skeð, að menn „hafa orðið leiðrjettir frá stollti, bræði, óhófsemi og „leti, en kraptaverk er það, þegar sá, sem er íll-„gjarn og öfundsjúkur, umvendist.“

Lopt-gyðjan sló sprotanum sínum á gólfið, og flutti alla þá, sem í salnum voru í ríki hins únga kóngs, þegnum hans var mikill fögnuður að sjá hann aptur. Hann giptist Fríðu sinni, lifðu þau bæði leingi og vel í fullkominni farsæld, af því hún var grundvölluð á dygðinni.

## XIII. ÝMISLEG SANNMÆLI.

### XVIII.

Hversu vel vem nokkur hlutur kann að vera undirlagður, stendur þó opt í einhvers heimskíngja valdi, hvort hann tekst eður ei.

### XIX.

Margur klagar sá yfir óláni sínu, sem ætti að kenna um það hyrðuleysinu.

### XX.

Kvennfólkið er eins og almúginn; þær þurfa að vera hræddar, ef maður á ei að vera hræddur við þær.

### XXI.

Sá er hvorki sæll nje ríkur, sem á mörg óðöl, nema hann sje jafn-ánægður einúngis með eitt.

### XXII.

Sá sem sífeldlega er að gæta að annara högum og framferði, er eins og þeir, sem aldrei eru heima, en fara á aðra bæi til að hagræða þar öllu, meðan allt geingur í trassa-skap hjá þeim sjálfum.

XXIII.

Elskuríkur vinur á stundum bágara með að finna að við vin sinn, enn þessi að játa ávirðíngu sína.

XXIV.

Sá, sem gjörir lítið úr sjálfum sjer, mundi kannskje ekki þakka öðrum, sem samsinnti honum í því.

XXV.

Ekkert er líkara litlu viti, en mikið vit með hræðslu.

XXVI.

Það fer ílla, að sama er orsökin til þess, að hann Sigmundur trúir öllu því skrítna, og undrunarverða, sem hann segir mjer, og jeg trúi eingu af því. Hún er: það er allt um hann sjálfan.

XXVII.

Vorar áköfu geðs-hræríngar eru eins og hitaköst og flog í landfarsótt. Þó þær gjöri oss sterkari meðan á þeim stendur, verðum vjer samt þess veikari, og meir eptir okkur, þegar frá líður.

XXVIII.

Tveir menn geta verið jafn fríir fyrir stollti, en hafa mjög misjafnt gott til að bera; annar kannskje sje vaxinn uppúr því, en hinn ekki upp í það.

XXIX.

Eins og sumir segja: jeg drekk ekki brennuvín; jeg brúka ekki tóbak, svo finnast þeir líka, sem óhikað segja: jeg er ekki fyrir að lesa. Því segja þeir þá ekki eins: jeg er ekki fyrir að hugsa?

XXX.

Það er bágt að hafa svo sjálfs elsku að aðrir verði ekki við hana varir; en mikið hægt að hafa hana svo vjer sjálfir ekki tökum eptir henni.

XXXI.

Þegar stúlka verður við bón elskhuga síns, þá

slökkur hún eld með vatni; en sá, sem verður við bón vinar síns æsir upp bál með feiti. Stundum líkist vináttan í þessu kvenna ást, því síðan hann Kári vinur minn fjekk hjá mjer bón sína, hef jeg ekkert til hans spurt, nema að mjer er hann sagður lífs.

XXXII.

Smáhuga, eptirtölusamir menn eru eins og litlar hálsmjóar flöskur. Þegar því litla, sem í þeim er, á út að hella, þá skvettist það út með vindropum.

XXXIII.

Eins og það er óhæverska að tala hljóðskraf og hvísla í annara viðurvist, eins er það ósvinna að tala skarplegt við heimskan; hann skilur ekki meira af slíku, enn þó því væri hvíslað í eyru á einhverjum öðrum.

XXXIV.

Einginn fyrirlítur fullkomlega sjálfan sig, nema hann undir eins fyrirlíti alla menn.

XXXV.

Sá, sem lýgur, gætir ekki að hvaða ómak hann tekur uppá sig. Til að styrkja með fyrstu ósannindin, þarf hann að finna upp hundrað önnur.

XXXVI.

Í því er heilt konúngsríki og hvert eitt bú lík, að sami er mátinn, sömu eru orsakirnar, sem gjöra hvorttveggja ríkt og blómstrandi, ellegar koma þeim í niðurdrep og örbyrgð. Hyrðuleysi, òstjórn, sóunarsemi, óhóf og sællífi er viss fordjörfun í hvorutveggjum. Þegar búið er að eyða öllum peníngunum til óþarfa, og stundum ílls, þá verður að fara að stela, ræna, leggja á skatta, eða draga af hjúunum, hvaðeð gjörír þá undirgefnu lastafulla og auma, en deyðir elsku þeirra til stjórnandans, verða þá mögl og ánægjuleysi almenn, hvert útvortis eður innvortis

fjandmenn síðan nýta sjer. Stjórnandinn sæi þetta, hefði hann einhvern sjer velviljaðan, sem segði honum það, og hann væri ei blindaður af maktinni, eða sællífinu. Caligula, Neró og fleiri ómenn í Rómaveldi ljetu drepa sekaða og saklausa einasta til að ná eignum þeirra að sóa út. Sóunarsemi, (eða ef einhver vildi kalla það svo, örlæti) Hinriks þriðja Eingla konúngs kom honum til að selja laust og fast, setja í pant lönd sín og kórónuna með, þángað til hófðíngsskapurinn varð svo stór, eður rjettara að tala, datt svo fyrir ofurborð, að hann átti ekki mat til næsta máls, en varð með konu sinni og börnum að fara betlandi klaustur af klaustri. Eptir að hann hafði margsvikið þegna sína, verið grimmur og rángsleitinn við þá, og var kominn í stærsta forakt, rak hann sig loksins á, að sú rjetta ríkisstjórn er, að vera örlátur með hófi, gjöra rjett, og vera góður við þegna sína. Af óhófs örlæti og heimsku prakt er Frakkland enn að bíta úr nálinni, og Loðvík konúngur sextándi kom af því fyrir fáum árum undir böðuls-öxina.

### XXXVII.

Hatri gleyma margir, en fáir fyrirlitníngu.

### XXXVIII.

Einginn ætti að skammast sín fyrir að játa, að sjer hefði yfirsjest, því með að meðkenna það, segir hann sjer hafi síðan farið fram í vitskunni.

## XIIII. GÁTUR.

46). Árið. 47). Pappír[1] 48). Rykti. 49). Hnakkur. 50). Trjáfloti.

---

[1]) Er gjörður úr ljereptsríum, en ljereptið aptur úr hör, þessi hör er gras, til hvers sáð er, það vex á jörðunni, er síðan bleytt í vatni, þurkað við eld eða sólarhita, þareptir brotið svo skelin fari utanaf, og þá er þettað lín. Línið er

51). Einginn litur er mjer í blíðri fegurð líkari enn morgunroðinn. Fúsust er jeg til að klæða meinleysið, þó straffar illmennskan sig líka opt móti vilja sínum með mjer.

52). Á mínum stóra líkama hef jeg hið kaldasta fat, og þó er ekkert svo heitt þegar kaldast er.

53). Höfuðið á mjer er ættað úr innstu fylgsnum jarðarinnar, þunnt framan, en þykkt að aptanverðu. Búkurinn óx ofaná henni. Bæði til að eyðileggja, mynda og festa eitt eða annað ljær þú mjer þinn krapt, og jeg ljæ þjer minn.

54). Jeg er ólipur skepna, þúng og óbráðleg, skríð fótalaus á maganum, en hleyp samt stundum svo fljótt eins og vindur.

55). Jeg hef eingan blifanlegan samastað, því vindurinn feykir mjer burt. Hversu þykkur, sem jeg er, tjáir ei að grípa mig. Láttú aptur augað, annars gjöri jeg þjer skaða.

## XV. MÚSAR SAGAN.

(Dæmisögur þær, sem jeg hef endrum og sinnum lesið á kvöldin, eru stýlaðar undir nafni ýmsra dýra eður annara hluta, til þess þeir lærdómar, sem þaraf kunna að dragast verði því áheyrilegri og rótfastari, hjá hverjum, sem eptir vilja taka. Eitt af slíku er eptirfylgjandi æfisaga, Músar nokkurrar, hverja jeg hef hitt í blöðum mínum, og þar jeg ei hafði annað hendi leingra, las jeg hana fyrir fólki mínu í þetta sinn).

Mús nokkur, sem orðin var háöldruð og komin að fótum fram, sá að sínir lífdagar mundu snart enda taka, kallaði þess vegna til sín alla sína af-

---

spunnið og ofið, allir brúka ljereptið, enn þegar það er útslitið, kaupa það pappírs-mylnu menn, og gjöra úr því pappír, sem skrifað er á eða prentað, og þannig kemur ljereptið aptur manna á milli.

komendur, sem margir voru orðnir, og talaði til þeirra þessum orðum:

Mín kjæru börn! ef nokkur hlutur ætti að uppvekja hjá mjer eptirsjón á lífinu, þá væri það sá háski, sem jeg sje þið eruð í stödd nú þá jeg skil við ykkur; en jeg vona svo góðs til ykkar, að þið látið mín síðustu orð ykkur í eyrum loða, og hlýðið mínum ráðum. Ef þið fylgið þeim þá getið þið komizt til hárrar og góðrar elli eins og jeg. Til að uppörfa ykkur til hlýðni, vil jeg segja ykkur mína æfisögu:

Jeg er borin og í heiminn fædd í því sama húsi, sem við enn nú búum í, en jeg hef sjeð í því margar umbreytíngar. Þegar jeg kom til, bjó hjer úng norsk frú, sem ekki vissi aura sinna tal. Æ, börnin mín góð! þessarar frúar hús var sælustaður og vellystínganna hýbýli fyrir okkur vesælíngs mýslur! hún hjelt 20 manns í heimili, setti upp borð fyrir hvern, sem þyggja vildi. Þið megið nærri geta, að þar hún hjelt svo margt fólk einúngis til að þjóna sjer, þá hafi hún ekki tekið uppá sig það ómak, að hafa umsjón í sínu húsi. Ráðsmaðurinn, ráðskonan og feit eldakona áttu að kaupa inn matvæli og hagtæra þeim, en hamíngjan má vita hvernig þau fóru að því. Öll þessi þrjú tóku penínga af þeim kaupmönnum, sem seldu allt hvað þurfti til hússins, og þess vegna var það þeirra ábati, að sem mest geingi upp. Mikið var borðað, en meira gekk til ónýtis, og þá, áttum við mýslurnar gott, nóg að eta, og óttalausar að öllu. Þá vildum við ekki hraknýta leyfar eða molana, því við gátum fyllt okkur, og geingið í því, sem bezt var, og vorum látnar draga burt hvað sem við vildum. Tveir feitir kettir áttu að hafa varðhald í eldhúsinu, en þeir skiptu sjer ekkert af okkur, og sváfu sætt og rótt á milli. þess þeir steyttu

út vömbina með kræsilegum máltíðum. Jeg gæti sagt ykkur, börnin mín! margar skrýtilegar sögur um það, sem skeði í úngdæmi mínu. Jeg kom til í herbergi ráðskonunnar, og þar var það, sem allir henni undirgefnir komu að lúta henni, en hún gegndi þeim optast með óþolandi stollti. Stundum virðtist hún að líta náðugu auga til þeirra, þegar þeir svo gott, sem tilbáðu hana, en hún galdt þeim síðan fullum gjöldum auðmýktina; hún var sú bezta konukind, sem verða kunni að fráteknu stolltinu. Hún vildi að það skyldi sjá á útliti hjúanna, að hússmóðirin, væri rík, og var ætíð gjörn á að gjöra bón þeirra, sem lítils þurftu við. Eldakonurnar áttu að láta sjer nægja með grautar-slembru á morgnana, en áttu ekki að fá Thee. Ráðskonan hafði þá svo sterkt hjá sjer, og bætti svo opt í Theekönnuna aptur, að stúlku-skepnurnar feingu sæmilega sterkt Thee af því, sem hún leifði. Lykillinn stóð optast í skápnum, sem hún geymdi sykrið í, svo hægt var að því að komast, og þegar hún sá, að af því hafði verið stolið, sagði hún hlæandi: óh! allir verða að lifa! hún var svo góðsöm, að hún gaf öllum rjóma til að drekka með Theeinu. Satt er það, að ekki þorði hún að setja svo mikinn rjóma í reiknínginn, ef það hefði einhverntíma kunnað að koma að hússmóðirinni að líta í hann, en hún reiknaði átta potta mjólkur, í staðinn fyrir tvo, og svo komst allt heim. Jeg mætti leingi að vera, ef jeg ætti að segja ykkur frá öllum þeim ógnarlegu skemdum og eyðslu, sem þessi kona og hennar áhángendur gjörðu, en hversu, sem við gömlu konurnar erum símálugar, þegar við förum framí fornu aldirnar, þá skal jeg þó hjer við hætta.

Það var þá undir þessarar konu maktar veldi, sem jeg eyddi mínum fyrstu úngdóms árum, en til allrar ólukku hvarf þessi sæla eins og draumur,

hvar af ekkert verður eptir, nema maður man til hans. Hússmóðirin hafði ekki passað útgjöldin eptir inntektunum, vissi því ekki fyr til, en hún var orðin örsnauð. Hún neyddist þá til að flytja sig út á landsbygðina, en aðrir komu til að búa í húsinu, er hún hafði í verið. Vegna þess jeg hafði þá ekkert reynt, brá mjer lítið við þessa umbreytíngu, svo sem hún kæmi ekkert við mig, en jeg var ei leingi að sjá, í hverja ógæfu jeg var komin. Mín nýja hússmóðir hjelt eins margt fólk og sú fyrri, og þó var svoddan regla á öllu í húsinu, eins og þar hefði ei verið fleiri en tveir menn. Þessi kona umturnaði svo allri góðri reglu, en passaði sjálf upp á það, sem hún átti, og trúði eingum nema sjálfri sjer fyrir búskaparsökunum; sykur, sælgæti og annað þvílíkt læsti hún inn í litlu herbergi, sem hún hafði sjálf hjá sjer lykilinn að. Hún vissi upp á eitt hár, hvað til hvers hlutar gekk, svo það var ómögulegt að leika á hana, í hversu litlum hlut, sem var. Hún vildi, að nóg skyldi vera af öllu og allt veglegt, en vildi ekki líða, að hið allra minnsta færi að forgörðum. Fljótt hafði jeg ekki til viðurværis nema smá agnir, sem duttu af borðum hjúanna, ekki svo mikið, sem einn ostmola eða staup af kertisskari; allt var hirt og nýtt. „Bannsett kerlíngar-skrukkan!“ sagði jeg í bræði minni: „hver skyldi trúa því, sem sjer ógnar „veizlurnar, sem hjer eru uppsettar, að þú skulir „láta svoddan skepnu-mor svelta hjá þjer, sem ekki „þarf meira en jeg!“ Stundum hughreysti jeg mig með því, að þetta mundi ekki leingi standa, en mjer varð ekki að því. Þeir tveir friðsömu kettir, sem jeg áðan nefndi, höfðu ekki skilið við húsið, enn voru orðnir sár-dauflegir á svipinn. Mjer var forvitni á að vita, hvað þeir hugsuðu um allt þetta, og eitt kvöld, þegar þeir voru mikið makráðir á ein-

tali, fór jeg út í holudyrnar mínar að hlustu til, hvað þeir væru að tala.

„Það er þá staðráðið fyrir þjer að fara burt úr „þessu húsi, sem þú ert borinn og barnfæddur í,“ sagði sá ýngri kötturinn til þess eldra? „hvernig „get jeg haldizt hjer við leingur,“ svaraði hinn með mesta ólundartón. „Sjerðu ekki, að jeg er ei orð„inn nema skinin beinin, af þeirri sultarföstu, sem „hjer er lögð á mig?“ en, svaraði sá ýngri: „er þá „einginn hjálparvegur að vera hjer leingur? hvernig „sem eldakonan vill passa upp á, treysti jeg mjer samt „bæði með lymsku og áræði til, að geta krytjað mjer „nokkuð; þar að auki er hússmóðirin orðin fjörgöm„ul, það bíður ekki leingi, þángað til hún stökkur af, „og þá batnar fyrir okkur.“ „Þess er eingin von,“ svaraði gamli kötturinn, „því þú skalt vita að okk„ar ólukka hefur híngað sendt svenska konu, og þess „vegna er einkis góðs að vænta. Frúrnar í hennar „landi hugsa, að þær eigi að hafa umsjón með þeirra „húsi, þær útvelja svo vel, og hafa svo nákvæma „aðgætni á þeirra þjónustufólki, að þær verða sjald„an sviknar. Þær venja það á hentisemi og rjetta „reglu, og eldakonan þessi hefur nú verið hjá henni „í 10 ár, svo hún er orðin fullvanin eptir henni, „og mun stránglega hefna, ef frá henni væri stolið. „Jeg er viss um, að það mundi kosta þann æruverð„asta kött lífið, ef hann sýndi sig í, að krækja til „sín einn matarmola. Þar fyrir utan batar það ekk„ert fyrir okkur þó hússmóðirin sje komin til ára „sinna. Þessar bannsettu svensku konur eru svo „sjerlundaðar að uppala dætur sínar til búskapar um„hyggju, eins og þær sjálfar hafa verið viðvandar í „þeirra barnæsku. Svenskar höfðíngja dætur þykj„ast ekki gjöra sjer neina vanvirðu með því að taka „hendi til hvers, sem þarf í búskapnum; það er sí-

„feldlega verið að prjedika þeim það, að til þess, að „halda við þeirri prakt, sem þeirra standi sómir, „verði þær að halda sjer frá óþarfa útgjöldum, ef þær „eigi ekki að hleypa sjer í skuldir, að hjúin eigi ekk- „ert að bresta, enda eigi þau heldur eingu að spilla, „og margar aðrar forneskju reglur, sem eru þeim „innprentaðar frá barnæsku, svo þær sjaldan breyta „á móti þeim."

Þjenari einhver kom í þessu inn í eldhúsið, svo kettirnir hættu samtalinu, en hvurfu burt daginn eptir. Jeg var þá úng, svo jeg tók lángtum minna eptir því, sem sá eldri sagði, og þar jeg gat ekki leingur lagt á mig að svelta eins og jeg hafði þángað til orðið að gjöra, einsetti jeg mjer að fara að lifa á handafla mínum, hvað sem það kostaði. Leingi var jeg að bera mig að komast inn í herbergið, sem frúin geymdi í sælgæti sitt; en þegar jeg komst þángað, launaði jeg sjálfri mjer lánga föstu með þeirri beztu veizlu, sem upphugsast kunni. Meðan jeg var að gjöra mjer til góða, rann mjer stundum í hug, að mikið vogunarspil væri þetta, og þá skalf jeg og titraði, að þjófnaðurinn kynni komast upp um mig; en jeg sló því strax aptur úr huga mínum, því jeg hugsaði, að allt mundi gánga eins og áður var vant, jeg hafði nókkrum hundrað sinnum stolið frá ráðskonunni, sem jeg fyr umtalaði, og hafði hún ekki virt sig þess, að vilja í minnsta máta koma í veg fyrir það. En heimsk var jeg! jeg vissi ekki, hversu stór munur er á auga hússmóðurinnar sjálfrar og matselju hennar, en jeg fjekk að læra það eptir á með mínum eiginn skaða! jeg var orðin djörf, af því mjer lukkaðist svo vel í fyrsta sinn, og kom daginn eptir í þetta ólukku herbergi, en það fyrsta, sem jeg sá þar, var lítill stokkur opinn á báðum endum, í hverjum miðjum var bitakorn af steiktu fleski; jeg

rann á lyktina, fór inn í stokkinn og beit í fleskið; en, ó! þá ólukku! sem eins er núna fyrir hugskots sjónum mjer, eins og það hefði skeð í gær, og eru þó mörg ár síðan! Rjett í því jeg kom við bitann, fjell hurðin fyrir dyrnar á þessum bölfaða stokki, og lokaði mig inni, en hræðilegur smellur varð, og þá varð jeg vonlaus um að komast nokkurn tíma lífs þaðan. Þá margbölfaði jeg græðginni úr mjer, þá lofaði jeg af hjarta bót og betrun, ef jeg kæmist úr þeim nauðum, en jeg hafði ekki lángan tíma að hugsa um mína hagi. Smellurinn, sem varð af því, að músafellan datt, kallaði á hússmóðurina, jeg heyrði þann skelfilega dóm af hennar munni, að jeg skyldi drekkjast, og einni þjónustu-stúlkunni var skipað, að fullkomna á mjer dauðadóminn. Jeg sje, að hárin standa á höfðinu á ykkur, börnin mín! hjer sýndist eins og einginn hlutur gæti frelsað mig! samt slapp jeg af amböguhætti og handaskolum þeirrar, sem átti að stytta lífdaga mína. Þá varð jeg hyggin af reynslunni, og bar mig af öllum kröptum að sporna við þeim glæp, sem nærri var búinn að olla dauða mínum. Jeg fór eptir það aldrei út úr minni holu, nema með mestu varkárni, og fór aldrei leingra en í eldhúsið. Ekki get jeg neitað því, að þetta bindindi, sem jeg nú varð að leggja á mig sýndist mjer í fyrstu verra en dauðinn, hvern jeg hafði haft fyrir augunum, en vaninn gjörði það allt sætt, og jafnvel fann jeg það síðar á mjer, að jeg varð heilsubetri af sparneytninni, svo jeg þakkaði lukkunni, sem hafði neyðt mig til að hafa mína matarlyst og sælgæti í hófi. Jeg hef sjeð barna-barna börn mín og jafnaldra minna, en fáar mýs hafa náð þeim aldri, sem náttúran hafði þeim ætlað. Sjúkdómar hafa hróflað þeim burt, sem sloppið hafa frá klóm kattarins og veiðibrellum mannanna. En jeg

finn að farið er að draga af mjer! lifið þið vel, mín kæru börn! forðizt þið eins og heitan eldinn ólukku herbergið, hvar dauðinn er falinn undir hverjum sælgætisbita. Jeg dey glöð og ánægð, ef þið hlýðið mínum fortölum!

Naumast var þessi hyggindafulla mús búin að gefa upp andann, fyr en úngfólkinu þótti vænt um, að nú væri það frí frá nöldri kerlíngarinnar, sem sífeldlega hafði verið að aptra þeim. Það spottaði hennar ráð, og kallaði hennar sparneytni nápínuskap, en hennar varúð dáðleysi. Það fann veginn til herbergisins, og múrveggurinn af þreföldum pappír, sem bundinn var til varnar ofan yfir krukkurnar, varð gegnum nagaður, hver mús óskaði þá annari til lukku, og hjeldu sjer beztu veizlu með mikilli kæti, segjandi: að ekki væri svo mikið að óttast, sem kerlíngin hafði rausað. En gleðin varð stutt. Einn köttur og tveir fjalakettir voru látnir í herbergið, svo að, áður en vikan var til enda, var ekki eptir ein mús af öllum þeim, sem höfðu forsómað ráð og reynslu lángömmu sinnar.

Þessi dæmisaga má endast með því, að foreldranna yfirsjónir verða börnunum sjaldan til varúðar.

## XV. DÆMISÖGUR.

### 26). *Sjer grefur gröf þó grafi.*

Tóa kom til asnans, þar sem hann var að bíta þistla í haganum, ávarpaði hann kunnuglega, og sagði: heill og sæll, vinur minn! ekki sjer annað á þjer, en þú sjert enn þá úngur, þó grái kjóllinn þinn sje farinn að eldast, og sjá vil jeg þann úngan asna, sem hafi svo tígugleg eyru eins og þú, eða reisi þau líflegar. Alltjend ertu sí-lystugur! líttu upp! þetta er mikið fagurt morgun veður! hvað

eigum við nú að hafa okkur til skemtunar? hvað sýnist þjer um það, að við förum bæði að sjá okkur um hjerna í skóginum? Hvað er þar að sjá, svaraði vinurinn? Þá allra fallegustu ösnu, sagði skolli, margur hestur hefur hvíað að henni, sem hún hefur ekki viljað líta til, en þjer tekur hún strax. Mikið fagurt rennur sólin upp í heiði núna, sagði tóa, hjelt áfram með asnanum, og ljet dæluna gánga, eins og falsvina háttur er. Í því mættu þau dýra konúnginum sjálfum, ljóninu, sem var húngrað og ólmt af bræði. Asninn missti allan dug og mál, titraði, ætlaði að hlaupa, en datt um sjálfan sig; honum var það ekki heldur láandi, því ljónið var óttalegt. Tóa ljet ekkert á sjer festa, en sagði: sæl er jeg þess, herra! að jeg fann yður svo fljótt, því jeg var nú á ferðinni til yðar, að færa yðar hátign í morgunskatt þann bezta asna, sem er til, skoðið þjer hóldahnyðjuna þarna! Ljónið snuggaði við, og sagði: jeg ætla að hafa hann í miðdagsverð, en þú sjálf skalt verða morgunskatturinn minn; og í því reif það tóu í sundur.

Svikarann hata allir, en flestir nýta sjer svikin.

### 27). *Aldrei er gott of launað, nema illt komi á móti.*

Svala nokkur sá, að hæna hafði tekið höggormsegg til að liggja á. Æ! vesælíngur, sagði svalan, börnin, sem þú ert að klekja út, munu innan þriggja daga verða þinn bani. Hænan trúði ei þessari viðvörun en reyndi seinna með sínum og sinna skaða, að hún var allt of sönn.

### 28). *Flestir kjósa firðar líf.*

Fátækur maður nokkur fjörgamall, heilsulaus og aumur, varð að lifa á því, að safna saman kvistum í skóginum, og selja. Einu sinni, þegar hann fór

heim til kofa síns, þreyttur og stynjandi, datt hann undir bagganum, og fór þá að hugsa um sitt vesældar ástand, volandi og biðjandi dauðann að frelsa sig frá þessari stóru, óbærilegu og sífeldu mæðu. Dauðinn kom, og spurði hvað þessi maður vildi sjer? Ekki annað, svaraði hinn gamli, og iðraðist þá óskar sinnar, ekki annað, en jeg vildi biðja yður að lypta bagganum upp á bakið á mjer.

### *29). Hússbóndans auga sjer bezt.*

Hjörtur nokkur komst á hlaupum undan veiðimanna hundum inn í fjós, og beiddi kýrnar að lofa sjer að felast þar, en hjet þeim aptur á mót að vísa þeim á beztu grasbeit, þegar þær kæmu til hans. Þær sögðu honum strax, að bezt væri, að hann feingi sjer annað óhultara fylsni, samt lofuðu þær að leggja ekki til, þó hann væri þar. Hann leitaði sjer síðan að hentugasta stað til að fela sig í, og þóttist nú vera búinn að koma sjer vel fyrir. Um kvöldið var að vanda gefið á alla bása; heimilisfólkið gekk til og frá um fjósið, og sinna erinda upp í suma básana; fjósamaðurinn gegndi öllum siðvanalegum athöfnum, og sópaði upp fyrir hverri kú; ráðsmaðurinn sjálfur kom til að líta yfir, hvernig framfæri; mjaltirnar og eptirgjöfin liðu líka, svo ekkert bar á hirtinum, þóttist hann því úr öllum háska sloppinn, og fór að þakka kúnum, hversu vel þær höfðu leynt honum. Þá svaraði ein þeirra hálfjórtrandi: enn þá fer vel! en þegar maðurinn með hundrað augun kemur, þá er jeg hrædd um þig, og fyr skaltú ekki hrósa happi þínu, en hann er burt aptur. Í því sama kom hússbóndinn, og fór að skoða umgánginn í fjósinu, Þarna er, sagði hann við fjósamanninn, illa sópað upp; þarna hefur þú ekki skarað skarninu fram úr básnum; taktú þarna frá henni Reyður

og gefðu henni Hyrnu; hef jeg ekki einatt sagt þjer að láta ekki rekuna standa þarna? hún Húfa hefur flækt sig í niðurbandinu; passar þú ekki betur upp á en svona? Í því hann þannig var að líta eptir öllu, varð honum litið á horn í einum básnum, þreifaði fyrir sjer, fann hver gestur var kominn, og ljet strax kalla á fólkið, sem banaði hirtinum, af hverjum hússbóndinn fjekk marga góða máltíð.

*30). Fátt er svo gott, að ekki megi neitt aðfinna.*

Því meira, sem jeg gæti að því, því heldur rekur mig í ramma stans, að maðurinn skuli vera svo ósannsýnn að fyrirlíta mig, sagði asninn. Jeg gjöri honum mikið gagn, er vinnusamur, fæ aldrei hvíld, og ber sífeldlega bagga mína; að geðslagi til er jeg þolinnmóður og gæfur, svo, hvað sem útrjettast á, og til allra aðdrátta er strax farið að leggja á asna. Viðurværi mitt kostar ekki mikið, því þegar jeg kem úr ferðinni, er jeg ánægður með þistilblað, og skil jeg ekki, hvaðan mennirnir taka það, að virða mig svo lítils. Þó ekki sje jeg bráðskarpur, þá fer sumum hverjum mönnunum ílla að kasta á mig þúngum steini fyrir það, og allt eins þó náttúran hafi ekki gefið mjer það fallegasta vaxtarlag, ellegar þó einhver sumarfuglinn sýngi betur en jeg. Æ! talaðu ekki um að tarna, lagsmaður! svaraði svín, sem þar var nálægt: maðurinn er hræðilega ósanngjarn við okkur! af því hann hefur einhvern tíma sjeð, að jeg velti mjer í for, þá hefur hann brúkað nafnið mitt, til að bríxla með um þann brest, sem þú veizt sjálfur, og samt etur hann mig á eptir, óþakklætis kindin sú arna. En svona má lýsa vondskunni: hún gætir að fólki alltíð á þá hliðina, hvar einhver ávirðíngin finnst.

### 31). *Betra er sjálfur að hafa, en barn sitt eða bróður að biðja.*

Faðir nokkur, sem var góðsamari, en hann var forsjáll til, skipti öllum sínum eignum milli barna sinna, því hann hugsaði, að þau mundu verða þess þakklátari, þar bæði væri það náttúrleg skylda þeirra, og líka ætti hann það skylið fyrir svo stóra velgjörð. En honum varð að öðru! því þegar börnin áttu einkis meira von hjá föðurnum, skiptu þau sjer ekkert af honum, svo hann komst í neyð og vesæld. Í þessari armæðu fann hann upp á ráð, sem dugði: hann kallaði til sín öll sín börn, sýndi þeim kistil, sem var vandlega innsiglaður, og sagði við þau: hjer á jeg í þá dýrmætustu gimsteina og gripi, sem jeg vil að ætíð sjeu í ættinni, og sem jeg ekki skipti á milli ykkar um árið, því jeg vissi ekki, hvernig þið munduð með þá fara, en jeg ætla að ánafna þá því af börnum mínum, sem gjörir mjer mest gott. Börnin bættu vel ráð sitt, og gjörðu honum allt það gott, sem þau gátu, allt til dauðans, þareð þau hugsuðu sjer ábatavon í því. Eptir að búið var að jarðsetja föðurinn, var kistillinn með mikilli eptirlaungun opnaður, en í honum fannst ekki nema hamar og stór nagli, þar hjá var seðill með þessum orðum: „það er minn vilji, og jeg skipa, að hjer eptir „sje þessi nagli rekinn ígegnum höfuðið á þeim, sem „er svo vitlaus að láta burt eignir sínar í lifanda „lífi til hvers helzt, sem vera kynni.“

### 32). *Fátt er of vandlega hugað.*

Skytta nokkur sá tóu á hlaupum, og gat komizt eptir hvar grenið hennar var, gróf tálgröf skamt þar frá, þakti hana vel með smákvistum og laufum, lagði þar agn, faldi sig síðan skamt burtu, og beið, þar til tóa tæki það. Skömmu þar eptir kom tóa

úr greni sínu, fann þefinn af agninu, og hljóp að skoða það, fór samt ekki leingra en að gröfinni, því hún hugsaði þar mundi svik búa undir, og gekk burt. Strax eptir kom húngraður ljónpardus þángað, rann á lyktina, og datt í gryfjuna, í því hann ætlaði að gleipa agnið. Þegar skyttan heyrði skruðnínginn af þessu falli, hljóp hann ofan í gröfina án þess að athuga, hvað í henni var, því hann þóttist viss um, að það væri tóa, en ljónpardusinn reif hann í hel, strax sem hann kom ofan í gryfjuna.

### 33). *Ekki tjáir að deila við dómarann.*

Ærin bar einu sinni app kveinstafi sína við smalamanninn, að hann færi ílla með hana, ljeti mjólka hana kvöld og morgna, rúði af henni ullina, og ofan á það slátraði lömbum hennar. Smalamaðurinn svaraði: það stendur ekki einasta í mínu valdi að gjöra allt þetta, sem þú nú taldir upp, heldur skal jeg þar að auk drepa þig sjálfa, ef þú vogar að tala nokkurt orð. Þegar ærin heyrði það, þagnaði hún, og hætti að kvarta yfir sínum kjörum.

### 34). *Þrá er þussa einkunn.*

Um nóttina var náttuglan að virða fyrir sjer túnglið og sagði: „undarlegt er, að nokkur geti ver- „ið svo heimskur að segja, sólin sje bjartari. „Ertu „blind?“ sagði haninn, „gættu betur að!“ en, hvað sem haninn sagði, stóð náttuglan fast á sama eins og sá þrákjálki, sem einu sinni hefur mistalað sig, en er svo stoltur og heimskur, að hann vill ekki lagfæra það aptur. Meðan haninn og náttuglan voru að kýtast um þetta, kom morgunroðinn, sem gjörði túnglið nábleikt, uglan ljet ekki undan að heldur. Sólin kom upp, þá sást túnglið ei leingur fyrir hennar birtu: nú skyldu allir hafa hugsað, að náttuglan

mundi sleppa sínu þrái. Nei! lángt frá! hún flúði í holu sína, og þángað til hún lagði saman augun, skrækti hún allt af að túnglið væri bjartara.

### *35). Leingi má ljúfur syndga.*

Maður nokkur átti tvo ketti, hvítan og svartan. Hússbóndinn hjelt mikið uppá þann hvíta, er hjet Mjaldur, hann stal öllu steini ljettara, og fór aldrei frá öskustónni, eða úr rúminu, nema þegar hann var í búrinu að veiða ofan af trogunum, og krytja sjer eitthvað. Hinn svarti þorði aldrei að láta sjá sig, því hann var rekinn burt með hríslu, og stundum lurk. Vesælíngs Kolur, (því það var nafn hans) kvaldist af að sjá, hvað hann var apturundan, og hugsaði með sjer: „ekki skil jeg, hvað hann Mjald-„ur hefur fram yfir mig, nema ef það er liturinn? og „er þá einatt flagð undir fögru skinni. Alltjend er „verið að strjúka hann, og hússbóndinn líður honum „allt, en jeg fæ ekki að koma inn yfir þveran þrep-„skjöld, þó hefur hann Mjaldur aldrei veidt mús, „því síður völsku, því hann er mesti ónytjúngur; „jeg tek þær, en honum er hrósað fyrir það; aptur „á mót þegar hann stelur góðum bita, þá er mjer „alltjafnt kent um. Jeg skal svo sannarlega, sem „jeg heiti Kolur, hefna mín, jeg veit líka, hvernig „jeg skal fara að því. Jeg skal ekki gjöra neitt, en „láta mýs og völskur fjölga svo sem þær vilja, þá „verður hússbóndinn reiður, og ber okkur báða. Öllu-„vel! jeg er ánægður með það, að hann Mjaldur fái „helmínginn af höggunum!“ Kolur gjörði eins og hann hafði ásett sjer. Mýs og völskur urðu eins og úi og grúi, rifu og tættu allt saman straffláust. Hússbóndinn varð reiður, eins og Kolur hafði tilætlað. En yfir hvern köttinn kom straffið? einasta yfir hann Kol.

Þetta kennir, að margur grefur öðrum gröf, sem hann dettur í sjálfur, og að vjer eigum ekki að þreytast gott að gjöra.

### 36). *Sínum augum lítur hver á silfrið.*

Tveir fugla-fángarar voru á ferð; sástu, sagði annar, þann fallega fugl, sem sat þarna á húsinu? gættir þú að fiðrinu á honum? svo fallegan lit hef jeg aldrei á æfi minni sjeð, og jeg held víst, það hafi verið fuglakonúngurinn, því auðsjeð var, að hann hafði kórónu á höfðinu. Nei, svaraði hinn, ekki sá jeg hann, en jeg sá einhverskonar valskan hana, sem var mikið önuglega vaxinn. Höfuðið var ofur pervisalegt, og líklegt, að lítið vit hafi í því verið. En hvað raustin var ljót, sem fylti upp loptið með ámátlegum skrækjum, svo mjer er nærri illt í eyrunum eptir enn þá! eða gættir þú að, hvað viðbjóðslegir fæturnir á honum voru?

Það var páfuglinn, hverjum báðir þessir voru að lýsa; annar færði til allt, hvað fallegt var á honum, en hinn öll lýtin. Þannig eru mannanna dómar í veröldinni ýmislegir, þeir líta hver á sína hlið.

Kvöldvökum þessum til prýðis, læt jeg hjer fylgja tvær dæmisögur hins nafnfræga Gellerts, útlagðar af prestinum sjera Jóni Þorlákssyni á Bægisá:

### 37). *Land hinna höltu.*

Lagið er: Hafur þurft' ekki' að hugsa' um meir.

Forðum eitt lítið land til var, lifandi sást ei nokkur þar, óstamað talað orð sem fjekk, og ei halltraði, þegar gekk. Ágæti mat það innlend drótt, aðkomnum sýndist manni ljótt. Hann hugði: hjer mun öldin öll undrast, hvernig jeg spránga völl.

2. Með stýfum fótum storð hann trað, starsýnt varð hverjum manni á það, allir, sem komu auga á rekk, að honum hlóu, nær hann gekk, flissandi stóðu, og ferða-láng fallegri,

sögðu, kennið gáng! ámæli það með öllu vilt af sjer að reka mat hann skylt.

3. Hann kvað: þjer halltrið, en jeg ei, af skyldi lagt það vana grey. Uxu þá sköllin miklu meir, málfæri gests er heyrðu þeir. Hann stamar ei, en stillir tal, að stóru brixli varð það hal, fyrir rjett orð og fótatak forsmán allt landið á hann rak.

---

4. Vaninn gjörir, að vömm er fríð, vjer sem frá barndóms sjáum tíð, verk það forgefins vogað er, vitsmuni þó sá meiri ber, heimsku vorrar oss segi sann. Sjálfir köllum vjer dára þann, einasta fyrir orsök þá, að honum vit er meira hjá.

## *38). Sá guðhræddi hershöfðíngi.*

Lagið er: Á mædda meyjar brún.

1. Hæðandi helga trú
Höfðíngi, trón sem bar,
(Munu' ekki margir nú
Makar hans sitja þar?)
Eitt sinn há-aldraðan,
Unnanda kristnum sið,
Um hana hreystimann
Hraklega ræddi við

2, Háðfullum hætti mjög,
Sem hlær einn stoltur af,
Sá einginn aktar lög,
Utan þau sjálfur gaf.

Hershöfð. Þjer, stillir! sturlið! kvað
Stríðshetjan, mína trú,
Og berið yður að,
Orðinn fjörgamlan nú,

3. Lífshuggun, líkn í deyð
Laungum að svipta mig.
Íllt hvað þess af mjer leið
Yðar tign konúngleg?

Konúngur. Alls ekkert, kóngur kvað,
Kappa þjer berið megn
Og eruð (jeg veit það)
Minn ágætasti þegn,

4. Einföld en ónýt trú
Ef þar er skilin frá.
Legg hana niður nú?
HERSHÖFÐ. „Nei! aldrei læt jeg þá.“
KONÚNGUR. En ef jeg yður það
Alvöru býð af rót?
HERSHÖFÐ. „Ei heldur, kappinn kvað,
„kóngs skyldu slíkt er mót.
5. „Guð drottinn yfir á
„Eignarráð minni sál,
„En öllum foldar frá
„Furstum er dæmt það mál.“
KONÚNGUR. En hvað? ef ættum vjer
Á yðar lífi ráð?
HERSHÖFÐ. Hinn kvað: „þau eigið þjer.
„Því hef jeg traustri dáð.
6. „Margt yðar vegna við
„Vogað, minn herra! slag.
„Og undir óviss grið
„Æru guðs fyrir, í dag.„
KONÚNGUR. Ganti! (kvað gilfi') en ef
Guð sá er einginn til?
En ef jeg yður gef
Um þetta fræðslu skil?
HERSHÖFÐ. 7. „Þá æskti jeg, ekki seinn
„Að fara í skelmirs ham.
„Og sje guð ekki neinn,
„Ei heldur skeytti gram.
„Mörg þúsund mundu þá
„Mjer líkir verða í her.
„Afsprettur arður sá
„Ó Prins! því kennið þjer.“

## XVI. EÐLIS ÞÝNGD MANNS Í VATNI.

Börn mín eru svo vantrúuð orðin um apturgaungur, vofur, forynjur, álög, galdra og hvaða nöfn, sem hindurvitnið hefur uppfundið, að þau spottast að slíku, og í kvöld, þegar jeg kom inn í baðstofuna, heyrði jeg, að hann Magnús litli var að hlæa að þeirri

röksemd, sem í fyrndinni var tíðkuð til að sannfæra með grunaða menn um galdra meðferð, að þeim var kastað í vatn. Ef sá misgrunaði flaut ofan á, var hann kallaður sannur að sök, en ef hann sökk, þá þurfti fleiri og meiri sannfæríngar til að áfella hann. Þetta sagði Magnús minn hefði mikið getað komið upp á klæðasniðið, því sitt sje hvað, ef ber eða snögg-klæddur maður ditti í vatn, ellegar maður í kápu, eða kona í mörgum pilsum, sem vindurinn stendur undir, og fyllir upp; en Lýður litli hjelt að svo framarlega, sem fötin hefðu ei verið sjerlega til þess búin, mundu þau ekki hafa getað haldið uppi í vatninu heilum manns þúnga. Þegar jeg kom þar að, var þetta efni undir mig borið, og jeg beðinn að leggja á úrskurðinn. Jeg var á Magnúsar máli, og færði því til styrkíngar eptirfylgjandi röksemdir:

Þýngd hvers eins hlutar kann með tvennu móti að álítast, bæði í tilliti til stærðarinnar og líka í samjöfnuði við aðra hluti. Hin fyrri slags, er jeg kalla *stærðar þyngd*, kemur af, að því meira, sem er af sama slags hlut, því meiri er þýngdin. Þannig eru átta ríkisdalir þýngri en einn, heill bjálki þýngri en trjespónn, og fjórðúngsfata full með vatn þýngri en merkur ílát af vatni. Aptur á mót er jafn stórt stykki af ýmislegum hlutum misjafnt að þýngslum, og það kalla jeg *eðlis þyngd* (Gravitas specifica), t. a. m. merkur ílát af spesíu-peníngum, eða þó enn heldur af bræddu eða steyptu silfri er þýngra, en jafn-mikið af járni, steinum, moldu, vatni, mjólk, rjóma, smjöri, floti eða æðardún; þannig er jafn stór rýmd af vatni, því nær 20 sinnum ljettara en gull, og þess eðlis þýngri hver einn hlutur er, sem í vatn eða fljótandi lög er látinn, þess minna rúm fyllir hann, og því fljótar sökkur hann til botns; þar að auk missir svoddan hlutur í lögnum af vigt sinni eins

mikið og lögurinn vegur, er frá honum rýmist, t. d. ef steinn er fyrst á vog veginn, síðan látinn í vatn, og þar í aptur veginn, þá er hann svo miklu ljettari í vatninu, sem það vatn vegur, er fyllir jafnstórt rúm og steinninn, eða hver annar hlutur, sem í vatninu sökkur; þó er, eiginlega að tala, steinninn ekki orðinn ljettari í vatninu, heldur lyptir vatnið undir hann, og ber svo mikið af þúnga hans, sem áður er sagt. Af þessari eðlis þýngd fann spekíngurinn Archímedes svikin í gullkórónunni, sem Hjeró konúngur ljet smíða. Konúngurinn hafði feingið smiðnum 36 merkur af gulli, sem smíðast átti úr jafnvægis gullkóróna, hann skilaði henni, svo hún stóð vel vigt sína, en konúngur hafði grun um, að smiðurinn hefði blandað gullið með silfri, beiddi því Archimedes mælíngar spekíng að ransaka það, raska samt ei smíðisgripnum, eða bræða hann upp. Archimedes hugsaði sig vel um þetta nokkra daga; og einu sinni þá hann á meðan fór í kerlaug, tók hann eptir, hvaða hindran vatnið gjörði líkamanum í að sökkva fljótt, og líka hvað mikið úr kerinu rann við það, að líkaminn smásökk í vatnið, var það jafnt því rúmi, er líkami hans uppfyllti, þar af hitti hann á það ráð, að fylla annað minna vatnsker á barma, ljet í það gullkórónuna, rann þá nokkuð vatn út úr keraldinu, sem nærri má geta, það vatn vóg hann á næma vog. Þá spekíngurinn hafði kórónuna uppúr tekið, fyllti hann keraldið enn á barma, ljet síðan niður í það eins mikla þýngd af klára gulli, eins og kórónan hafði vegið, sökk það miklu fljótar til botns, og minna vatn rann út úr ílátinu, hvert vatn Archimedes líka vog nákvæmlega. Seinast fór hann allt eins með jafnvægi kórónunnar af silfri, og þá rann mest af vatninu út úr keraldinu, en silfrið sökk hægast niður, hvar af hann sá, að jafn þúngt stykki af gulli

þarf minna rúm en silfur, og að jafnvægt stykki af silfri er stærra um sig en annað eins þúngt af gulli, það er: að gull er eðlisþýngra en silfur; hann sá líka, að gullið var silfurblandað í kórónunni, og smiðurinn hafði undir sig dregið 24 merkur af gullinu, en svikið hitt með silfri. Allteins má reyna eðlisþýngd járns móti tólg eða trje eða hverju sem er, með að smíða eða skera jafnstórt stykki af hverju, og vega, ellegar láta jafnvægi af báðum í vatn, og skoða, hver munur er á rúmi því, sem hvorttveggja þarf. Þegar tveimur fljótandi hlutum er helt saman, og annar flýtur ofan á, en hinn er á botni, þá kemur það af ýmislegri eðlisþýngd þeirra, eins og rjómi sezt ofan á mjólkurtrog, eða flot verður ofan á soði, líka þegar járni og trje er kastað ofan í vatn, þá sjest þeirra hluta eðlisþýngd af því, að járnið, sem sökkur, er þýngst, vatnið er þar næst, en trjeð ljettast, þar eð það flýtur ofan á vatninu. Sje trje og járn fest saman, þá vill járnið í vatninu til botns, en trjeð fljóta; sje þá meiri partur járns, dregur það trjeð til botns með sjer, en sje minna af járninu, þá flýtur trjeð upp með það, eins og við sjáum á brodd-staf með járnhólk á, að broddurinn og hólkurinn vilja til botns, en stafurinn upp, svo eins er og þeir haldist á um, hver sterkari sje. Hjer af sjest, að gjöra má járnflösku, sem flýtur; því jeg hef áður sagt ykkur, hvað miklu eðlis-ljettara loptið sje en vatn, þegar nú flöskurúmið er stærra en þess vatns, sem er að þýngd eins og flaskan með loptinu í, þá flýtur hún, og hvorttveggja til samans járn og lopt í henni verða eðlisljettara en vatnið. Þegar við heimfærum allt þetta upp á manninn, sem kastað er í vatn, þá sjest, að hvað miklu leiti getur verið náttúrlegt, að manns líkami fljóti eða sökkvi í vatni. Hann er af ýmsu efni samsettur, sem sumt er eðlis-

þýngra, sumt eðlisljettara en vatnið. Beinin, sinar og kjöt er þýngra, en fita, mergur og lopt ljettara en vatn, svo að magrir menn og skepnur sökkva meir í vatn, en feitar; því er það ekki einúngis af kraptaleysi, að mögrum gripum er hætt á sundi á vordag, heldur sökkva þeir eðlislega meir en hinir feitu; sjest þaraf líka orsökin, hverrar vegna svín synda dýra bezt. Hjer að auk hafa lærðir menn ritað, að þeir menn, sem hafi sina eður svo kallaða hysteriska sjúkdóma, sökkvi eigi í vatni, hvað Pliníusi náttúruspekíngi ei hefur verið ókunnugt (Hist. nat. 7, 2). Þar af er þá auðsjeð, að sá maður kynni til vera, sem hefði svo mikið af ljetta efninu, að hann gæti ei í vatni sokkið, og að misjafnt sje, hvað einn maður er í vatni ljettari eða þýngri, en annar jafnstór, og loksins er mögulegt að blanda vatn með þeim hlutum, að maður geti ei í því sokkið.

Fætur, læri, handleggir og höfuð á manninum, það er: allir útlimir, eru minnst holir, beinamestir og þess vegna eðlis-þýngstir, sem sökkva í vatni; búkurinn aptur á mót er holari, sem inniheldur mikið af lopti (einkum í lúngunum) og fitu, sem er eðlis-ljettari en vatn, þó er í búknum hryggurinn eðlis-þýngstur, vegna mikilla beina og sina í honum. Þaraf kemur 1). Sá sem veður í vatni, vill til botns sökkva, meðan einasta fætur og læri hans eru niðri í vatninu. 2). Þegar vatnið er komið nærri upp undir höndur, þá er á nokkuð feitum mönnum neðri partur líkamans orðinn svo eðlis-ljettari, að hann heldur sjer upp í vatni, eða því nær, það er: að maðurinn vill fljóta uppi, og þess vegna verða þeir, sem djúpt ætla að vaða í laxveiðum eða yfir um vatnsfall, að bera þúngt, eða láta eitthvað í vasa sína. 3). Þá menn fljóta uppi, vill bakið, svo sem eðlisþýngra, vita niður í vatnið, en búkurinn upp. 4).

En þá þeir fljóta uppi, og þeim kastar á bakið, þá bætast axla- og höfuð-þýngslin við, svo líkaminn, sem að neðanverðu allur upp yfir handkrika var eðlisljettari en vatnið og flaut ofan á, verður þar við eðlis-þýngri, og maðurinn sökkur í því. 5). Þó verður ei mikill mismunur á eðlisþýngd mannsins í vatni og sjálfs vatnsins, einkum sjóvatns; lærðir menn segja, það sje á almennilegum manni átta eður tíu marka, en í sjó ekki meir en tveggja eða hálfrar annarar merkur munur að þýngd, svo ef maðurinn hafi það að halda sjer við eða fljóta á í sjó, sem uppi haldi vel svo tveggja marka þýngd, þá sökkvi hann ekki. 6). Hjer af sjest líka, að maðurinn trauðlega sökkur, meðan hann heldur niðri í sjer andanum, hann þarf ei í sjó nema meðalstaf til að fljóta á, sje hann fastur framan undir brjóstinu, undir hökunni, eða, sem bezt er, í munninum; og því eru svo mörg dæmi, að skipsbrots-menn hafa komizt af á árar-stubba. Jafnvel sjá menn opt, að kallmenn í þurrum kápum, og kvennfólk, þegar vindur kemur undir föt þeirra, flýtur ofan á vatni, þar til fötin fara að verða gagndrepa; og svo lítill verður mismunur á eðlis-þýngd mannsins og sjóarvatns, að þeim, sem þar í sökkva, skýtur strax upp aptur, þegar þeir í fallinu koma við botninn. Þeir, sem ekki kunna að synda, og vilja fara yfir um vatnsfall, eru hræddir um að verða skipreika, eða eru á slæmum bát, þurfa ei annað en festa í hið mesta átta uppblásnar nautsblöðrur á sig, en á sjó miklu færri, og festa þær jafnmargar á hvora hlið undir handkrikana eða hökuna, því þá getur sá maður ekki sokkið. 7). Jeg sagði áðan, að sá hlutur, sem þyrfti meira rúm, en annar jafnþúngur, væri eðlis-ljettari; því eru feitir menn eðlis-ljettari en magrir, og með fram kemur þar af, að þúngaðar konur fljóta í

vatni, sem þeim hefur á stundum orðið að fjöri, þegar allir aðrir hafa af skipreika drukknað. Og loksins 8). sjest hjer af, hvað hvikul röksemd sú var, sem fornöldin brúkaði til að sannfæra með galdramenn; hafi þeir verið í hnipri, haldið niðri í sjer andanum, eður svolgrað í sig lopt af hræðslu, líkt því er vjer köllum að súpa hveljur, fötin verið laus að þeim, svo nokkur vindur hafi undir þeim verið, undirstraumur geingið í vatninu, eða þeir hafi með handleggjum og höndum dálítið tilhjálpað að sökkva ei strax, þá gat slíkur maður litla stund verið án þess að sökkva, og þó ekki farið með meiri galdur, en hún litla Kristrún þarna. Jeg vil nú ei tala um, hafi manninum verið kastað á skátil, svo lítið fall hafi orðið á líkamanum, viðlíka og þegar þið pilltarnir leikið ykkur með að kasta hellublaði á vatn, sem heitir að flytja kerlíngar. Þannig er ekkert upp á þessa galdra sannfæríngu að byggja, og undarlegt mætti þykja, að fyrir hjer um 10 eða 12 árum voru tveir menn brendir fyrir galdra meðferð í Pólínalandi, upp á hverja ekkert varð vitnað eða sannað, nema þeir sukku ekki, þegar þeim var á vatn kastað; og þó eru enn eptir tvö tilfelli, sem að sönnu eru möguleg, en sem jeg ekki gjöri ráð fyrir, að í galdra reynslunni hafi átt heima, sem er, að annaðhvort hafi maðurinn ei getað í vatni sokkið, eða vatnið hafi svo verið, að allir menn hafi orðið í því að fljóta.

Upp á hvorttveggja þetta skal jeg segja ykkur dæmi í annað sinn.

## XVI. GÁTUR.

51). Blygðunar-roðmi. 52). Jörðin snjólögð. 53). Hamar. 54). Skip. 55). Reykur.

56). Jeg þarf lítið að eta, er smávaxin og óstyrk; þó ofsækir maðurinn mig með eitri, járni og

fángelsi, og heldur ofstopaskepnur til að myrða mig, er þó kostar lángt um meira að fæða, en mig.

57). Þú hefur aldrei heyrt mig nje sjeð; þó varð og er úr mjer heimurinn, og allt hvað þú í honum sjer.

58). Höfuðið á mjer er uppmjótt, en fóturinn breiður. Þegar jeg hef við, brúka jeg bláan klæðnað. Jeg vex af strái, en hef hvorki hold nje bein, er ekki málmur, ekki dýr, ekki leir, ekki steinn eða trje. Látir þú mig of nærri vatni, þá hverf jeg, svo þú sjer ekki, hvað af mjer verður.

59). Þó jeg sje sífeldlega sólginn í blóð, þá ríður þó einkis líf á því; en hversu lítið blóð sem jeg tek, er mjer aldrei fyrirgefið, heldur er útgjört um líf mitt, ef jeg ekki get frelsað mig með að taka undir mig stökk.

60). Áður var jeg gras, nú er jeg dupt. Jeg hvílist í gulli, silfri, horni, pappír, trje, eptir hvers eins vilja og efnum. Sumir geta ekki við mjer litið, en aðrir geta ekki án mín verið.

## XVII. EIGI EM JEG ELÍAS. Jóh. 1, 21.

Þegar jeg í kvöld var að spyrja börn mín úr prjedikuninni, og leggja niður fyrir þeim, hvað skýra, sköruglega og undir eins auðmjúka játníngu Jón skírari hefði gjört fyrir þeim, er til hans voru sendir frá æðsta ráðinu í Jerusalem, þókti Lýði litla, að ansvar hans til Gyðínganna upp á spurnínguna: ertu Elías? væri nokkuð svo ískyggilegt, vegna þeirra mörgu ritníngargreina, sem jafna Elíasi og Jóni skírara saman. Þar af spannst eptirfylgjandi samtal.

Lýður. Hvernig á þá að skiljast, það sem sjálfur Jesús sagði, Matth. 11, 14. „Ef þjer viljið

„það meðtaka, þá er Jón skírari sá Elías, er koma „skal?“

Prestur. Það má svo útleggjast: „trúið þið „mjer til þess, að Jón skírari er sá Elías, sem von „er á að koma muni.“

Lýður. Þá sýnist mjer, faðir minn góður! að Jesús segi fortakslaust það satt að vera, sem Jóhannes neitaði.

Prestur. Opt getur það skeð, Lýður minn! að sama meina báðir, þó mikið beri milli orða þeirra, og svo var hjer ástadt. Jesús vissi, að guð hafði lofað sá maður skyldi koma, sem, eins og gamli spámaðurinn Elías, ætti að prjedika sanna guðs dýrkun, og það loforð ætti að endast, áður en Messías eða Kristur fullkomnaði sitt embætti; hann fræddi þá Gyðíngana og undir eins huggaði, með áður tjeðum orðum, og eins líka sína lærisveina nokkuð seinna, Matth. 17, 10-13, að ekki þyrftu þeir annars Elías að vænta, en þess, sem kominn væri, og sá væri einginn annar en Jón skírari. Þessi aptur á mót talaði rjett, þegar hann neitaði, að hann Elías væri, það er sá sami Elías, sem í fyrndinni hafði lifað, því sú var meiníng Fariseanna, en þá er hverri einni spurníngu rjett svarað, þegar enn ansandi brúkar orðin í sömu merkíngu, sem hinn, er spurði.

Lýður. Hvað gátu þá Gyðíngar haft fyrir sjer til að vænta, að Elías hinn sami, sem burt var numinn, skyldi aptur koma?

Prestur. Malakías spámaður hafði í guðs orða stað sagt: „jeg mun senda til yðar Elías spá „mann, áður en sá mikli og hræðilegi dagur drott- „ins kemur,“ Mal. 4, 5. (3, 23). Gyðíngum var tamt að hánga í bókstafnum, þeir voru svo nærsýnir í útleggíngum sínum, að þó tilgángur þess, sem talaði

eða skrifaði, væri af atvikum og ástandi tilheyrendanna augljós, sleptu þeir samt opt meiníngunni, en diktuðu eitthvað inn í, til að geta haldið fyrstu og eiginlegri merkíngu hvers orðs, heldur en að víkja frá bókstafnum. Eins fóru þeir með þessa ritníngargrein. Þau orð, sem næst koma eptir, gátu sýnt þeim, að guð ætlaði að senda þeim spámann, sem, eins og Elías hafði gjört, skyldi leiða Gyðíngana aptur til hinna gömlu sönnu trúarbragða, en í staðinn fyrir að skilja fyrirheitið svo, diktuðu þeir, að Elías enn gamli mundi skömmu fyrir Krists fæðíngu koma aptur af himni ofan á jörðina í sama stað, hvar hann forðum var uppnuminn, og ætti þá í sinni síðari tilkomu að smyrja Krist og vígja til embættisins. Þessu trúðu þeir, eins og það hefði í Biflíunni staðið, og í þeirri trú styrktust þeir enn meir af því, að í hinni algeingu grísku útleggíngu, sem kallast gjörð vera af 70 túlkum, er viðbætt orð hinn Þesbiski, sem ekki finnst í frumtextanum. Það sat jafnvel leingi fram eptir öldunum svo ríkt í kristnum mönnum, að Elías ætti að koma aptur undir dóma-dag, að einn hinn lærðasti og skynsamasti meðal lærifeðranna, Þeóphýlaktus, hefur skrifað: „nokkrir „segja að Jón guðspjallamaður sje enn á lífi, en „eigi að verða líflátinn af Antikristi, þegar hann „ásamt með Elíasi fer að prjedika um Krist.“ o. s. fr.

Lýður. Stendur þá í hebresku Biflíunni, að þessi spámaður skyldi vera eins og Elías?

Prestur. Nei, en orðin *eins og* undirskiljast stundum í ritníngunni, og á þá að bæta þeim inn í, í útleggíngunni, þar sem atvik og ræðuefnið útheimtir það. Jeg vil af mörgum dæmum upp á það segja þjer þessi fáu. Í 1. Mós. b. 16, 12. heitir það um Ísmael: „hann mun verða ólmi asninn maður,“ það er: hann mun ólmur maður verða, eins og ó-

taminn asni eður villudýr. 2. Mós. b. 19, 4. „jeg hef „borið yður á arnarvængjum,“ það er: jeg hef borið yður, eins og verið hefði á arnarvængjum. Opinb. b. 4, 6. „fyrir stólnum var glersjór,“ það er: fyrir framan hásætið var eins og glersjór. Jerem. 26, 18. „Síon skal plægjast akur;“ það er: Síons fjall mun plægt verða, eins og það væri akur. 1. Pjet. 2, 4. „til lifanda steins,“ það er: þess, sem er eins og væri hann lifandi steinn; hefur líka vor Biflíu útleggíng í báðum þessum seinast nefndu ritníngar-greinum með rjettu bætt inn í orðum: *svo sem.* Þessi dæmi eru þá nóg til að sanna sögu mína, þó vil jeg bæta einu við, sem er um þenna sama Elías og Jón skírara, Lúk. 1, 17. þá eingillinn sagði við Sakarías, að Jóhannes mundi koma á undan drottni guði sínum (eður Messia) með eins kröptugri anda-gipt, eins og Elías.

Magnús. Þýðir þá að framgánga í anda og krapti, sama og að hafa mikla anda-gipt?

Prestur. Orðið *framgánga,* sem hjer brúkast, þýðir ýmist að koma á undan, þjena undir einhvern, vera honum til vika, eða og að framkvæma sitt embætti; eiga allar þær merkíngar vel við efnið og Jóhannis ásigkomulag. En orðin *andi* og *kraptur* eru vandskyldari vegna þeirra yfirið mörgu merkínga, í hverjum orðið *andi* tekst í ritníngunni. Hjer sýnist mjer sú þýðíng eiga heima, hvar *andi* þýðir *sálargáfur,* skilníng, helzt þó að því leyti, sem til embættis-starfa þarf, og vjer alment köllum *andagipt,* hverjar gáfur ritníngin allvíða tileinkar heilags anda verkunum. Um sjálfan Jón skírara heitir það í Lúk. 1, 80.: „hann styrktist í anda,“ það er: honum fór fram í námi og skilníngi. 2. Mós. b. 35, 31. Matth. 12, 18. Jóh. 3, 34. Post. g. b. 6, 3. 5. 11, 24. og allteins skil jeg orðið *h. anda,* fyrir *andagipt,*

skömmu áður, Lúk. 1, 15. „þegar í frá móður-kviði „mun hann uppfyltur verða af h. anda;“ það er: strax frá barnæsku mun heilagur andi gefa honum yfirgnæfanlegar sálar-gáfur.

Magnús. En hvað skilst þá undir orðinu *kraptur*, og hvers vegna á í þessum stað að taka orðið *andi* heldur fyrir *andagipt* en aðrar merkíngar, sem sama orð *andi* hefur í ritníngunni, einkum *hugarfar* eður *hjartaþel*, eins og þjer áður hafið sagt okkur, að orðið *andi* stundum merki?

Prestur. Satt er það, að orðið andi á stundum þýðir *hugarfar*, svo sem t. a. m. Róm. 8, 15. 1. Korint. 4, 21. Esek. 11, 19. og optar, en hjer vel jeg heldur hina meiníngana vegna orðanna, sem strax á eptir fylgja, Lúk. 1, 17, og tekin eru úr Malakías spádómsbók, á sama stað sem fyr greinir. Þessi *andi* eður *andagipt* átti nefnilega að brúkast til að láta únga og gamla verða samhuga í að fallast á sannan lærdóm, og þar með undirbúa lýðinn til að verða að upplýstum mönnum. Þessi *andagipt*, eður mikla *andríki* er það að auki það, sem ritníngin einkum og sjerlega, og það því nær með sama orðatiltæki, hrósar báðum þessum drottinsmönnum fyrir, því um Elías segir Sírak 48, 1. „Elías spámaður birtist eins og eldur, og hans orð „voru brennandi svo sem blys.“ Og viðlíkt vitni bar sjálfur Jesús Jóni skírara Jóh. 3, 45. segjandi: „Jóhannes var bæði skínandi og brennandi ljós.“ Orðin, *anda* og *krapti*, útlegg jeg aptur, eins og sje þar Hendíadýs, er jeg áður hef við ykkur nefnt, og meina jeg þau þýði öfluga andagipt. Dæmi upp á slíka útleggíngu má finna 1. Mós. b. 4, 4. 19, 24. „Guð ljet rigna eldi og brennisteini,“ það er: logandi brennisteini. Jer. 29, 11. „til að gefa yður endíngu og eptirvæntan,“ það er: eins og rjett finnst í

okkar Biflíu útlagt, „endíng (eða þó enn betur, þau „endalok), sem þjer væntið eptir.“ Post. g. b. 14, 13; 2. Pjet. 1, 3. „dýrð og dygð,“ það er: vegsamlegt veldi, og miklu fleiri.

Lýður. En voru þá ei þessir spámenn einnig líkir í hugarfari, því sem báðir máttu þola, og embættisstarfa aðferð?

Prestur. Að nokkru leyti, en ei öllu; báðir dvöldu mest á eyðimörkum, eða strjálbygðum stöðum; báðir höfðu þann óvandaðasta klæðnað og aðbúnað, sem naumast nægði til lífsins viðurværis; báðir urðu íllt að líða af vondum konum og konúngum; því Elías átti málstað við íllmennið Akab konúng, hver samt ekki aldeilis slepti allri blygðun, fyr en kvennskassið Jessabel var búin að stappa í hann stálinu, og mana hann til verstu klækja; Jóhannes lifði undir ríkisstjórnun Heródis konúngs, hverjum að manndygðunum til ekki fór að lá Akab, en sem samt var nógu lymskur til að dylja hjartaþel sitt, þángað til önnur Jessabel, eða sú þaðan af verri, hóran Heródías, var búin að siga honum svo leingi upp, að hann seldi höfuð og líf heilags manns, fyrir að horfa um part úr matmáls-tíma á nettan fótaburð únglings stelpu; báðir voru í kenníngum sínum bersöglir, og hvor fyrir sig lifði á svo gagnspiltri öld, að Elías meinti, að sjálfur hann einn væri í heila landinu, sem ei væri brugðinn við afguðadýrkun, og guðspjallasögurnar lýsa svo berlega hugarþeli bæði höfðíngjanna og alþýðunnar á skírarans tíð, að færstar aldir munu verri, en sú í þær mundir var. Ódygðirnar, sem í beggja tíð geingu fjöllunum hærra, útheimtu þess vegna þau frekyrði, sem annars væru á hverjum einum kennanda og á öðrum tíðum lastverð. En þá var vont háttalag svo algeingt, að ekki hefði neitt áorkazt, ef þeir hefðu ei verið svo skor-

inorðir. Þegar flestir eru opinberlega vondir, og allir í heilu landi, nema einn einasti maður, þegja, þá tjáir ekki að tala einasta utan að því, að betur mætti tilgánga; þá eru nettyrði og hæverska of veik, þegar hvert íllmennið er orðið öðru samdauna, og stælir hvert annað upp, þá klökkna skálkarnir ekki mikið, eða komast við af Natans dæmisögu, sem nóg var til að vekja upp Davíðs viðkvæmu samvizku; þá verður lítill árángur af, að segja þeim með Páli postula: „þjer eruð mín vegsemd, kóróna „og fögnuður" 1 Þess. 2, 20, Filipp. 4, 1. eða með Jóhanni postula að tiltala þeim eins og blíðum barnakindum; heldur verður sá, sem á slíkan málstað, að hegða sjer eptir sinni tíð, og brúka þau meðöl, sem bezt eiga við hans tilheyrenda kránkdæmi, kaun og ásigkomulag. Þar nú Elías átti að stríða við opinbera afguðadýrkun, og Jón skírari við hræsni og þrjózku þeirra, sem eingu meir heiðruðu þann guð, sem þeir þóktust þekkja, en þó þeir hefðu tilbeðið Baal, þá er náttúrlegt, að nokkuð líkt hafi verið í beggja aðferð; samt sýnist mjer, að Jóhannis kenníngar hafi ekki svo stórkostlegar verið, sem Elíasar, og að skírarinn hafi mannúðlegar breytt, en hinn Þesbiski, því Jóhannes lifði bæði undir þeim fyrri og síðari siðum, hafði þess vegna nokkurn keim af báðum.

Magnús. Yðar meiníng mun þó ekki vera, að Elías hafi orðið of frekur í vandlætíngunni, því það getur ekki verið, þar eð hann var guðsmaður, guð gjörði fyrir hann svo mörg og stór kraptaverk, og tók hann seinast til himna.

Prestur. Meira er um allt þetta að tala, en þið getið skilið, eða skýrlega verði greint á einu stundarkorni. Guðsmaður er hver sá, sem guðs erindi rekur, og getur sá samt í einn og annan máta

ófullkominn verið. Kraptaverk hafa af þeim gjörð verið, sem ekki hafa verið alls kostar góðir, Matth. 7, 22. og 12, 27; líka kallar frelsarinn meira gleðiefni að hafa óflekkaða samvizku, en að hafa gjört kraptaverk, Lúk. 10, 20; svo mundu og fáir í eilífa sælu komast, ef þar frá ættu allir þeir að útilokast, sem eitthvað hefur á orðið. Þínar röksemdir, sem þú til færðir, Magnús minn! sannfæra mig þá ekki um, að Elíasi hafi ekkert getað yfirsjezt. Guð líður og fyrirgefur það margt, sem hann leyfir ekki, hann brúkar mannanna ófullkomin verk, sem meðal í hendi sinni, að koma til leiðar því, sem fullkomnara er, og auðsýnir gæzku og speki sína í því, að láta jafnvel yfirsjónir þeirra draga gott eptir sig. Þó jeg nú segi þetta bæði um Elías og fleiri, þá er samt lángt frá mjer að ásaka það mikla guðs verkfæri. Að hann í einu drap 450 (eða 850) Baals presta, og fyrirfór tvisvar 50 stríðsmönnum, getur með álítlegum rökum afsakazt, að minnsta kosti áttu eptir Mósis lögmáli þeir spámenn vægðarlaust að líflátast, sem rjeðu til skurðgoða-dýrkunar, 5 Mós. b. 13, 5; 18, 20., eptir hverju lögmáli Baals prestar voru rjettdræpir, en samt sýnist eins og guðsmaðurinn hafi helzt til bráður orðið, því ekki þókti Jesú Kristi hans dæmi vert eptir að breyta, heldur heimtaði hann af sínum lærisveinum, að hafa annan anda, það er: annað hugarfar, en Elías hafði auðsýnt, Lúk. 9, 55. og þar til er ekki ólíkt því, að sjálfur guð hafi viljað hneigja huga Elíasar til meiri vorkunsemi og blíðlyndis með þeirri vitrun, sem guð gaf honum, rjett eptir að Elías hafði slátrað Baals-prestunum, því guð var hvorki í storminum, nje jarðskjálftanum, nje eldinum, heldur í hægum og þægilegum vindblæ, 1. Kóng. b. 19, 9—14. Fleiri ófullkomlegleika hans þarf ei að telja, svo sem, hversu huglaus hann

varð tvisvar, bæði þá hann hugsaði, einginn dýrkaði sannan guð nema hann, þar hann þó skömmu áður var kominn að raun um, að Obadías hafði skotið skjóls-húsi yfir 100 guðs spámenn, 1. Kóng. b. 18, 14—18. 19, 10. og annað sinn, þegar hann var leiður af að lifa, og svo gott sem taldi eptir guði það, sem hann hefði vandlætt hans vegna, kap. 19, 4. svo postulinn Jakob með rjetti sagði, að „Elías var „maður eins og vjer“, Jak. 5, 17., hvað jeg ei segi til þess, að draga neitt af þeim heiðri, sem Elías á skilinn, heldur einasta færi það dæmi til, að það er ei allt fullkomið og eptirbreytíngar vert, sem í ritníngunni finnst uppteiknað, jafnvel um þá mestu og beztu menn. Jón skírari var ypparlegri en allir, sem fyrir hann höfðu fæðzt, þó segir Jesús Kristur, að sá af sínum lærisveinum, sem minnst vissi um sig, Messíam, væri fróðari en hann, Matth. 11, 11.

Með þessu vil jeg þá hafa kent ykkur, börnin góð! að ekkert dæmi nema einasta okkar endurlausnara er svo fullkomið, að ekki þurfi varkárni og athugasemi við að hafa (þó er líka um það athugandi, hvert hann hafi verkið gjört, sem maður, eður sem guð og meðalgángari). En ef svo er um þessa miklu guðsmenn, hvað þá um aðra miklu breyskari, þar únglíngum er annars tamt án eptirþánka að taka sjer snið af því, sem þeir sjá mikilsvirða menn gjöra? Vjer höfum í guðsorði skýrar reglur, eptir hverjum oss ber að breyta, eptir þeim eigum vjer að hegða oss, en ekki því, hvað aðrir hafast að, nema það sje guðs skipunum samkvæmt. Sá eini, sem var án syndar, má vera oss fyrir reglu, „veri hver einn eins skapi farinn og Jesús Kristur var, „því hann hefir gefið oss það dæmi, hverju oss ber „að fylgja,“ Filipp. 2, 2; 1. Pjet. 2, 21. Við skul-

um þá enda samtal þetta (með seinasta versi úr sálminum: Frelsarans er framferði) sýngjandi:

Gjör þú oss, þýði herra, etc.

## XVIII. EKKERT LÍFERNI ER GUÐI ÞÆGT, NEMA ÞAÐ SJE MÖNNUNUM NYTSAMLEGT.

Þegar Eysteinn konúngur Magnússon sat að ríkjum í Noregi, var lendur maður að nafni Hjálmar á Mæri, hann var rjettsýnn maður og góðgjarn, verndaði lítilmagnann, hegndi þeim ásælnu, virti hina lærðu, en ljet þá fá laun, sem kostgæfnir og ástundunarsamir voru, hann hafði allra hrós, þó þóktust menn varir við verða, að svo sem hann gjörði öllum öðrum gott, mundi honum samt eitthvað þúngt fyrir brjósti búa. Hann varð hugsjúkur, sóktist eptir að fara einförum; væri hann á gángi, þá gekk hann seint, starði ofan á jörðina, og honum fjell það þúngt, sem hann átti í embættinu að gjöra. Loksins einsetti hann sjer að sleppa sínu ljeni, fór til Eysteins konúngs, beiddi hann að gefa sjer lausn frá embættinu, og færði rök þar til, „að hversu lángt, sem lífið „væri, nægðist það þó ekki til að búa sig undir „dauðann, en allt hvað maður gjörði annað, væri „hjegómlegt og eins lítið í varið og kóngulóar-vef, „sem troðinn er undir fótum á þjóð-vegi, en öll „heimsins gæði svo svipul eins og snæljós, sem í „sama vetfángi leiptrar og hverfur burt. Leyf mjer „þess vegna“ (sagði Hjálmar við Eystein konúng), „að jeg megi búa mig undir eilífðina, þurfa ekkert „að gjöra, nema gefa mig allan við andlegum hugs„unum, iðka guðrækni og andakt í einsetu, gleyma „heiminum og láta aðra gleyma mjer, þángað til ei„lífðin lýkur upp augum mínum, og jeg á að birtast „fyrir dómstóli hins allra hæsta.“

Eysteinn konúngur þagði litla stund, en sagði síðan: „Hjálmar! þú hefur bæði gjört mig skelkað-„an og óvissan hvað jeg skuli af ráða. Mjer er eins „og þeim manni, sem er kominn fram á heingi-flug, „og þó veit jeg ekki, hvort háskinn er raunar svo, „ellegar ekki. Jeg er maður eins og þú, líf mitt er „ekki nema augnablik, eins og ekkert að reikna „móti eilífðinni, og þyrfti þess vegna allan minn „tíma til að búa mig undir dauðann, en hver ætti þá „að segja lög, og stjórna Noregsríki? Eiga þeir „kannske að gjöra það, sem aldrei hugsa um guð „nje dauðann, og einga samvizku hafa? eru þeir þá „allir í fordæmíngar standi, sem stunda vinnu sína „og stjett? ekki er mögulegt að allir geti verið múk-„ar, þess vegna er ekki allra skylda að vera það. „Farðu nú í það hús, sem þú ert til gistíngar í hjer „í bænum, jeg skal hugsa betur eptir því, sem þú „hefur um beðið, og segja þjer seinna, til hvers jeg „vil ráða þjer.“

Hjálmar fór burt, og þegar hann í þrjá daga fjekk eingin boð, kom hann annað sinn á konúngs fund, var þá hýr í yfirbragði, tók upp brjef hjá sjer, og fjekk konúnginum segjandi: „síðan jeg seinast „talaði við yður, herra! hef jeg feingið brjef frá „Bjartmari lækni, sem kennir mjer, hvernig jeg á „að nota mjer lífið, nú get jeg með gleði litið til „baka á umliðna æfi mína, og með góðri von áfram „til ókominna tíða. Nú er jeg reiðubúinn að vera „framvegis í þeirri stjett, sem jeg híngað til hef „staðið í, ef þar er yðar vilji til.“ Konúngurinn varð hissa og forvitinn, um hvað í brjefinu stæði, fjekk það hirð-presti sínum að lesa. Það hljóðaði þannig:

„Bjartmar sendir Hjálmari bónda kveðju guðs „og sína. Sárt sveið mjer, þegar jeg heyrði þú

„ætlaðir ekki leingur að hafa sýslu konúngs á Mæri; „eiga þá svo margir menn að fara á mis rjettdæmis „þíns og verndar; jeg skal segja þjer frá því, sem „við mig framkom í úngdæmi mínu, vera má þú get- „ir dregið þjer nokkurn lærdóm af því. Jeg nam „læknis-fræði hjá Erlíngi lækni, sem mestur var í „þeirri iðn hjer á norðurlöndum, og þókti jeg vera „með þeim beztu, úr því hann leið. Sá jeg sárindi „þau, eymd og dauða, daglega fyrir augum mjer, „sem ollu því, að jeg skalf og titraði, þegar jeg „hugsaði um mína endalykt, mjer var hvert sinn, „eins og sæi jeg opna gröfina fyrir fótum mjer. Jeg „tók þess vegna fyrir mig, að hugsa um ekkert „nema eilífðina, að fyrirlíta alla jarðneska hluti, jeg „hugsaði ekkert væri syndlaust, nema í þögn að í- „huga andlega hluti, að þeir, sem girntust auðæfi, „væru þeirra ekki verðugir, en hinir, sem einkis „virtu þenna jarðarleir, væru hæfir að eiga þau. „Þess vegna gróf jeg allt mitt silfur í mold, fór „burt frá öllum mönnum í eyðistað, og var þar í „helli, hvar jeg drakk vatn, en lifði af rótum og „berjum, sem jeg gróf og tíndi til að viðhalda lífinu „með. Til að leggja þess þýngra á mig, vakti jeg „opt heilum nóttunum saman, og sat fyrir utan hellis- „dyr mínar, snúandi andlitinu til austurs, svo jeg „feingi upplýsíng af hæðum. Einn morgun eptir að „jeg hafði vakað alla nóttina, rjett í því sólin ætlaði „að koma upp, fjell á mig svefn-höfgi, sem jeg gat „ekki á móti staðið. Mjer sýndist eins og jeg væri „við hellisdyr mínar, sólin væri að renna upp, en „þá kom eitthvað svart og dimt, sem huldi hana fyr- „ir augum mjer. Jeg sá, það færðist nær og nær, „en óx í augum mjer, því meir sem það nálgaðist, „og loksins sá jeg það var örn, er settist skamt frá „tóu þeirri, er tveir fætur voru brotnir á. Örnin

„skildi þar eptir hálft lamb, sem hún hafði komið „með í klónum; síðan flaug hún burtu. Eptir að jeg „vaknaði, hugsaði jeg út í draum minn, og talaði „þannig við sjálfan mig: rjett gjörði jeg að skilja „mig við skarkala, athafnir og hjegóma heimsins, „þó hef jeg ekki gjört meir en helmíng skyldu minn„ar. Meðan jeg er dag hvern að tína saman það, „sem jeg á að lifa af, er sálin hvorki í fullkominni „rósemi, nje traustið til guðs forsjónar algjörlegt. „Þessi vitran kennir mjer, að sá guð, sem sendi „örninn til að seðja refinn, getur líka sent mjer mína „fæðu, þegar jeg gjöri ekkert annað en þjóna hon„um rækilega. Jeg var svo fulltrúa um þetta, að „guð mundi hjálpa mjer, að jeg hætti að leita „fæðu minnar, og beið með óþolinmæði, að hún „mundi til mín koma; samt bar jeg mig að kefja „þessa óþolinmæði, og standa stöðugur í mínum á„setníngi, en mjer fór að sortna fyrir augum af „húngri, knjen að skjálfa, og jeg gat naumast dreg„ið mig af óstyrk. Þá birtist mjer í svefni maður „bjartleitur, hýr á yfirbragð, en þó alvarlegur nokkuð „svo, eins og honum líkaði ekki fyrirtæki mitt.“ „Þar liggur þú, Bjartmar, sagði hann, og ætlar að „vera vitrari, en þjer hefur verið kent. Heimska þín „hefur snúið þeim lærdómi til verri vegar, sem þjer „var gefinn til að skynja af hið rjetta. Ertu fótlama „eins og réfurinn? Hefur þú ekki miklu fremur arn„arins krapta? Stattu upp, breyttu eptir erninum, „bjargaðu lífi og heilsu þeirra, sem eru sárir og „sjúkir. Dygðin er ekki innifalin í hvíld, heldur í „athöfnum; ef þú sýnir elskuna til guðs með því að „gjöra mönnunum gott, þá verður þín dygð himnesk, „og þú færð á jörðunni forsmekk þeirrar gleði, er „þú seinna munt hreppa fullkomna í eilífðinni.“ „Ept„ir þessa vitran fór jeg aptur til kaupstaðarins, og

„gróf upp peninga mína, varð örlátur, gat opt lækn-
„að sálarinnar sjúkdóma, í því jeg var að græða lík-
„amlegu meinin, og kappkosta að láta þá vitrun,
„sem jeg fjekk, verða mjer ei til ónýtis. Nýttu þjer
„hana líka, Hjálmar bóndi, og vertu viss um það,
„að hvað sem maður veit og kann, en hann þjenar
„eigi öðrum með, er einkis vert; einsetu-líferniđ er
„til einkis gott, nema leiðir frá einni villu til ann-
„arar; þess meira sem þjer er lánað, þess meira áttu
„öðrum í tje að láta; láttu sem flesta fá not dygða
„þinna, þá elskar guð þig. Vertu sæll."

Þegar konúngurinn hafði heyrt þetta brjef, fjell honum það vel í geð; hann leysti Hjálmar burt með góðum gjöfum, og ljet hann fara aptur í sýslu sína. Sýnir eptirdæmi þetta, að einkis manns líferni er guði þægt, nema það sje mönnunum nytsamlegt.

## XVIIII. SAGAN AF HERRA JÓHANNI SÓLSKJÖLD.

Lukkan er tíðum brigðlynd, og hefur á stundum upp úr duptinu til æðstu metorða og valda, þá sem hún áður hefur ekki virt þess að líta til. Að vísu eru sumir svo íllkvittnir, að bera upp í sjer, slíkir hafi sjaldan nógu sterk bein til að þola góða daga, og þeim sje virðíngin svo ný og óvenjulega há, að þá sundli af henni; en þeir, sem þetta mæla, gæta ei að því, að lukka og metorð eru lítilsverð, nema þau sjeu brúkuð, og sá hefði mátt eins vel liggja í skarninu, sem ekki kynni að nýta sjer upphefð sína, til að láta þá undirgefnu finna, að nú sje sá kominn í höfðíngja tölu, sem áður lá undir hvers manns fótum. Þetta hafði leingi setið ríkt í huga allra sveita kvikindisins, hans Jóns Veigusonar; móðir hans hjet Solveig, sem hvergi toldi, og einginn vildi halda

viku leingur; átti hún þenna Jón á flakki sínu, og gat ei feðrað hann, hvar fyrir hann var dæmdur á alla sýsluna, og alment kallaður Jón Veiguson; hafði þessi allan sinn aldur á vergángi alizt, verið hortugur, skrafinn og óþekkur, hvar fyrir honum varð víða ílla til greiða, fjekk sjaldan inn í bæar-húsum að vera, og í öllum aðbúnaði átti því lakara viðurværi til fæðis og fatnaðar en aðrir fátæklíngar, sem hann hafði komið sjer ílla hjá öllum. Rjett í einu snjeri lukkan sjer, og þessi vesalíngs ræfill varð í augabragði sá lánsamasti maður undir sólunni.

Nú var Jón Veiguson orðinn æðstu landsins höfðíngja jafníngi, hann átti mörg hundruð hundraða, hvert allt góz var beztu höfuðból og stórjarðir í næstu sýslum, heilar tunnur af stórum peníngum og margar vættar-kistur fullar af gulli og gersemum; hann bjó ístærra og betra múrhúsi, en hann sjálfur hafði nokkurn tíma áður sjeð, voru herbergin í því öll ljómandi af gulli og fögrum málverkum, svo óvanir feingu augna-deprur, þegar þeir komu þar inn að kasta sjer fyrir fætur hans; þrír danskir matsveinar höfðu fult í fángi að búa til alla hversdags-rjetti honum til borðhalds, en af rauðu skarlati með allavega litu flöjeli var lakasti klæðnaðurinn hans. Hvort sem hann gekk inn eða út, var sveina mergðin óteljandi, sem allir keptust hver við annan, að vera fyrstir til að útrjetta, hvað helzt er hann benti til. Aðrir höfðíngjar fóru lángar leiðir, til að finna hann, og með auðmýkt að koma sjer í mjúkinn hjá honum, og hver sá sem í sýslunni var stökufær, orti um hann lof-sálma, og hóf hann upp úr skýunum, þeir kölluðu hann landsins prýði, og allrar sýslunnar máttar-stólpa; það eina, sem honum mislíkaði í þessu, var, að þeir nefndu hann enn þá herra Jón Solveigarson, þókti honum það of mikil end-

urminníng sinnar fyrri fátæktar, hvar fyrir hann gaf sjer það nafn, Jóhann sólskjöld, og skipaði öllum að kalla sig það. Nábúa átti herra Sólskjöld, þann er Þorleifur hjet, æru og sóma mann, sem með ástundun, atorku og skynsamlegri sparsemi var orðinn mektar-maður í sveitinni. Áður í fyrndinni, meðan herra Sólskjöld hjet Jón Veiguson, hafði hann haft öfund á þessum manni. Þorleifur, sem var hreppstjóri, hafði líka einhvern tíma verið nógu tannhvass um ónytjúngs hússgánga, og jafnvel látið sjer um munn fara, að slíkir væru rjettur tukthússmatur. Þetta hafði sezt í Jón Veiguson, og herra Jóhann sólskjöld var ekki heldur búinn að gleyma því, þókti honum þess vegna Þorleifur maklegastur til að bera niður á, til að kenna óvildar-mönnum sínum, hvers þeir vænta mættu, sem þyrðu bjóða sjer, að styggja slíkan mann. Vitni voru til feingin, sem báru, að Þorleifur hefði talað ílla um kongúnginn, myrt mann, og væri ránglega kominn að öllu því, sem hann ætti. Þorleifi var því kastað í smánarlega fángelsis gryfju, og hann dæmdur til dauða; hans sorgbitna kona og saklausu börn köstuðu sjer grátandi fyrir fætur hins volduga Sólskjölds og beiddu um náð, en það var til einkis. Þorleifur misti höfuðið undir böðuls-öxinni, allt hans hyski var rekið blánakið út úr sýslunni á vonar-völ, en góziö dæmt upptækt, og fallið hálft undir konúng, en hálft undir herra Jóhann sólskjöld. Eitt vantaði hann en til fullkominnar lukku sinnar: hann hugfesti sjer nú að gipta sig. Margir stórhöfðíngjar gjörðu sjer ómak fyrir, að koma honum inn í ætt sína; en herra Hinrik einsamall varð svo lukkudrjúgur, að Sólskjöld leit ástar-augum til dóttur hans, Hugborgar, hún var þess líka verðug. Hinrik sjálfur var stórættaður, ríkur, mikils-metinn og frænd-margur af

göfugu fólki, en Hugborg dáfríð, skörp, velvaxin, og skáldin í sýslunni höfðu opt og tíðum í kvæðum sínum svarið, að Iðun og Freyja hafi margsinnis öfundað hana af fríðleika hennar. Ráðahagurinn var á báðar síður með jafnri gleði samþyktur, veizlan haldin með mestu viðhöfn og öllu stórmenni til boðið. Sá voldugi herra Jóhann sólskjöld, sem ekki hafði mínkað af mægðum þessum, var leiddur til brúðarrúmsins, og ætlaði að kyssa unnustu sína; „æ!" sagði „hann, í því hann ætlaði að umfaðma hana: æ! „hversu ánægður—"

Hjer rak Jón Veiguson höndina á sjer í fjósstoðina, og hrökk upp úr svefninum; öll hans lukka hafði ekki verið nema draumur; hann lá enn í karbættu og rifnu úlpunni sinni, sársoltinn, í sama moðbás, og hann hafði snarað sjer niður í kvöldinu fyrir; herra Jóhann sólskjöld var horfinn, Hugborg ógipt, þegar seinast tilspurðist, og sá góði Þorleifur lifir enn.

## XX. GÁTUR.

56). Mús. 57). Ekkert. 58). Sykur-toppur. 59). Fló. 60). Nef-tóbak.

61). Við erum fimm alls, og höfum sinn hvort embætti hjá þjer, í hverju við þjónum þjer seint og snemma, opt gjörum við þjer mikla pínu og ángur, en þó hefur þú litla gleði án okkar.

62). Í gær mun jeg verða, á morgun var jeg.

63). Með snúinhaus mínum gjöri jeg kytru handa honum bróður hvassnef; því, gjöri jeg það ekki, þá þreyngir hann sjer svo gapalega inn, að hann spreingir í sundur veggina undir húsinu.

64). Einn stór vegur leyfir öllum inn að gánga, en þó margar sjeu dyrnar, þá getur samt einginn

út aptur komizt, því vegurinn er þá lokaður, en allar dyrnar oflitlar.

65). Mjer er skipt í fjóra parta, og skipti sjálf mörgum hlutum, er kosta ærna peninga. Sumstaðar er jeg lítil, sumstaðar stór. En hvort jeg er stór eða lítil, get jeg þó orðið minni, en jeg á að vera.

## XXI. GUÐHRÆÐSLAN ER AFFARAGÓÐ.

Kaupmaður nokkur fór til Indíalands með konu sinni, vann sjer þar inn mikla peninga, og fór, að nokkrum árum liðnum, skipaleið aptur til Frakklands, hvar hann áður átti heima. Með honum voru kona hans og tvö börn, piltur og stúlka. Pilturinn var fjögra ára, að nafni Jóhann, en stúlkan þrjevetur, og hjet María. Á miðri leið rötuðu þau í storma mikla, sagði stýrimaðurinn þá, að mikill háski væri fyrir hendi, því skipið ræki að eyjum, hvar það mundi brotna. Þegar kaupmaðurinn heyrði það, tók hann stóra borðfjöl, batt konuna sína og börnin ramlega þar á, en í því hann ætlaði að binda sjálfan sig, steytti skipið á skeri, svo það klofnaði að endilaungu, en allir, sem á því voru, duttu í sjóinn. Borðið með konunni og báðum börnunum flaut ofan á, og rak til einnar af eyunum; þar leysti konan böndin og fór upp á eyuna með báðum börnum sínum. Það fyrsta, sem henni varð fyrir, þegar hún var komin upp úr flæðarmálinu, var, að hún kastaði sjer á knje, og þakkaði guði fyrir þetta frelsi; samt var hún mjög sorgbitin, af að hafa mist mann sinn, og líka var hún hrædd um, að bæði hún og börnin mundu deya af húngri á þessari ey, ellegar, að ólm dýr mundu rífa þau í hel; nokkra stund gekk hún harmþrúngin af þessu; en þegar hún sá fjölda af eikum, sem voru fullar með ávexti, tók hún staur,

og krakaði þá ofan, át af þeim sjálf, og gaf þá síðan börnum sínum með sjer. Eptir það fór hún leingra áfram að vita, hvort hún fyndi ekki neinn kofa eður mannaverk, en hún komst að raun um, að þetta var eyði-ey. Á vegi fyrir sjer fann hún stóra eik, sem var hol innan, og í henni ásetti hún sjer að hafa næturvist í það skiptið. Hún var þar um nóttina með börnum sínum. Daginn eptir fór hún enn leingra fram á eyuna, svo lángt sem þau gátu geingið; fann hún þar á vegi fyrir sjer fugla-hreiður og tók undan þeim eggin; en þegar hún varð hvergi vör við menn nje skaðleg dýr, einsetti hún sjer að fela sig guðs vilja, og ala upp börnin sín, sem bezt hún gæti. Í vasa sínum hafði hún nýa testamentið og bænabók, þær bækur brúkaði hún til að kenna þeim að lesa á, og að þekkja góðan guð. Stundum sagði pilturinn við hana: Móðir mín, hvar er hann faðir minn? Því ljet hann okkur fara burt úr húsinu okkar á eyuna þá arna? Ætli hann komi ekki að finna okkur? Móðirin svaraði grátandi: Börnin mín, hann faðir ykkar er farinn til himnaríkis, en þið eigið annan föður, sem er góður guð; hann er hjerna, þó þið sjáið hann ekki; hann er sá, sem sendir ykkur ávextina og eggin, og hann mun ala önn fyrir okkur, svo leingi sem við elskum hann af öllu hjarta og hlýðum honum.

Þegar börnin voru búin að læra að lesa, lásu þau aptur og aptur með ánægju, það sem var í bókunum þeirra, og töluðu um það með degi laungum, þau voru líka góð börn og hlýðin móður sinni.

Að tveggja ára fresti lagðist móðir þeirra í sótt, en þegar hún sá, hún mundi ekki eiga lángt eptir, varð hún mjög sorgbitin vegna barna sinna, en huggaði sig samt við það, að góður guð mundi ala önn fyrir þeim. Hún lá í holu eikinni, kallaði börn-

in til sín, og sagði við þau: Jeg mun nú innan skamms deya, mín kæru börn, svo þið verðið þá móðurlaus, en munið samt ætíð til þess, að þið aldrei eruð einsömul, því góður guð sjer allt, hvað þið gjörið. Látið þið aldrei hjá líða, að biðja hann kvöld og morgna. Jóhann minn góður, hafðu ætíð umhyggju fyrir henni systur þinni, Maríu, vertu ekki hastur við hana, og berðu hana aldrei; þú ert stærri og sterkari en hún, þú átt að leita upp eggin og ávextina handa henni.—Hún ætlaði að segja eitthvað við hana Maríu, en hafði ekki tíma til þess, því hún dó. Þessi vesalíngs börn skyldu ekki, hvað móðir þeirra meinti, því þau höfðu ekki sjeð, hvað það var að deya, svo þegar hún var dauð, hugsuðu þau, að hún svæfi, og þorðu ekki að hafa hátt um sig, svo hún vaknaði ekki. Jóhann fór að sækja ávexti, þau systkinin borðuðu um kvöldið, og sváfu hjá móður sinni um nóttina. Morguninn eptir furðuðu þau sig yfir, að móðir þeirra svæfi svo leingi, tóku í handlegginn á henni til að vekja hana, en þegar þau sáu, að hún svaraði þeim ekki, hjeldu þau henni þækti eitthvað miður, fóru að gráta, beiddu hana fyrirgefníngar, og lofuðu að vera góð börn, en hvað sem þau gjörðu til, má nærri geta, að móðirin gat ekki svarað þeim, þar eð hún var dauð. Þau voru þar nokkra daga, þángað til líkaminn var farinn að rotna. Einn morguninn hljóðaði María upp yfir sig, og sagði: æ, bróðir minn, skoðaðu maðkana, sem eru að eta hana móður okkar góða; við skulum taka þá burt, komdu að hjálpa mjer til! Jóhann kom að, en ólyktin var þá svo mikil af líkamanum, að þau gátu ei haldizt þar við, og urðu að leita sjer upp aðra eik til að liggja í.

Þessi börn hlýddu í öllu móður sinnar ráðum, og ljetu aldrei hjálíða að biðja guð. Þau lásu svo

opt bækur sínar, að þau kunnu þær utanbókar. Þegar þau voru búin að lesa, geingu þau út til skemtunar, ellegar sátu saman í grasinu. Einu sinni sagði Jóhann við systur sína: jeg man til þess, þegar jeg var dálitill, þá var jeg þar, sem voru stór hús, og fjöldi af mönnum, jeg átti fóstru, og þú líka, og faðir minn hjelt mörg hjú, við vorum þá í fallegum fötum. Allt í einu ljet hann faðir minn okkur í hús, sem hljóp á vatninu, og nokkru þar eptir batt hann okkur á fjöl, fór sjálfur ofan í sjóinn, en hefur ekki síðan komið þaðan aptur. Það er undarlegt, svaraði María, en þar það hefur skeð, þá hefur guð viljað hafa það svo, því þú veizt, bróðir minn, að hann er almáttugur, og allt skeður þeim til bezta, sem elska hann. Jóhann og María voru ellefu ár á þessari ey. Einu sinni þegar þau sátu í fjörunni, sáu þau, hvar bátur kom með mörgum svörtum mönnum. Í fyrstunni varð María hrædd, og ætlaði að hlaupa burt, en Jóhann sagði við hana: við skulum vera kyr, systír mín, veiztu ekki, að hann faðir okkar, góður guð, er hjerna, og hann mun vernda okkur, svo mennirnir þeir arna gjöri okkur ekki neitt ílt. Þegar svörtu mennirnir voru komnir á land, undruðust þeir yfir að finna þar únglínga öðruvísi lita en sjálfa sig. Þeir flyktust kríngum þau, og töluðu til þeirra, en hvorugt systkinanna skildi þeirra túngumál. Jóhann leiddi þá að beinum móður sinnar, og sagði þeim, hvernig hún hefði dáið alt í einu, en þeir skildu ekkert af því; loksins sýndu þeir únglíngum þessum bátinn, og bentu þeim að fara upp í hann. Jeg þori það ekki, sagði María, jeg er svo hrædd við þessa menn. Jóhann sagði henni: vertu óhrædd, systir mín, hann faðir minn hafði þjenara, sem voru eins litir og þessir menn; kannske hann sje núna kominn heim aptur, og hafi sent eptir okkur.

Þau fóru upp í bátinn, en mennirnir rjeru heim til sín, að ey, þar skamt frá. Allir eyarbúarnir tóku vel á móti þeim, og konúngur þeirra starði mikið á hana Maríu, og lagði höndina opt á brjóstið, til að gefa henni þar með til kynna, að hann elskaði hana. María og Jóhann lærðu fljótt þessarar eyar túngumál, og urðu áskynja um, að eyarbúarnir, og þeir, sem voru í næstu eyu, áttu í stríði saman, en hvorir fyrir sig ætu þá upp, sem þeir tæki til fánga, að þeir tilbæðu stóran, ljótan apakött, sem hefði marga menn sjer til þjónustu; voru þau því mjög sorgbitin, af að vera komin til svo vondra manna.

Nú vildi konúngurinn endilega eiga hana Maríu, en hún sagði bróður sínum, að hún vildi heldur deya en vera kona hans. Það er af því, hann er svo ófríður, að þú vilt ekki eiga hann, sagði Jóhann. Nei, bróðir minn, svaraði hún, það er af því, hann er svo vondur. Sjer þú ekki, að hann þekkir ekki hann föður okkar, góðan guð, og í staðinn fyrir að biðja hann, kastar hann sjer á knje fyrir óhræsis apaketti, og líka þar sem bókin okkar skipar, að fyrirgefa óvinum sínum, og gjöra þeim gott, þá drepur þessi vondi maður fángana sína, og jetur þá.

Mjer kemur eitt í hug, sagði Jóhann, ef við dræpum ólukku apaköttinn, þá sæu þeir, að hann er ekki sannur guð. Við getum gjört annað betra, sagði María, bókin okkar segir, að guð bænheyri þá, sem biðja hann af góðu hjarta, við skulum leggjast á knje, og biðja guð sjálfan að drepa apaköttinn, þá verður okkur ekki kent um, og við verðum þá ekki drepin í staðinn. Jóhann fjellst á þetta; þau köstuðu sjer bæði á knje, og sögðu hátt: drottinn, þú getur alt, hvað þú vilt, sýndu þína gæzku í því að drepa apaköttinn, svo vesalíngarnir þessir fái að vita, að þú einn átt að tilbiðjast, en ekki hann.

Þau láu enn á knjám, þegar þau heyrðu mikið ýlfur, og þegar þau fóru að spyrjast eptir, hver orsökin til þess væri, var þeim sagt, að stóri apakötturinn hefði stokkið ofan úr eik, og brotið í sjer lærlegginn. Þeir svörtu menn, sem þjónuðu apakettinum, og prestar hans, sögðu konúnginum, að María og bróðir hennar væru orsök í þessu ólukku tilfelli, og landið gæti ei orðið lukkulegt, fyrr en þessir hvítu menn væru búnir að tilbiðja þess guð. Strax var úrskurðað, að offur skyldi færast apakettinum, sem var ný-útvalinn til að vera goð, að hvítu systkinin skyldu vera þar við, og María ekta konúng þeirra, en ef þau vildu ekki gjöra þetta, þá skyldi brenna þau bæði lifandi, og bækurnar þeirra með, sem þau hefðu brúkað til galdra sinna. Þegar María heyrði þenna dóm, og að prestarnir báru upp á hana, að hún hefði drepið apaköttinn, svaraði hún þeim: hafi jeg látið apaköttinn ykkar deya, þá mætti jeg vera máttugri en hann, og væri heimska að tilbiðja það, sem ekki er æðra en jeg. Sá verður að lúta, sem lægri hefur dyrnar, því ætti apakötturinn miklu heldur að tilbiðja mig, en jeg hann; samt vil jeg ekki ganta ykkur, því ekki hef jeg drepið hann, en minn guð ræður yfir öllum sköpuðum skepnum, og án hans leyfis getið þið ekki tekið eitt hár af mínu höfði. Af þessu espuðust hinir svörtu, bundu Maríu og bróður hennar á borðstúfa, og ætluðu að brenna þau, en í því kom fjöldi fjandmanna á eyuna. Innbúarnir hlupu til að verja sig, urðu yfirunnir, þeir aðkomandi hjuggu fjöturin af báðum hvítu systkinunum, og fluttu þau til eyar sinnar, hvar hann varð þræll, en hún ambátt hjá konúnginum. Þau þrælkuðu frá morgni til kvölds, og sögðu: af elskunni til guðs eigum við að þjóna trúlega hússbónda okkar,

og halda það sje drottinn, sem við þjónum, því bókin okkar skipar okkur það.

En þessir svörtu menn áttu í stríðum, og átu fánga sína, eins og þeir, sem þau fyrr höfðu verið hjá. Einu sinni náðu þeir mörgum, sem þeir tóku til fánga, og meðal þeirra var einn hvítur maður, en vegna þess hann var skínhoraður, ásettu þeir sjer að ala hann fyrst, áður en þeir slátruðu honum. Þeir höfðu hann bundinn í einum kofa, og skipuðu María, að færa honum matinn. Vegna þess hún vissi, að hann var ætlaður til slátrunar, aumkaðist hún yfir hann, leit hálfgrátandi til hans, og sagði: æ, guð minn faðir miskuna þú þig yfir hann! þessi hvíti maður hafði í fyrstunni undrast yfir að sjá þar eins lita stúlku, og hann var sjálfur, en meira brá honum við, þegar hann heyrði hana tala sitt túngumál, og biðja einn sannan guð. Hver hefur kent þjer að tala frönsku, sagði hann, og að þekkja góðan guð? Ekki veit jeg hvað túngumálið heitir, sem jeg tala, svaraði hún, það er málið hennar móður minnar, hún kendi mjer það, en hvað góðan guð áhrærir, þá höfum við, hann bróðir minn og jeg, tvær bækur, sem tala um hann, og við lesum bækurnar okkar á hverjum degi. Æ, drottinn minn, sagði maðurinn, og fórnaði með höndum og augum til himins. Ætli það geti verið mögulegt? En, stúlka mín, getur þú sýnt mjer bækurnar, sem þú ert að tala um? Jeg hef þær ekki hjá mjer, sagði hún, en jeg skal fara og finna hann bróður minn, þær eru hjá honum, hann skal sýna þjer þær. Hún fór strax burt, en innan skams kom Jóhann og hún aptur með báðar bækurnar. Þessum hvíta manni var mikið niðri fyrir, lauk þeim sem fljótast upp, og þegar hann sá á saurblaðið skrifað: "þessa bók á jeg Jóhann Márizíus, kallaði hann upp yfir sig og

sagði: æ, mín elskulegu börn, jeg er faðir ykkar, komið þið og kyssið þið mig! æ, getið þið sagt mjer góðar frjettir af henni móður ykkar? þegar Jóhann og María heyrðu þetta, köstuðu þau sjer í fángið á hvíta manninum, og grjetu af gleði. Loksins sagði Jóhann: hugur minn segir mjer, að þjer sjeuð faðir minn, samt skil jeg ekki, hvernig það getur verið, því hún móðir mín sagði mjer, að þjer hefðuð dottið ofan í sjóinn, og nú veit jeg, að það er ekki mögulegt að lifa niðrí sjónum eða komast þaðan. Satt var það, jeg datt í sjóinn, svaraði maðurinn, þegar skipið okkar klofnaði í sundur, en jeg náði fjalar broti, og komst lukkulega til einnar af eyunum, en hugsaði þið hefðuð druknað. Þá sagði Jóhann honum frá öllu því, sem hann mundi til, og grjet hvíti maðurinn mjög, þegar hann frjetti lát konu sinnar. María grjet hástöfum, en það var af öðru tilefni. Æ, sagði hún, til hvers var okkur að finna hann föður okkar aptur, úr því á að drepa hann og eta innan fárra daga? Við skulum brjóta af honum fjötrana, sagði Jóhann, og strjúka síðan öll þrjú í skóginn. Og hvað eigum við að gjöra þángað, mín vesalíngs börn, sagði Jóhann Márizíus? annaðhvort ná okkur svörtu mennirnir, ellegar við megum deya af húngri. Lofið þið mjer að ráða, sagði María, jeg veit það meðal, sem dugir til að frelsa yður.

Í því hún endaði þessi orð, fór hún burt og til konúngsins, kastaði sjer fram fyrir fætur honum, og sagði: það er stór velgjörð, sem jeg ætla að biðja yður um, viljið þjer lofa mejr að veita mjer þá mína bæn? Jeg sver þjer það, sagði konúngurinn, því mjer líkar, hvernig þú þjónar. Hana þá, sagði María, þjer skuluð vita, að sá hvíti maður, sem jeg á að færa mat, er faðir minn og hans Jóhanns. Þjer hafið ásett að hafa hann yður til borðs, en jeg kem

að segja yður, að hann er bæði gamall og magur, svo það verður ekki einn góður biti af honum, Þess vegna vona jeg, að þjer munið heldur vilja eta mig í hans stað, því jeg er úng og feit, jeg bið ekki utan um viku frest, svo jeg geti kynnzt við hann á meðan, áður en jeg dey. Mikið góð stúlka máttu vera, svaraði konúngur, og það er lángt frá mjer, jeg vilji drepa þig, lifðu þá og hann faðir þinn líka. Jeg get þar að auk sagt þjer, að á ári hverju kemur híngað eitt skip, fult af hvítum mönnum, til hverra við seljum fánga okkar. Innan skamms er von á skipi þessu, og þá skaltu fá leyfi til að fara með því.

María þakkaði konúnginum mikillega, og í hjarta sínu þakkaði hún góðum guði, sem hefði blásið konúnginum þessari manngæzku í brjóst. Hún hljóp með þessi góðu tíðindi til föður síns, og nokkrum dögum seinna kom skipið, sem konúngurinn hafði nefnt við hana; með því fór hún, faðir hennar og bróðir. Þau komu að stórri ey, sem Spanskir bjuggu í, þegar höfuðsmaðurinn á eyunni heyrði þessa sögu, hugsaði hann með sjálfum sjer: þessi stúlka á ekki eitt fiskvirði, og mörg kann að vera bragðfegri, en hún er svo góð og dygðauðug, að hún gæti gjört mann sinn lángtum farsælli, heldur en önnur fríð og rík. Hann hóf þess vegna bónorð sitt til hennar hjá föður hennar, sem gaf samþykki til ráðahagsins. Höfuðsmaðurinn átti Maríu, og seinna gipti hann Jóhanni eina frændstúlku sína, svo þau lifðu farsællega á þessari ey, og dáðust að guðs speki og forsjón, sem ljet Maríu verða ambátt, og hrekjast frá einum mannætunum til annara, til þess hún gæti feingið tækifæri til að frelsa líf föður síns.

## XXII. HJÁTRÚ.

Vellauðugur, en undir eins ágjarn maður var til húsa á lopti í gestaherbergi nokkru. Hann var hræddur um, að einhver mundi ná peníngum sínum, vissi því ei, hvað hann skyldi af þeim gjöra, en eptir að hann hafði leingi hugsað sig um, rjeð hann það af að grafa þá niður í gólfið, taka upp fjöl úr því, og leggja peníngana milli lopta. Þetta tókst honum vel, hann ljet gullpeníngana neðst, og þar ofan á stóran sekk, fullan með silfurpenínga, síðan negldi hann fjölina vel ofan yfir aptur, og varð hjartans glaður, að þetta hefði svo vel tekizt, að einginn hefði orðið var við, hvað hann var að starfa. Svo bar til, að kaupmaður nokkur með konu sinni og börnum kom í þetta sama gestaherbergi, og var honum leigt það herbergi, er var rjett undir loptinu, sem peníngarnir voru geymdir í. Þessir vesalíngar höfðu liðið skipbrot, og mist alla sína aleigu. Maðurinn var lúterskur, en konan pápísk; hún var jafnan að hugga hann með því, að hún með sínum sífeldu og hjartnæmu bænum skyldi útverka það hjá hinum h. Bónífasíus, sem var hennar fulltrúi, að hann skyldi hjálpa þeim úr allri nauð, og, til hennar þess frekari trúarstyrkíngar, vildi svo til, að sá h. Bónífasíus var málaður á vaxdúk, sem negldur var undir bitana á loptinu. Hún lagði aldrei frá sjer nótt eða dag talnaband sitt, sem pápískir eru vanir að þylja á bænir sínar, og tautaði svo mikla afbakaða látínu við þenna sæla dýrlíng, að hefði hann heyrt það, og skilið látínumál, þá hefði hann varla getað staðið af sjer að hlæa. Einu sinni um miðnættis bil, lá hún enn sem optar á knjám, og bað dýrlíng sinn, en maðurinn vakti á meðan, og var í þúngum þaunkum; varla var hún búin að segja amen, fyrr en peníngasekkurinn og allir gullpeníngarnir duttu úr lopti nið

úr fyrir fætur hennar, og það úr þeim stað, hvar vasinn hefði átt að vera á kjólnum dýrlíngsins. Guð minn góður, hvað er þetta? kallaði maðurinn. Það eru peníngar, maðurinn minn góður! Stór peníngasekkur, sem sá helgi Bónifasíus skeinkir okkur, sagði konan. Nú erum við rjett í einu út úr allri okkar neyð. Skoðaðu nú, nú hlýtur trúarleysið þitt að verða til skammar; æ, sá blessaði og góði Bónifasíus! Skoðaðu, vasinn, sem hann hafði peníngana í, hefur rifnað. Þar eptir sókti hún stiga og saumaði saman rifuna á kjólnum dýrlíngsins með gullvír, en var á meðan sífeldlega að kyssa hann og þakka honum fyrir þessa örlætis gáfu. Maðurinn komst svo við af þessu kraptaverki, að hann grjet af gleði, og sagði: Nú sje jeg, hjartans konan mín góð, að þau pápísku trúarbrögð eru sönn, á morgun skulum við strax fara hjeðan, beint til Róms, og þar skal jeg opinberlega játa þá trú, og í henni lifa og deya. Konan gladdist mikilega af þessu, hún umfaðmaði mann sinn af ást og alúð, og þau fóru af stað strax um morguninn í bítið.

Á sömu nótt varð þeim gamla nyrfli hastarlega ílt, en af því hann svaf í litilli afsíðis kytru, heyrði hann ekki neitt til fallsins. Synir hans þar á móti, sem heyrðu dýnkinn, voru mjög glaðir, og sögðu hver við annan: tökum við nú eptir! í þetta sinn batnar ekki kallinum honum föður okkar, því altíð hefur svoddan dýnkur orðið fyrir því, þegar einhver hefur dáið í ætt okkar. Faðirinn fann líka á sjer, að hann var þegar affram kominn, ljet kalla sonu sína fyrir sig, og sagði: börnin mín! jeg hlýt nú að skilja hjer við, en þið fáið kostuleg auðæfi eptir mig, hvar af þið getið með sóma lifað í veröldinni, ef þið farið eins vel að högum ykkar, eins og jeg hef gjört. Undir miðfjölinni í herberginu

þarna til hægri handar hef jeg grafið hundrað þúsund ríkisdali í gulli, og stóran poka með silfurpenínga þar að auki. Strax á eptir stundi hann þúngan, og gaf upp öndina. Synir hans voru naumast búnir að veita honum nábjargirnar, fyrr en þeir fóru hoppandi af gleði að brjóta upp gólfið; en bilt varð þeim við, þegar þeir fundu ekki annað en hinn h. Bónífasíus málaðan. Hver skyldi trúa því, sögðu þeir, að hinn h. Bónífasíus hafi stolið peníngunum okkar? og svona eru sumir dýrlíngarnir! rifu svo í bræði sinni þann h. Bónífasíus í þúsund parta. Skoðaðu, sagði einn af bræðrunum, hvar til hann hefur brúkað peníngana hans föður okkar! Hann hefur keypt gullvír fyrir þá, til að leggja með kjólinn sinn. Er slíkt fyrir afgamla kallhrotu, að stela peníngum til að kaupa sjer með skart? Það er bezt að tilbiðja aldrei neinn heilagan hjeðan af, en gefum við okkur heldur til lúterskra trúarbragða.

## XXIII. GÁTUR.

61). Skilníngarvitin. 62). Dagurinn í dag. 63). Nafar. 64). Netháfur. 65). Stika,

66). Únglíngum er jeg opt til prýðis og gamans, reiðir nota mig opt í bræði, ofsóktir til verndar, en gamalmennum er jeg altíð velkominn.

67). Jeg ber þúngar byrðir yfir vatnsföll, fen og foræði, samteingi gjár og hóla, en stend þó altíð kyrr.

68). Mitt ljós gefur ró.

69). Einn og annar trúir mjer fyrir leyndarmálum, því hann veit að jeg þegi, ef húsbóndi minn getur þagað. Stundum er jeg kvalinn, og stundum er verið að skemta mjer, en lángtum heldur kýs jeg mjer litla vísu, en alt gull og gimsteina veraldarinnar.

70). Farvegurinn minn er lítill, þó er lækurinn, sem rennur í gegnum hann út á eyðilandið, mjög frjófsamur. Ávextirnir, sem strax spretta, þegar vatnið rennur, eru ýmislegir, sumir góðir, sumir slæmir, sumir geymast vel og leingi, aðrir tortýnast fljótt. Ef flóð kemur, þá brýzt það ætíð út úr uppsprettunni, sem er skamt frá, en aldrei út úr farveginum.

## XXIV. SÆLA ER Á JÖRÐU, OG (GUÐ HEFUR) VELÞÓKNUN Á MÖNNUNUM. Lúk. 2, 14.

Í kvöld í rökkrinu voru börnin mín í baðstofunni, þegar mig bar þar að; á þeim lá mikið vel, voru samt galsalaus; jeg hugsaði, að nú væri þeirra hugskot opið, akurinn hentugur til að sá í einhverju góðu frækorni, en óvíst, hvort eins vel kynni að liggja á þeim eða sjálfum mjer um vökuna. Jeg gaf mig því á tal við þau, og sagði:

Prestur. Eitthvað þykir ykkur nú vænt um, jeg sje þið eruð svo hýrleg?

Lýður. Þjer vitið, af hverju það kemur, faðir minn góður!

Prestur. Vera kann það; en jeg vil líka, að þið segið mjer það.

Lýður. Þjer munið, hvaða hátíð var í dag?

Prestur. Jeg veit, að jóladagurinn var í dag. En hvað kemur til, að vel liggur á ykkur, þó svo sje?

Kristrún. Hún móðir mín er búin að láta sjóða svo mikið, og kertin voru svo mörg í kirkjunni, og sparifötin mín, sem jeg er í; skoðið þjer, faðir minn góður, eins var líka á jólunum í fyrra.

Prestur. Já, já, jeg sje það. En því er svo mikið viðhaft, ekki einasta hjerna á bænum okkar, heldur líka á öllu Íslandi, já, í allri kristninni; það er þó sjerlegt?

Guðmundur. Jeg get sagt yður það, faðir minn góður, drottinn vor Jesús Kristur var fæddur á jólanóttinni.

Prestur. Jólahátíðin er haldin í minníng þess, að hann fæddist. En margur annar mikill og góður maður hefur verið til, og þó er ekki þeirra afmælisdagur gjörður að svo stórri gleðihátíð; af hverju heldur þú að það komi?

Guðmundur. Af því einginn hefur gjört okkur svo mikið gott, sem Jesús Kristur.

Prestur. Hvað gott hefur hann þá gjört okkur?

Lýður. Hann hefur gefið okkur þá beztu lærdóma.

Prestur. Jeg gef ykkur líka góða lærdóma, þó er ekki afmælisdagurinn minn nein hátíð.

Lýður. Jesús Kristur kendi öllum mönnum, en þjer kennið svo fáum.

Prestur. Það er satt, sem þú segir. En Jesús gjörði mönnunum þar að auk miklu meira gott, en að kenna þeim. Hann frelsaði þær frá mikilli eymd, og ávann þeim aptur í staðinn mikla sælu. Er Jesú lífssaga þjer nokkuð kunnug?

Lýður. Já.

Prestur. Segðu mjer hana þá!

(Lýður leit upp á Magnús, og Magnús upp á hann, en öll börnin þögðu).

Prestur. Það er ekki von þið getið komið orðum að því, börnin góð! Jeg skal þá segja ykkur, hvernig til gekk, þegar Jesús fæddist.

Mjög illa gekk til í veröldinni, áður en Jesús kom í heiminn. Þar voru þá tvennskonar menn, heiðíngjar og gyðíngar, hvorutveggju í sáraumu ástandi. Heiðíngjarnir voru búnir að kasta fyrir óðal og gleyma öllu því, sem guð hafði sagt þeirra forfeðrum, en voru orðnir smámsaman svo fáfróðir, að

þeir hjeldu margir guðir væru til, og diktuðu upp margt heimskulegt og svívirðilegt um þessa guði. Heiðíngjarnir ímynduðu sjer, að þessir guðir lifðu í veizlum og ofáti, þeim kæmi ílla saman, væru að kýtast og lifðu svo vondslega, að hver einn sómasamlegur maður hefði mátt skammast sín að hegða sjer, eins og um þá var sagt. Af þessu reis margt ílt í veröldinni. Hinir einföldu hugsuðu, að ef guðirnir færu svo að ráði sínu, þá væri sjer óhætt að gjöra það sama, og svífðust þess vegna ekki að drygja marga stórglæpi. Þó yfirvöldin stundum bönnuðu slíkt, þá hafði það optast lítinn árángur, því þau gátu ekki komizt að öllu, eða hindrað margt, sem ílt var. Almúginn, sem trúði, að guðirnir skiptu sjer ekkert af, hvað sem hver hefðist að, og hegndu ekki fyrir það, sem þeir sjálfir væru sífeldlega að gjöra, hjelt sjer alt það leyfilegt, er þeir gátu leynt. Þeir skynsamari sáu af greind sinni, að öll þau æfintýri og lygasögur, sem voru í allra manna munni um guðina, væru diktur og ósannindi, trúðu þess vegna, að einginn guð væri til. Endur og sinnum fannst einn og annar spekíngur, sem uppgötvaði nokkuð af sannleikanum, og bar sig að telja þá trú, að mennirnir ættu að heiðra guð, og gjöra hið góða, en flestir hæddu slíka og hlógu að þeim, en allir gjörðu, eins og hverjum einum líkaði bezt sjálfum. Hinir ríku og voldugu undirokuðu þá fátæku, en fátækir sættu hverju tækifæri, sem þeir feingu, til að gjöra upphlaup. Rómverjar voru um þær mundir þeir voldugustu og skynsömustu af öllum heiðíngjum, en þektu samt ei sannan guð betur en aðrir. Þeir bygðu upp stórar hallir og glæsileg musteri, en dýrkuðu í þeim afguða-líkneski. Þar þeir hugsuðu, að guð skipti sjer ekkert af því, sem mennirnir hafast að, þá byrjuðu þeir eitt órjettvíst stríð eptir

annað, og þegar þeir brutu undir sig eitthvert land, þá var aldrei hugsað til, að láta þar vera skóla, kenna fólkinu neitt gott siðferði, eða þvíumlíkt, heldur svældu þeir undir sig peninga út af þeim, sem þeir yfirunnu, og svölluðu þeim út á eptir í óhófi og sællífi. Lesum einasta fyrsta kapítulann af sendibrjefi Páls postula til Rómverja, og skoðum þar, hvernig hann lýsir framferði Rómverja um þær mundir. Forfeður vorir voru þá vankunnandi og stjórnlausir, höfðu alt þeirra yndi af stríði, og sá var haldinn mestur maðurinn af þeim, og vænti sjer æðstu sælu í Valhöll, sem flesta menn hafði drepið. Svona voru þá heiðíngjarnir; en Gyðíngarnir voru litlu betri. Veiztu, Kristrún litla, af hverjum Gyðíngar eru komnir?

Kristrún. Af Abraham.

Prestur. Manstu, hvað jeg hef sagt þjer um einn mann hjá Gyðíngunum, sem kendi þeim, hvernig þeir ættu að breyta við guð og menn? Hvað hjet hann?

Kristrún. Ójá! hann hjet Móses.

Prestur. Hafði guð ekki látið nokkra góða menn skila til Gyðínganna neinu loforði frá sjer? Manstu, Lýður litli, hverju guð hafði lofað þeim?

Lýður. Endurlausnara.

Prestur. Já! það er rjett, en Gyðíngarnir voru í þær mundir eins slæmir og heiðíngjar. Þeirra yfirvöld, er kölluðust kennimannahöfðíngjar og skriptlærðir, voru ekki guðhræddir. Þeir lásu að sönnu lángar og margar bænir, svo aðrir sæu og heyrðu til, föstuðu líka; en í læmíngi báru þeir sig að sölsa til sín hús og góz munaðarlausra og fátækra. Þegar yfirvöldin breyttu svo, þá má nærri geta, hversu óguðlegir margir af enum undirgefnu hafi verið. Þeir væntu að sönnu þess endurlausnara, sem þeim var lofaður, en hugsuðu, að hann skyldi verða stríðs-

hetja, sem dræpi Rómverja niður í strá, en gæfi Gyðíngum aptur alt hinna ríkidæmi. Þess vegna voru þeir altjafnt reiðubúnir, að setja sig upp á móti Rómverjum, nær sem endurlausnarinn kæmi til að vera þeirra leiðtogi í því. Þeirra eigin sagnaskrifari Jósep, sjálfur Gyðíngur, segir, að syndir og lestir hafi svo almennir og stórir verið, að hefðu Rómverjar ei komið að drepa Gyðínga niður og eyðileggja þá, svo hefði samt jörðin orðið að opnast og svelgja í sig þá óguðlegu borg, Jerúsalem, og þær ófreskjur, sem þar í bjuggu. Svona var þá ástadt í veröldinni, þegar Kristur fæddist! það sýndist eins og öll guðs dýrkan og náúngans elska væri gjörsamlega útsloknuð, eins og veröldin væri orðin að morðíngjabæli, hvar hver maður væri að leita lags að drepa og myrða annan.

Gamall spámaður, að nafni Mikka, hafði spáð, að Kristur ætti að fæðast í Betlehem, en móðir Jesú átti ekki þar heima, heldur í Nazaret. Hefði Kristur fæðzt í Nazaret, þá hefðu Gyðíngarnir aldrei meðtekið hann, heldur sagt: hvað kemur þessi okkur við? Sá lausnari, sem guð hefur lofað okkur, á að fæðast í Betlehem.

En nú skuluð þið sjá, börnin góð! hversu dásamlega guð getur komið því fyrir, þegar hann vill hafa eitthvað fram. Allir hlutir í veröldinni, og jafnvel mennirnir, verða að hjálpa þar til, og það svo, að þeir vita ekki af því, hvað þeir gjöra.

Ágústus var í þær mundir æðsti stjórnari Rómverja, og þar eð Gyðíngaland var þá undir þeirra veldi, hafði hann líka yfirráð yfir Gyðíngunum. Ágústus skipaði þá, að allir Gyðíngar skyldu fara til þeirra staða, hvar hvers eins ætt var upprunnin, til að láta skrifa þar upp nöfn sín. María varð því að fara til Betlehem, af því að sá var ættstaður Davíðs

konúngs, forföður hennar; en meðan hún var þar þess erindis, fæddi hún Krist í heiminn, og kallaði hans nafn Jesús, því guð hafði ætlað hann til að gjöra alla menn sáluhólpna.

Nóttina, sem hann fæddist, bar nokkuð sjerlegt til, sem sýndi, að þetta barn mundi verða frábrugðið öllum öðrum. Á sömu nótt stóðu nokkrir smalamenn yfir fje sínu í haganum skamt frá Betlehem. Líklegt er þeir hafi verið guðhræddir menn, sem sín á milli hafi verið að tala um stjörnurnar, og horfa á himininn, ellegar og þeir hafi verið að tala um það góða, sem guð hefði þángað til gjört, eða framvegis mundi gjöra Ísraels fólki. Rjett í einu augnabragði varð himininn ljómandi. Þeir urðu hræddir, gættu nákvæmlega að himninum, og sáu einn af þeim öndum, sem kallast einglar, og hverja guð er vanur að senda til þeirra erinda, sem honum þóknast. Þessi eingill sagði til þeirra: óttist ekki, jeg segi yður frá mikilli gleði, sem alt fólk hefur feingið, því í dag er ykkur til góða sá endurlausnari fæddur í Davíðs borg, hver að er Kristur og drottinn. Síðan lýsti hann fyrir þeim staðnum, hvar barnið væri, og á hverju þeir gætu þekt það. Varla var hann búinn að tala þetta, fyrr en mikill fjöldi af einglum var kominn, sem saung lofsálm guði til æru. Mikil gleði má það hafa verið þessum góðu mönnum; þeir fóru strax að vörmu spori þángað, sem barnið var, og auðsýndu því lotníngu.

Skömmu þar eptir komst þetta barn í mikinn lífsháska. Heródes var þá af Rómverjum settur konúngur yfir Gyðíngalandi; hann var íllmenni, sem ljet drepa hvern þann, sem honum bauð við að horfa. Nokkrir skynsamir og góðir menn úr fjarlægu landi sögðu honum, að í Betlehem væri fædt það barn, sem mundi afreka eitthvað mikilvægt, og verða stór-

höfðíngi meðal Gyðínganna; þá varð hann hræddur og hugsaði með sjer: þegar þetta barn vex upp, þá kannske það reki mig frá ríkinu; það er bezt að fyrirkoma því, á meðan það er á barnsaldri, og getur ekki varið sig. Strax skipaði hann — æ, börnin mín, svo vondur getur maðurinn orðið, þegar hann lætur eptir bræði sinni, og svífist einkis, sem honum kemur í hug — hann skipaði, að öll börn, sem væru í Betlehem, eða nálægt þeim stað, tvævetur eða ýngri, skyldi drepa. Þjenarar hans voru eins grimmir og sjálfur hann, gjörðu þess vegna alt, eins og fyrir þá var lagt. Æ, hvaða skelfíng má hafa verið að sjá, þegar þessir böðlar hafa verið að stínga sverðunum ígegnum börnin, í kjöltunni á mæðrunum, og horfa á þessa meinlausa barnaúnga, sem hafa verið að veltast um í þeirra eigin blóði, en foreldrarnir að hljóða og gráta upp yfir þeim! En svo vildi Heródes hafa það. Hann hugsaði, þá gæti hann verið rólegur, því meðal þeirra mörgu barna yrði þó það að vera líka með, sem hann var hræddur við.

En honum varð ekki að því. Þegar guð vill varðveita einhvern, þá getur einginn konúngur, ekkert veldi, gjört honum mein. Guð var áður búinn að koma því svo fyrir, að barnið var burtu, fyrr en það hryllilega barnamorð skeði. Hann hafði í draumi sagt Jósep, fósturföður barnsins, að hann skyldi fara með barnið og móður þess til Égyptalands, og þeirri skipun hafði Jósep strax hlýdt. Sú bók, sem heitir barndómssagan Krists og er fyrir laungu skrifuð, er eintómis diktur. En það segir ritníngin oss, að í uppvexti sínum var Jesús gott, hlýðið og guðhrædt barn, sem kom sjer vel við alla, með hverju hann hefur sýnt öllum börnum, hvernig þau eigi að hegða sjer, svo guði og góðum mönnum sje vel við þau. Sómasamleg, hlýðin og góð börn leggja strax

í barnæskunni grundvöllinn til þess, að koma sjer vel, verða þessa heims farsæl, og annars heims án allrar mæðu í fullkominni velgeingni; þau hafa síns endurlausnara góða eptirdæmi fyrir sjer; ef þau feta í hans lítilætis, hlýðnis- og dygðaspor, þá er guð þeirra góður faðir, sem elur önn fyrir þeim, frelsar þau úr öllum háska, leiðir þau sjer við hönd, styrkir þau og blessar, og að síðustu tekur þau til sín í sitt eilífa dýrðarríki; og alt þetta gott (og margt miklu fleira, af hverju jeg kannske skal tala um nokkuð á morgun, ef guð lofar) eigum við Jesú Kristi að þakka, sem vor vegna fæddist í heiminn, lifði í fátækt, leið ofsóknir, og seinast herfilegan, kvalræðafullan dauða. Æ, börnin mín góð, styggjum hann aldrei með vondskufullu líferni, látum honum í tje það þakklæti, sem hann af oss heimtir, að breyta eptir hans boðorðum, að elska hver annan, lifa guðrækilega, sparlega og rjettvíslega í heimi þessum. Guð gefi okkur náð, vilja og krapta þar til vegna drottins vors Jesú Krists, amen! Sýngjum nú öll samhuga, börnin mín góð (seinasta versið af messu upphafinu í dag, Frelsarinn er oss fæddur nú):

Föllum nú til fóta Krists, o. s. fr.

## XXV. HVERSU OPT HEF JEG VILJAÐ SAMANSAFNA YÐUR, EINS OG HÆNAN SAFNAR ÚNGUM SÍNUM SAMAN UNDIR VÆNGI SJER, Matt. 23, 37.

Þegar jeg í kvöld var að spyrja börn mín úr messunni, mintu þau mig á loforð mitt í gærkvöldi, að jeg ætti að segja þeim frá nokkrum þeim velgjörðum, sem Jesús hefði gjört oss, og hverjar vjer aldrei hefðum öðlazt, ef hann ei hefði fæðzt í þenna heim. Þessar velgjörðir eru svo margskonar, að jeg sá mjer, ekki færi á, að nefna nema eina einustu

og valdi þá eptir guðspjallsins ávísun einúngis hans *kenníngar*, með hverjum hann leitaðist við að gjöra af öllum mönnum, Gyðíngum og heiðíngjum (á hverra beggja ástand jeg í gær hafði drepið), einn söfnuð, sem væri kostgæfinn til góðra verka, og svo heilagur, að hann væri hæfilegur til guðsríkis á himnum. Fjell þá talið fyrir mjer og börnum mínum, sem eptirfylgir:

Þegar Jesús var orðinn þrítugur að aldri, gjörði hann meira gott, en þángað til. Hann fór um alt Gyðíngaland, kendi fólkinu, hvað það ætti að gjöra, svo því liði vel í þessu lífi, og gæti rósamlega skilið við lífið í dauðanum; stundum prjedikaði hann á víðavángi, stundum í musterinu, stundum á fjalli, stundum á skipi, og öllum, sem ei af ásettu ráði forhertu sig, þókti vænt um að heyra til hans. Jeg vil ei nú nefna nema fátt eitt af því, sem hann kendi mönnunum. Magnús, hefur þú nokkur tíma beðið?

Magnús. Já, faðir minn góður!

Prestur. Þegar þú hefur á kvöldin verið búinn að tala við guð þinn góðan, búinn að þakka honum fyrir alt það góða, sem hann hefur auðsýnt þjer, og beðið hann að vernda þig, þína kæru foreldra og systkini, hvernig hefur þá legið á þjer?

Magnús. Vel, ofurvel; jeg hef sofnað svo sætt, eins og jeg lægi í fángi hans föður míns.

Prestur. Jeg trúi þjer vel til þess. Jeg hef átt margan gleðitíma um æfi mína; jeg hef opt haft ánægju hjá vinum mínum, en aldrei hef jeg verið eins vel til geðs, eins og þegar jeg hef beðið rjett hjartanlega. Þá hef jeg reynt og fundið, hversu lánsamur sá maður er, sem í raun og rjettri veru getur sagt: faðir minn! Jeg held eingin gleði geti jafnazt við það. Lýður! þú varst sjúkur í haust,

þó varstu optast þolinmóður, meir en von var til. Af hverju kom það?

Lýður. Jeg var sífeldlega að biðja guð.

Prestur. Hvað sagðir þú þá?

Lýður. Jeg veit, guð minn góður, að þú elskar mig, þú lætur barnið þitt ekki tortýnast; gef þú mjer heilsu mína, ef þú sjerð, að jeg geti orðið veröldinni til nokkurs gagns! En jeg er líka reiðubúinn til að deya, ef það væri svo þinn vilji. Jeg hef alltíð elskað þig, og mjer hefur alltíð sárnað, þegar jeg hef móðgað þig, svo jeg hef þá beðið þig fyrirgefníngar á því, sem mjer hefur orðið á, og viljað betra mig; jeg hef þess vegna þá von til þín, að þú munir vilja meðtaka mig, vesalíngs barnið þitt, í himnaríki.

Prestur. Og þá varst þú rólegur; þetta kemur ætíð af því, þegar einhver einlæglega segir guði frá því, sem að sjer geingur. Hvað ílt sem mætir okkur í veröldinni, þá ljettir okkur fyrir hjartanu, þegar við snúum huga okkar til guðs; það er svo sætt, það er svo rósamlegt, að hugsa til þess, að guð sjer vora nauð, og vill ljetta henni af oss, þegar vjer biðjum hann. Hver hefur kent okkur að biðja?

Lýður. Drottinn vor Jesús Kristur.

Prestur. Já, svo er það. Heiðíngjarnir höfðu eigi rjetta þekkíngu um guð, því nær einginn þeirra vissi, að þeir höfðu leyfi til að tala við hann, eða hvert guð vissi af því, að þeir töluðu við hann. Hefði Kristur ekki komið í heiminn, þá hefðir þú ekki haft alla þá gleðitíma, sem bænin hefur veitt þjer; þú hefðir þá farið á mis við þá huggun, sem þú hefur af henni haft. En Jesús hefur skipað oss að biðja, hann hefur kent oss, að vjer megum tala við guð, eins og föður, og þar hjá lofað okkur, að

guð vilji heyra okkar bænir. Magnús litli, flettu upp í nýa testamentinu Matt. 6, 6.

Magnús. Þegar þú biður, þá gakk inn í þitt svefnherbergi, lokaðu dyrunum og bið þinn föður, sem er í leyni; þá mun sá faðir þinn, sem sjer, hvað leynilega skeður, endurgjalda þjer það opinberlega.

Prestur. Það er falleg ritníngargrein. Þar upphvetur Jesús Kristur oss, að vjer skulum biðja einlæglega í einrúmi, þar sem einginn fipar fyrir okkur, biðja föður vorn, og lofar undir eins, að guð skuli taka eptir því, sem vjer tölum og gjörum einslega, og endurgjalda okkur það. Ykkur þykir vænt um sparifötin ykkar, og um það, sem þið eigið að borða núna um jólin. Hver gefur ykkur það?

Guðmundur. Þjer, faðir minn góður.

Prestur. Get jeg þá altíð lifað?

Guðmundur. Ekki held jeg það.

Prestur. Þegar jeg dey, hver á þá að sjá fyrir því, sem þið þurfið við?

Guðmundur. Hún móðir okkar.

Prestur. Þess megið þið vænta af henni. En þegar hún líka fer burt úr veröldinni?

Guðmundur. Þá verðum við að hafa fyrir okkur sjálf.

Prestur. Heldur þú þá, þú getir haft fyrir þjer sjálfur.

Guðmundur. Nei! það get jeg ekki. Jeg get ekki unnið fyrir helmíngi af því, sem jeg borða, því síður líka fyrir því, sem jeg þarf til fatnaðar.

Prestur. Vesalíngs börn, ef að faðir ykkar og móðir dæi frá ykkur, meðan þið eruð úng, þá kannske þið yrðuð að deya úr vesöld. Hvað heldur þú, Kristrún litla?

Kristrún. Æ, gjörið mig ekki hrædda, faðir

minn góður, sá góði guð lætur okkur ekki deya úr vesöld.

Prestur. Hver er sá, sem ekki lætur þig deya úr vesöld?

Kristrún. Guð minn góður!

Prestur. Hver hefur sagt þjer það?

Kristrún. Þjer sjálfir, faðir minn góður.

Prestur. Hvað hafði jeg þá fyrir mjer í því?

Kristrún. Þjer sögðuð það stæði í Biflíunni.

Prestur. Manstu, með hvaða orðum jeg sagði það stæði í henni?

Kristrún. Kastið allri yðar áhyggju upp á guð, hann ber umhyggju fyrir yður.

Prestur. Þetta er ypparleg huggun, börnin mín. Margt sorglegt og mörg bágindi falla opt upp á fyrir okkur, sem við getum ekki hjálpað okkur sjálf út úr. Við yrðum þá að yfirbugast af sorginni. En þegar við hugsum til þess: guð minn góður hefur umhyggju fyrir okkur, hann vill oss ætíð hið bezta, þá megum við vera róleg, og sleppa allri sorg, Þetta er líka eitt af því, sem við eigum Jesú Kristi að þakka. Það er ein af hans velgjörðum. En, Lýður litli, í fyrri vikunni lá ofur illa á þjer. Hvað gekk þá að þjer?

Lýður. Þjer vitið það, faðir minn góður, það komst strax upp.

Prestur. Ójá, jeg veit það. En segðu mjer það aptur núna.

Lýður. Jeg hafði ljeð honum Einari á Sandi bók, og reif hann úr henni tvö blöð, meðan hún var í láni hjá honum. Þess vegna lá svo illa á mjer, og jeg var að hugsa mig um, hvernig jeg gæti hefnt mín á honum aptur.

Prestur. Hvernig var þjer til geðs á meðan?

Lýður. Illa. Jeg gat ekki á mjer tekið; alt

var eins og utan við mig. Mjer þókti ekki maturinn minn eins góður og vant var, jeg gat ekki lært lekzíuna, sem mjer var sett fyrir, og ekki feingið af mjer að leika mjer, því jeg var sífeldlega að hugsa mig um eitthvert bragð, til að geta leikið á hann.

Prestur. Hvaða ráð gaf jeg þjer þá?

Lýður. Þjer sögðuð jeg skyldi sleppa þeim slæma ásetníngi, og verða aptur blíður og vinsamlegur við hann Einar; það heiði kannske orðið af ógáti, að hann hefði skemt bókina; þjer sögðuð mjer, jeg skyldi gefa honum kjólmanninn úr trje, sem honum hafði leingi leikið hugur á.

Prestur. Hvernig varð hann við þig, þegar þú gafst honum hann?

Lýður. Honum þókti ofur vænt um, kysti mig, og vildi gjöra mjer alt til þægðar. Hann fjekk líka hann föður sinn til að kaupa handa mjer nýa bók.

Prestur. Sagði jeg þjer ekki undir eins ritníngargrein?

Lýður. Jú, þjer sögðuð: elskið óvini yðar, blessið þá, sem yður bölva, gjörið þeim gott, sem hata yður, og biðjið fyrir þeim, sem yfirfalla og ofsækja yður.

Prestur. Hver heldur þú hafi kent mjer þetta?

Lýður. Drottinn Jesús Kristur.

Prestur. Á hann þá ekki skilið af oss, að vjer elskum hann? Mikla mæðu hefur hann sparað oss, að hann hefur kent oss þetta. Hatrið er beiskt, það skemmir alla vora gleði; en þegar vjer elskum hver annan, þá höfum vjer hugarhægð og ánægju. Þegar einn gjörir öðrum ilt, þá fer hinn að hefna sín og gjörir aptur á hans hluta, og þó hann ekki verði betur ánægður fyrir það, heldur hann samt áfram. En nú segir Kristur oss: vesalir menn, því

viljið þið gjöra ykkur lífið beiskt með hatrinu? Elskið hver annan innbyrðis! Og þó aðrir sjeu svo vondir að gjöra ykkur mein, þá gjörið þeim gott, þángað til þeir fara að verða góðir við ykkur, og biðjið guð að beygja þeirra huga. Þeir, sem hlýða Jesú Kristi, hafa gott af því, eins og þú, Lýður minn, þegar hann Einar sættist við þig.

En, mín elskubörn, öll mannanna eymd og armæða kemur af því, að þeir sækjast of mjög eptir sumum hlutum, og forðast aðra líka um of. Þar af kemur allskonar órósemi í sálunni, sem þurttekur eða mínkar gleði í lífinu. En drottinn Jesús hefur líka gefið oss þann góða lærdóm, að vjer eigum að temja vorar sterku girndir og lystíngar. Ef auga þitt, segir hann, hneykslar þig, þá ríf það út og kasta því frá þjer; það er: þegar þínar lystíngar ætla að ginna þig til einhvers ils, þá stattu á móti þeim, og þó þjer kynni sýnast það eins sárt, eins og að rífa augað út úr þjer. Allir, sem hafa hlýdt þessu, hafa haft gott af því, og reynt, að hann sagði sannleikann, þegar hann lofaði: hjá mjer skuluð þjer hafa sálar rósemi. Þeir hafa líka af hjarta þakkað honum fyrir þann góða lærdóm.

Nú, börnin góð! þessa gleði og fleiri hefur Jesús útvegað oss handa þessu lífi. Kristrún litla! þegar þú hlýðir Jesú Kristi, talar opt í bænum þínum við guð þinn góðan, trúir hans orðum, stríðir móti bræði þinni, einþykkni og öðrum löstum, heldur þú þá, þú getir lifað ánægð?

Kristrún. Jeg held það. Það liggur aldrei betur á mjer, en þegar jeg haga mjer vel.

Prestur. Þú munt líka óska þjer að lifa leingi?

Kristrún. Já!

Prestur. En ef dauðinn kæmi —

Kristrún. Æ! æ! þá yrði jeg hrædd.

Prestur. Því þá?

Kristrún. Jeg kvíði fyrir að deya. Jeg yrði þá að skilja við foreldra mína, systkini og alla kunníngja.

Prestur. Ætlar þú, að þú munir aldrei sjá þá aptur?

Kristrún. Jú, á himnum.

Prestur. Ætlar þú þar verði eigi eins fallegt, eins og er á jörðunni?

Kristrún. Jeg held miklu fallegra.

Prestur. Mundir þú þá ei vilja deya, ef guð þinn góður vildi hafa það svo?

Kristrún. Jú, ef guð vildi svo.

Prestur. En hver hefur sagt þjer, að þú skulir koma í himininn?

Kristrún. Jesús Kristur hefur lofað því.

Prestur. Magnús litli! hvernig hefur hann þá sagt?

Magnús. Þeir rjettlátu skulu gánga inn til eilífs lífs.

Prestur. Mikið má hann vera góður. Hann hefur kent okkur að þekkja guð, kent okkur, hvernig vjer getum haft margan gleðitíma með bæninni, og verið rólegir í stærstu eymdum, verið ánægðir, og þurfum ekki að hræðast sjálfan dauðann; og alls þessa hefðum vjer orðið án að vera, ef hann hefði ekki í heiminn fæðzt. Nú, börnin góð! Sýngjum honum til lofs og æru (seinasta versið af sálminum, Af föðurs hjarta barn er borið):

Ó, að vjer þá elsku þektum, o. s. fr.

## XXVI. MAÐUR, ER EI GAT SOKKIÐ Í VATNI, OG VATN, SEM EINGINN GETUR SOKKIÐ Í.

Í þetta sinn beiddu börn mín og fólkið mig að enda það, sem jeg fyrir nokkru lofað hafði, að segja

þeim dæmi upp á mann, er ekki gæti sokkið í vatni, og upp á vatn, sem einginn gæti sokkið í. Hvorttveggja sýndist þeim undarlegt, og höfðu þau gjört sjer ýmsar getgátur um, hvernig það gæti skeð, hvers vegna jeg leitaðist við að seðja forvitni þeirra á þenna hátt.

Á síðustu árunum, sem jeg var í Kaupmannahöfn, var í Neapólis á Vallandi prestur einn á fertugs aldri, lærður maður, sjera Páll Mokkía, sem gat gjört á vatni flest það, er aðrir hafast að á þurru landi. Hann gekk út á sjó, og ljet bylgjurnar halda sjer stöðugum, en sökk ei leingra, en vatnið tók honum upp á mitt brjóst, ljet svo hendurnar hánga niður með hliðunum, gekk þannig í vatninu, eins og það væri á landi; kæmi þá straumur eður bylgjukast að honum, gat hann ekki geingið, eða fært fæturnar áfram, heldur hjelt þeim saman, og víxllagði handleggina, ellegar hjelt þeim fast að búknum, og ljet svo strauminn bera sig upprjettan, en aldrei sökk hann. Í blæalogni átti hann bágt með að gánga, en brúkaði þá samt höndurnar eins og árablöð, hann gat líka staðið kyrr, þegar hann vildi, borðaði mat, þegar honum var hann færður, skrifaði eða las, væri honum feingin bók. Menn ljetu góða sundmenn fara til hans og taka í fæturna á honum, til að draga hann niður, hvar til þeir þurftu að neyta orku, og þá skaut honum strax upp aptur, þegar þeir sleptu honum; hann setti höndina undir kinn og alnbogann á vatnið, eins og þegar setið er við borð, og svo gat hann sofið, þó varð hann þá að taka fótinn hinu megin upp, og rjetta hann út ofan á vatninu. Hvorki gat hann synt, nje kunni það. Það var af hendíngu, að hann fyrst varð þess var, að líkama hans var þannig háttað. Í Vallandi er það mörgum svölun, þegar mikill er sólarhiti, að baða sig í sjó

eða vatni. Hann var einu sinni þannig með mörgum öðrum að baða sig, og fann, að hann gat aldrei til fulls stúngið sjer, reyndi hann opt til hins sama, varð svo smámsaman djarfari, þángað til hann vogaði sjer að gánga út í rúmsjó. Eins kunna að vera fleiri menn, einkum feitar og ljettholda kvennpersónur, en einginn veit það, meðan ekki er tilreynt. Aldrei hafði hann í sótt legið, svo þetta hafi getað þar af orsakazt, og ekkert sjerlegt var á honum að sjá, sem gjörði hann öðrum fráleitan; var að sönnu maður í feitara lagi, en ekki svo nein býsn væri, því hann vog 19 fjórðúnga. En orsökin til þessa hefur fundizt. Lærður maður nokkur mældi stærð hans nákvæmlega, og þá fannst, að hann var vel svo þrjátíu og átta mörkum ljettari en vatn, sem innilykst í jafnstóru rúmi, eða, eins og jeg á laugardaginn var kallaði það, hann var eðlisljettari en vatn, varð þess vegna ofan á því að fljóta. Jeg vil ekki eyða tímanum leingur um þetta dæmi, samt vil jeg, áður en jeg hjer við hætti, drepa á það, að ólíkt er þetta því, þegar Jesús Kristur gekk á vatninu; hann fór á móti ofsaveðri, hann mun ei, þar eð hann var sífeldlega á ferð fótgángandi, hafa verið holdugur maður, eins og hann sjera Mokkía var; líka þurfti hann ei annað, en skipa Pjetri að gánga á vatninu, hver strax ætlaði að sökkva, og loksins stöðvaði drottinn vor vind og sjó, strax sem hann var kominn upp í bátinn, með þessu kraptaverki búinn að hughreysta lærisveinana, og staðfesta þeirra traust til sín.

Áður en jeg segi ykkur frá hinu dæminu um vatn það, sem einginn getur sokkið í, verð jeg að minna ykkur á, að salt er eðlisþýngra en vatn; þess vegna ef þið látið glænýtt egg í vatn, þá sökkur það, en ef þið látið salt bráðna í sama vatni, fer

eggið að fljóta ofan á. Alt sjóarvatn er salt, og þess vegna eðlisþýngra en saltlaust vatn í regni, snjó, lækjum, ám og stöðuvötnum; er sjóarvatnið því saltara, sem nær er miðjarðarlínunni. Í miðjarðarhafinu er fimtándi partur þess salt. Þar af kemur, að í sjóarvatni eru allir hlutir ljettari en í ósöltu, og sá bátur, sem í þessu ber fjórtán menn, ber eins vel, og þó betur til, fimtán á sjó. Einginn sjór er svo saltur í heiminum, sem dauðavatn (mare mortuum) í Gyðíngalandi. Þetta stöðuvatn hefur ýmisleg nöfn í ritníngunni, og hjá heiðnum sagnaskrifurum. Sljettlendisvatnið mun það fyrst hafa heitið, 5. Mós. b. 4, 49., því það lá sunnan til við Jórdans sljettur; seltuvatn kallast það, 5. Mós. b. 3, 17; Jós. 3, 16. og 2, 3., líka víðar, og spámennirnir kölluðu það austurvatn, Esek. 47, 18., Jóel 2, 20., Sakk. 14. 8., því það lá mót austri frá Jerúsalem; Jarðarbiksvatn (lacus asphaltites) heitir það hjá sagnaskrifurum af biklími því, sem þar er nægð af; dauðavatn, af því ekkert rensli eður hræríng er í því. Tyrkjar kalla það brennusteinsvatn, og Arabiskir Lotsvatn, vegna þess staðirnir Sódóma og hinir fjórir voru í þeim dal, sem þetta fúla og ramsalta stöðuvatn nú fyllir. Jeg hef sagt ykkur öll þessi nöfn, bæði til að skilja, um hvaða vatn talað er í bókum, þó ýmisleg sjeu orðin upp á sama hlut, og líka af því að sjerhvert af þessum nöfnum bendir til ýmsra eiginlegleika vatnsins. Þetta vatn er svo salt, að allur fimti partur þess er eintómt salt, og þeir, sem rekið hafa andlitið á sjer niður í það, hafa fundið, að yfir það alt hafði sezt saltskurn. Hjer af kemur, að þar í finnst eingin lifandi skepna, og þar eð það er hið eðlisþýngsta vatn, sem menn til vita, svo sökkur líka einginn lifandi skepna í það. Vespasíanus keisari ljet til reynslu taka nokkra menn,

sem ekkert kunnu í sundi, binda hendurnar á bak þeim, og kasta þeim út í vatnið, en einginn þeirra gat sokkið. Aðrir hafa hossað sjer, og leitazt við að koma á kaf, en hafa ekki getað, hafa velt sjer eins og tunnu á vatninu, eða lagt sig ýmislega til að geta sokkið, en þeim hefur í eingan máta tekizt það, og þó þeir hafi stappað með fótunum niður í vatnið, hefur það að vörmu spori hafið fæturnar aptur upp úr sjer. Hvað mikið salt hjer sje í jörðunni, má af því nærri geta, að vatnið sjálft er góðar þrjár þíngmannaleiðir á leingd, en hálf önnur á breidd, renna í það tvær stórar ár, Jórdan og Arnon, og sex aðrar minni, þar að auk lækirnir Kedron og Sareð, en ekkert rennandi vatn kemur úr því aptur, svo sjáist. Þetta mikla salt er haft til matar, og innbúarnir flytja ekki alllítið af því til sölu í önnur lönd og hjeröð; safna þeir því þannig, að þeir gjöra grafir skamt frá vatnsbökkunum. Þegar mikill vöxtur er á vorin í Jórdan og fleirum ám, sem í dauðavatn renna, flóir það upp á bakkana, og fyllir upp tjeðar holur, en þá vatnsvöxturinn er úti, og vatnið af bökkunum runnið, sýður sólarhitinn og þurkar upp það vatn, sem í holunum varð eptir, svo það verður að salti. Þessar saltholur hafa frá aldaöðli verið brúkaðar, sem sjest af Sófon. 2, 9.

Þegar jeg að svo mæltu hætti, spurði Magnús minn mig að, hvað mikið munaði eðlisþýngd vatns og salts, svo og trjes, glers, og almennilegustu málmategunda. Til svars þar upp á taldi jeg honum upp eptirfylgjandi fáein dæmi upp á eðlisþýngd ýmislegra hluta eptir þeim grundvelli, að regnvatn vegi 100 lóð, vegur þá jafnstærð þess af

| | | | |
|---|---|---|---|
| lopti . . . . . . . . . . | $1\frac{1}{4}$. | brennuvíni hreinu . . | 86. |
| greni . . . . . . . . . . | 30. | tólg . . . . . . . . . . | 95. |
| terpentínolíu . . . . . | 79. | vaxi . . . . . . . . . . . | 96. |

| | | | |
|---|---|---|---|
| mjólk | 103. | látúni hamarsleg. | 835. |
| blóði | 104. | klukkukopari | 870. |
| kjöti | 106. | eiri | 878. |
| steinkolum | 124. | silfri smíðuðu | 1053. |
| salti | 214. | — — hreinasta | 1109. |
| gleri | 266. | blýi | 1140. |
| kristalli | 340. | kvikasilfri | 1358. |
| járni steyptu | 710. | dúkátagulli | 1826. |
| tini | 732. | hreinasta gulli | 1964. |
| járni smíðuðu | 784. | platínu eður hvítagulli | 2100. |
| stáli | 789. | | |
| látúni steyptu | 823. | | |

## XXVII. SJALDAN VELDUR EINN, ÞEGAR TVEIR DEILA.

Kona nokkur hafði það mótlæti, að bóndi hennar barði hana á hverjum degi, svo hún opt lá sjúk eptir, en þó optar, sem hún slapp með glóðarauga, eða tvær eða þrjár kúlur, sem hlupu upp á henni; hún fór til gamallar grannkonu sinnar, sem hafði orð fyrir að kunna margt, og ekki trútt um, að sumir hjeldu nokkuð væri forneskjulegt, því hún kom öllu fram, sem hún tók sjer fyrir hendur; aðrir afsökuðu hana samt fyrir því, og sögðu, að þar eð hún væri forsjál, aðgætin, og tæki vel eptir hugarfari allra þeirra, sem hún ætti nokkuð við að skipta, ynni hún þá svo, að þeir gjörðu alt, hvað hún vildi, því hún sá fyrir fram alt það, sem þeir höfðu losta á að gjöra. Þessi góða kona hlustaði með athygli á það, sem grannkona hennar þuldi fram um raunir sínar, og vegna þess hún bæði þekti konuna og manninn hennar, lofaði hún að gjöra sitt bezta, og brúka alla þá kunnáttu, sem hún hefði, til að ljetta þessu mótlæti á henni. Hún tók þá stóra krukku fulla með vatn, setti hana á borðið, gekk tvisvar

sólarsinnis og einu sinni andsælis í kríngum það, en var á meðan að tauta eitthvað fyrir munni sjer, síðan ljet hún þrjá smáa mola af salti í sama vatn, helti því síðan á flösku, og sagði: geymdu vandlega þetta vatn, og í hvert sinn sem þú sjer, að manninum þínum ætlar að fara að renna í skap, þá taktu gúlsopa þinn af vatninu, og jeg lofa þjer því, að svo leingi sem þú heldur því í munninum, skal maðurinn þinn ekki berja þig. Konan þakkaði henni hjartanlega, og forsómaði ekki að brúka þetta meðal, eptir því sem fyrir hana var lagt. Nú hafði hún eingan efa um, að þessi gamla kona væri galdranorn, því í þá heilu viku, sem vatnið dugði, barði bóndi hennar hana ekki einu sinni, því síður optar. Hún varð mjög sorgbitin, þegar hún sá, að flaskan var orðin tóm, fór því sem fljótast aptur til grannkonu sinnar, og beiddi hana að gefa sjer á hana af sama aptur. Þú þarft þess ekki með, fuglinn minn, sagði kunnáttu-konan. Vatnið er úr læknum, sem rennur milli bæanna okkar beggja, en orðin, sem jeg talaði yfir því, þýddu ekkert. Hvað um það, sagði aðkomandi konan, það vatn hafði þó þann krapt, að maðurinn minn hefur aldrei barið mig síðan. Það kom af því, svaraði gamla konan, að þú svaraðir honum eingu, því þú gazt ekki talað, meðan þú hafðir vatnið í munninum. Farðu nú heim aptur, og þegar þú sjerð, að maðurinn þinn er drukkinn, ellegar illa liggur á honum, þá í staðinn fyrir að jafnkýta honum ellegar vera svörul, önugleg í orðum, og ertin, þá einsettu þjer að þegja, rjett eins og munnurinn á þjer sje fullur með vatn, og þá muntu reyna, að honum rjenar reiðin. Þessu ráði fylgði konan trúlega, og það varð henni að góðu; því þegar bóndi hennar fjekk ekki leingur ill svör, vandist af honum að vera bráður til reiði, hann fór

þar eptir vel með konu sína, og elskaði hana heitt, strax sem hún var orðin gæf og hógvær.

## XXVIII. GÁTUR.

66). Stafur. 67). Brú. 68). Túnglsljós. 69). Eyra. 70). Penni.

71). Stóran brúka mig einasta bændur, en lítinn þeir, sem eru af æðri stigum; stór er jeg settur upp við vegg, en lítill látinn í nett hulstur: stór er jeg brúkaður einsamall til vinnu, en lítill þarf jeg optast annan með mjer til hjálpar.

72). Hvað er ómissanlegast við hverja máltíð?

73). Mitt eingi verður ekki slegið, fyrr en alt grasið er undir snjókrapi.

74). Ofan á mjer fer þú upp, og ofan á mjer niður. Þó verður þú vel að mæla mig með skrefum þínum, því þú getur ekki farið eins lángt og þú vilt, heldur ræð jeg því, hvað lángt þú fer, annars verður þú að staðnæmast uppi eða niðri.

75). Eins og jeg er, verð jeg. Sje jeg úng, þá verð jeg úng; sje jeg gömul, þá verð jeg gömul; sje jeg blíð, þá verð jeg blíð, sje jeg dimm, þá verð jeg dimm. Jeg hef augu, og sje ekki, eyru, og heyri ekki, munn, og mæli ekki.

## XXIX. (SPÁKONA ANNA) GEKK EIGI ÚR MUSTERINU, ÞJÓNANDI GUÐI NÓTT OG DAG MEÐ FÖSTUM OG BÆNAHALDI. Lúk. 2, 37.

Þetta (sagði jeg við börn mín) má ei skiljast svo, sem Anna hafi aldrei út úr musterinu farið, en hafi alt af verið að offra, og fremja þar opinbera guðs dýrkun, heldur 1) er það af lærðum mönnum fullsannað, að kvennfólk framdi hjá Gyðíngum ekkert opinberrar guðsþjónustu verk, nema einúngis að sýngja heilaga sálma, og að því leyti átti Anna

spákonunafnið, 1, Sam. 10, 5; Dóm. b. 4, 4., 5, 1; 1. Kor. 11, 5. En guðræknar kvinnur voru við þjónustugjörðina, lofuðu guð, þökkuðu honum, og tilbáðu hann, 1. Sam. 2, 24; Lúk. 2, 22. 38. 41. Eigi færi jeg samt þessu mínu máli til sönnunar 2. Mós. b. 38, 8., þar sem getið er um „þvert yfir frá „konunum, sem þjónuðu fyrir samkundudyrunum“ því þar skil jeg einkum, að fagrar myndir hafi verið til prýðis við samkundu-tjaldbúðardyrnar. 2) Anna mun ei nótt og dag hafa verið í musterinu, enn síður ætíð verið að biðja guð, og þakka honum, því það stenzt einginn maður í sífellu. Hjer er meiníngin, að hún, eins og vjer að orði komumst, var vakin og sofin í, ljet sjer um ekkert vera meira ant, en að vera á tilsettum fórnfæringa og guðsþjónustu tíðum í musterinu, og forsómaði það aldrei. Þannig takast orðin altíð og nótt og dag í ritníngunni Lúk. 24, 54; Sálm. 1, 2; Mark. 5, 5; Lúk. 18, 1. 7; Post. g. b. 10, 2; 20, 31.; 1. Þess. 2, 9. og 3, 10; 2. Þessal. 3, 8; 1. Tímót. 5, 5; 2. Tím. 1, 3, o. s. fr. En hvað eigum við af þessu að læra, börnin mín? Þessi háaldraða kona var svo kostgæfin í að vitja guðs musteris; en hvert ykkar var það, sem ljet skila fyrir sig til mín í morgun, að það mætti vera inni, og fara ekki í kirkjuna, því svo kalt væri?

Lýður. Það var jeg, faðir minn góður! mig næddi allan ígegn þegar jeg kom út í morgun, svo hvast og kalt var þá.

Prestur. Þegar ekkert gott á að gjöra, Lýður minn, nema það, sem maður þarf ekkert að leggja hart á sig fyrir, þá verður það mjög lítið. Jeg er hræddur um þá verði of heitt á sumrin, eins og núna var of kalt. En hann jafnaldri þinn, hann Þorsteinn á Hálsi, var þó við kirkjuna, og átti samt bæði á móti og lángan kirkjuveg. Samt tók jeg eptir, að

þeir voru ekki í kirkju, sem bæði áttu skemri veg, og líka voru eldri, og betur klæddir, en hann Þorsteinn.

Erlendur. Jeg veit þjer munið meina til mín, hússbóndi góður, en jeg var í kirkjunni báða hátíðisdagana, og þá veit jeg að ekki skipar fororðníngin manni að fara optar til kirkju, helzt á vetrardaginn.

Prestur. Heldur þú, Erlendur minn, að guð muni dæma þig einasta eptir fororðníngunum? Nei, sýslumaðurinn hefur þær sjer fyrir reglu í dómum sínum. En samvizka þín og guðhræðsla eiga að sýna þjer, að þegar þú átt heima á kirkjustaðnum, þá er þjer hægra um kirkjuferðir en öðrum, sem leingra eiga. Að sönnu þekki jeg þig, að það kemur ekki af guðsorða forakti eður guðleysi fyrir þjer, þó þú sjert optar frá kirkjunni, en þú þarft að vera, heldur er það af því þú veizt ekki, hvað mikið á því ríður, að vera opt við opinbera guðsþjónustugjörð, og þjer mun ekki í úngdæminu hafa verið haldið til þess, svo opt sem skyldi, ef það er satt, sem sagt er, að hann fyrri hússbóndi þinn hafi gjört sjer að reglu að koma ekki til kirkju optar en þriðja hvert sinn, sem embættað var, en kirkju ykkar bar ekki optar en þriðja hvern á sumar, og fjórða hvern á vetur.

Erlendur. Satt er það, hússbóndi góður, og því brá mjer svo mikið við, þegar jeg fyrst kom híngað í sókn, og mjer var sagt, þjer vilduð fólkið, sem gæti mist sig að heiman, og úngt og heilbrigt væri, skyldi koma hvern helgan dag til kirkju að forfallalausu. Jeg hef aldrei getað skilið það, að svo mikið ríði á kirkjuferðunum, þegar maður annars helgar hvíldardaginn.

Prestur. Hefðir þú, Erlendur minn, og margir fleiri hugsað eptir því, hvað stór velgjörð af guði

ein helgi í hverri viku er, þá þækti þjer og þeim ei svo lítið til kirkjuferðanna koma. Stóra velgjörð veitti guð með þeirri tilskikkun mannsins líkama, sem ætíð þarf endrum og sinnum að fá hvíld og endurnæríng, annars úttæmist hann og örmagnast af sífeldu sliti og stritvinnu. Samt var sú velgjörðin miklu stærri, sem þar með veittist sálunni. Ef hugurinn er sí og æ fastur við búksorg, líkamans vinnu og tímanlega muni, þá yrði ávöxturinn af því þúngsinni, dofinleikur til alls, sem sanna og staðfasta sælu snertir, og maðurinn mundi fljótt gleyma guði sínum, til hvers hann sjaldan hugsaði, ef hann hefði ei tiltekinn fastsettan tíma að upplypta sinni sínu og hugskoti, til að athuga hans gæzku og velgjörðir, sem hann á umliðnum sex dögum hefur mönnunum gefið, þakka honum fyrir þá, og biðja um guðs náð, vernd og aðstoð til að lifa vel, líða þolinmóðlega, og halda uppbyggilega áfram á lífsins skeiði tilkomandi vikuna. Til þessa þjenar lángtum betur, sameiginlega með mörgum öðrum í heilum söfnuði að sýngja guði lof, biðja í einíngu, og fá sameiginlegan lærdóm af kenníngum prestsins, en einasta að hlýða á lestur í heimahúsum. Allir, sem rjett aðgæta það, sjá líka guðs gæzku í því, að hann heimtar ei meira af oss, en einn daginn af sjö, en skilur oss eptir sex til að vinna á, og þar að auk er það enn ein velgjörð, að hann þennan eina dag ekki heimtar neitt af oss, sem oss þarf ervitt eður bágt að falla; því það er einasta að koma saman í hans húsi, til að vegsama og tilbiðja hann, sjálfum oss til betrunar, lærdóms og uppörfunar í því, sem oss er nauðsynlegast og ómissanlegast.

Sigurður. En var ei sabbatsdagur Gyðínganna partur af kirkjusiðum þeirra, og skuggi einn, þar sem vjer höfum sjálfan líkamann, Krist, og kristi-

legt frelsi, svo vjer ei þurfum leingur á því Gyðínga stafrofi að halda?

Prestur. Satt er þetta að nokkru leyti, Sigurður minn, en þar af má samt ei draga, að öll skylda vor áhrærandi einn helgan dag í viku sje burttekin og orðin að eingu. Sunnudagshelgin er hjá kristnum mönnum eins gömul og lærdómur nýa testamentisins; postularnir ljetu söfnuðinn þá koma saman, og hafa án efa útvalið þann dag, eða drottinn Jesús hefur tiltekið hann í minníng þess, að hann, endurlausnarinn vor, reis þá frá dauða, hverrar velgjörðar oss ber ætíð að minnast, og láta hana vekja upp fyrir oss, að vjer eigum af syndanna dauða upp að rísa, Róm. 6, 4. En það þú, Sigurður minn, sagðir um Gyðínganna sabbat, þá megum vjer guði fyrir þakka, að vor opinber guðsþjónusta er óvandari, ljettbærari og frelsismeiri en Gyðínganna; þeirra fórnfæríngar kostuðu fátæka mikið; siðalögmálið var margbreytt, þeir urðu að vera eins og á glóðum, hvert ekkert hefði mistekizt, ekkert lýti verið á fórninni, eingin yfirsjón í hreinsuninni og offursaðferðinni; það var bágt fyrir þá að vera óhreinir og skildir um stund og tíma frá allra manna samneyti fyrir hvern smámuninn, og þúngt að fara þrisvar á ári frá einum landsenda til annars að Jerúsalems musteri. Frá öllum þessum þýngslum erum vjer fríir, því guð heimtar nú ekki af oss annað en frjálsa, ljúfa og einlæga dýrkun munnsins og hugskotsins, sem fátækir geta eins vel í tje látið og ríkir; vjer þurfum ei að fara nema spölkorn, eins eða fárra klukkutímaferð, til kirkjunnar. Og getur sá þá kristinn heitið, sem lætur hvern einn smámun, litla skúr eða næðíng, halda sjer heima frá kirkjunni, og hindra sig frá að nýta sjer þá miklu guðs velgjörð, í hans söfnuði að lofa guð, vegsama hann og þakka

honum, betrast af guðs orða heyrn, og staðfestast í sönnum guðs ótta? Æ, hvað ólíkir eru slíkir Davíð konúngi, sem ekkert stærra yndi hafði, en að birtast í húsi drottins? Hvað yndislegur, sagði hann (ellegar Samúel, ef hann hefur sálminn ort), hvað yndislegur er þinn bústaður, herskaranna drottinn, mig sárlángar til að koma í forgarð drottins, mitt hjarta og hugur hrópa af gleði til hins sannarlega eilífa guðs, Sálm. 84, 2. 3.

Sigurður. En hvað er þá, prestur minn góður, sem maður á sjerlega að gjöra til kirkjunnar?

Prestur. Að vegsama guð, biðja hann, og betrast af að heyra guðs orð. Vjer vegsömum guð, þegar vjer samansöfnumst fyrir hans augliti, það er, hvar hans þjónustugjörð er framin, þökkum honum fyrir Jesúm Krist og allar þær velgjörðir, sem guð hefur veitt oss með honum, lofum og dýrkum guð fyrir alt það andlegt og líkamlegt gott, sem hann hefur látið oss í tje á umliðinni viku, gefið oss föt og fæði, verndað oss frá örbirgð, sótt, slisum og dauða, hjálpað okkur í okkar starfi og atvinnu, og blessað vorar útrjettíngar. Hjer til heyrir sjer í lagi saungurinn í kirkjunni; getur nokkur guðhræddur maður, sem hugsar um sálar velferð sína, og að hann birtist með mörgum öðrum sínum bræðrum fyrir guðs síns drottins augliti; getur, segi jeg, nokkur verið svo tilfinníngarlaus, að láta sig einu gilda, hvort hann er nálægur eða ekki, þegar heill guðs barna söfnuður sameiginlega með hug og raust sýngur drottni alsvaldanda lof og dýrð, prísar sinn guð með sálminum: Til þín, heilagi herra guð, Sælir eru, þeim sjálfur guð, og mörgum fleirum, en þó allra helzt þeim aðdáanlega sálmi: Heiður sje guði himnum á, eða, Alleinasta guði í himnaríki? Mikill sálardofi má vera, heldur að vilja slíma og

slóra einhverstaðar í nánd, en að hafa hlutdeild í svo yndislegu lofgjörðar verki!

Það annað, sem jeg sagði ætti að vera vort erindi til kirkjunnar, er að biðja guð, og á það mjög skylt við hið fyrr umtalaða, að vegsama hann; því þegar vjer þekkjum guð fyrir þann, sem vjer eigum alt gott til lífs og sálar að þakka, þá eigum vjer líka að biðja hann um alt það góða, sem vjer viðþurfum. Þess vegna er guðsþjónustugjörðin hjá oss byrjuð og enduð með bæn, og þeir gjöra illa, sem að nauðsynjalausu forsóma að vera við þá bæn; þeir mundu máske margir meira úr býtum hera af þjónustugjörðinni, ef þeir af hug og hjarta beiddu með kórdjáknanum, sem hefur upp orðin fyrir söfnuðinum, og minnir á það, sem oss ber þar að biðja um. Ykkur þarf jeg ekki að segja, að saungur og bænir mega ei vera einbert munnflapur; ykkur hefur svo opt verið sagt það, þið vitið, að guð bænheyrir ei aðra en þá, sem nálgast hann með auðmýkt, hreinum ásetníngi að hlýða honum, og sonarlegu trúnaðartrausti, sem gefur sig allan guði á vald, og lætur sjer alt lynda, sem hans speki álítur að vera þjenanlegast.

Hið þriðja, sem á að vera vort erindi til kirkjunnar er, að betrast afheyrn guðs orða, það er, að læra hvað guð heimtar af oss, hvað hann ætlar sjer með oss, styrkjast í trúnni á hann, og uppörfast til heilags lífernis. Þá vjer í úngdæminu lærum það, sem oss er nauðsynlegast að vita til vorrar sálar velferðar, þá þarf það fyrir oss að ítrekast, brýnast, og upp á margvíslegan máta að útlistast, ef það á að vera vakandi fyrir vorum hugskotssjónum. Freistíngarnar eru margvíslegar, móti þeim þarf þess vegna margvíslegar varnir, sem oss eru sýndar í guðsorða prjedikun, þar verða lastanna tillokkanir

og vonzkunnar veiðibrellur útmálaðar, og líka hvað gott dygðirnar með sjer færa. Yfirheyrsla úngdómsins í kirkjunni er eins nytsamleg: þar getur hver einn í huga sínum lesið svarið, sem úngdómurinn er að spurður, og fær þar að heyra útleggíngu yfir eitt og annað í barnalærdóminum, sem þá rifjast upp fyrir þeim fullorðnu; þeir geta þar líka tekið eptir mörgu, sem þeir á eptir kunna að kenna únglíngum heima hjá sjer, og leggja það eins út fyrir þeim, eins og presturinn gjörði í yfirheyrslunni innan kirkju, hvað mörgum kann að góðu gagni koma, þegar nýi barnalærdómurinn kemst á gáng, því í fyrstunni er hver einn hlutur torveldari, en þegar hann er algengur orðinn; og svo er um þann lærdóm, að svo auðveldur, liðugur og góður, sem hann er, mun óvaninn í fyrstu gjöra hann þeim örðugan, sem ekki brúka athygli og eptirtekt, hvernig hægast sje að innprenta og útleggja hann.

En í því jeg, börnin mín góð, nefndi athygli og eptirtekt, þá vil jeg ei gleyma því að lyktum, að biðja ykkur muna til þess, að allur ávöxturinn af kirkjuferðunum er undir því kominn, hvort þið brúkið athygli og eptirtekt, ellegar ekki. Vanti þetta, þá er allur saungur, bænir og guðsorða heyrn ykkur til einkis gagns. Um sálmasaunginn, þegar hugur fylgir ei máli, segir guð, Amos 5, 23. 24.; „hættu „með þína mörgu saungva! jeg get ekki feingið af „mjer að heyra upp á lofsálmana af saltaranum „þínum, en sannsýnin fljóti eins og lækur, og rjett„vísin eins og sírennandi uppspretta“; um bænina: „þessi lýður nálgast mig með vörunum, en hugurinn „er lángt þar frá“, Esaj. 29, 13., Mark. 7, 6., og um guðsorða heyrn: að sá, sem ekki heimfæri orðið upp á sitt ástand, eða kappkostar ekki að breyta eptir því, heldur er eptir sem áður eins hálfvolgur

og hirðulaus í því góða, eins fastur við sinn gamla syndavana og vondar tilhneigíngar, hann sje eins og sá, sem skoðar sig í spegli, en strax sem hann snýr við bakinu, er búinn að gleyma ásjónu sinni, Jak. 1, 23. Hann, sem sagt hefur: „hver sem elsk-„ar mig, sá varðveitir mín orð,“ Jóh. 14, 21. 23, gefi oss öllum náð til að elska, heyra, varðveita hans orð, og færa af því stöðugan ávöxt, svo hann aptur á mót elski oss, og innleiði í þá sælu, hvar vor sífeld iðja skal vera, að lofa og vegsama vorn góða guð, hafa okkar yndi af að tala um hann, og auka vora þekkíngu um hans dásemdarverk.

Samsýngjum þá öll Davíð konúngi, af sálmi hans 27. [1]

Jeg bið eins hlutar, herra guð! hann vil og gjarnan þiggja: að jeg mætti alla lífstíð í þínu húsi byggja, að horfa á, og heyra þá, heilögu guðs þjónustu, og vitja þess þíns musteres, þar læra orðin beztu.

## XXX. MARGUR ÁGIRNIST MEIR EN ÞARF.

Einu sinni var maður nokkur, sem ekkert átti í eigu sinni, nema einn aumlegan kofa á bakkanum hjá litlum læk, og lifði ei á öðru en þeim smámurtum, sem hann veiddi í læknum, hvað þó var harla lítið viðurværi; samt var hann ánægður í fátækt sinni, því hann girntist ekkert nema það, sem hann átti. Einu sinni kom honum í hug, að vilja sjá kaupstað, og einsetti sjer að fara þángað daginn eptir. Þegar hann var að velta þessari för fyrir sjer í huganum, mætti honum ferðamaður, sem spurði, hvað lángt væri til næsta þorps, svo hann gæti fundið bæ til að vera í um nóttina. Þángað er þíng-

[1]) Lagið er: Verði ætíð hvað vill minn guð.

mannaleið, svaraði fiskimaðurinn honum, en nú er orðið mjög framorðið; ef þú vilt vera hjer í kofanum mínum í nótt, þá er þjer það velkomið. Ferðamaðurinn þáði það, og fiskimaðurinn, er ætlaði að taka gest sinn, sem bezt hann gat, fór að kveykja upp eld, til að sjóða nokkrar murtar. Meðan hann var að þessu, saung hann, hló og ljek við hvern sinn fingur. Mikið máttu vera lánsamur, sagði gestur hans við hann, að vera svona kátur. Jeg vildi gefa alt hvað jeg á, til að geta verið eins glaður og þú. Hvað hindrar þig frá því, svaraði fiskimaðurinn? Gleði mín kostar mig ekkert, og jeg hef aldrei orsök til að láta liggja illa á mjer. Eða geingur nokkuð sjerlegt að þjer? Æ, svaraði ferðamaðurinn, allir halda jeg sje sá lánsamasti maður. Jeg var kaupmaður, og græddi mikla peninga, en jeg hafði aldrei ró eitt augnablik. Jeg var sífeldlega hræddur um, að aðrir mundu svíkja mig, vörurnar mínar kynnu að skemmast, eða skipin mín brotna af ofviðri, og þess vegna hætti jeg kaupverzlun, en reyndi til að verða rólegri, og kom mjer í hátt embætti hjá konúnginum. Í fyrstu varð jeg svo lánsamur, að geðjast honum vel, jeg varð uppáhaldið hans, og jeg hugsaði þá, að jeg mundi verða ánægður; en innan skamms sá jeg, að jeg miklu heldur var þræll konúngs, heldur en uppáhald hans. Sífeldlega varð jeg að láta á móti geði mínu, til þess að hans vilji feingi framgáng. Hann var gefinn fyrir dýraveiðum, en jeg fyrir kyrsetu, þess vegna varð jeg allan daginn að vera að ríða með honum um skógana, og þá jeg á kvöldin kom heim lafþreyttur, og mig blóðlángaði að fara að hátta, þá hafði frilla hans tilbúið dans eða veizlu, og mjer var sjer í lagi ætluð sú æra, að vera einn af boðsmönnunum, til þess að konúnginum mætti það betur líka.

Jeg varð þángað að fara, hversu sem mjer var það á móti; en konúngsins blíða huggaði mig þó nokkuð í þessu. Nú er nálægt hálfum mánuði síðan hann fór að tala blíðlega við einn af herranum, hvern hann hefur og látið útrjetta tvent smávegis, og sagt, að hann hjeldi sá væri skikkanlegur maður. Frá því augnabliki sá jeg fullkomlega, að jeg var tapaður, og nú hefur ekki komið dúr á auga mitt í margar nætur. En, svaraði fiskimaðurinn, leit þá konúngurinn reiðuglega til þín, eða hætti hann að halda leingur upp á þig? Ónei, svaraði þessi maður, konúngurinn var blíðari við mig, en hann var vanur; en gættu að því, að nú hjelt hann ekki upp á mig einan, og allir sögðu, að hinn herrann mundi innan skamms verða annað uppáhaldið. Af því sjer þú, hversu þetta er óþolandi, og þess vegna er jeg nú nærri dauður af ólund. Jeg gekk í gærkvöldi sorgbitinn í svefnherbergi mitt, og þá jeg var aleinn, grjet jeg, svo jeg flaut í tárum. Rjett í einu sá jeg stóran og svipgóðan mann, sem sagði til mín: Grímkell, jeg aumkast yfir þig; ef þú vilt verða rólegur, þá kasta frá þjer elsku til ríkdómsins og metorðagirnd. Æ, herra, sagði jeg við þenna mann: jeg vildi það hjartans feginn, en hvernig á jeg að fara að því? Farðu burt frá hirðinni, sagði hann við mig, og haltu áfram í tvo daga götuna, sem fyrst verður fyrir þjer; þú munt þá sjá vitleysu þess manns, og mun þá metorðagirnd þín læknast. Þegar þú ert búinn að ferðast áleiðis í tvo daga, þá farðu til baka sama veg, og vertu viss um, að þjer einum skal verða að kenna, ef þú ekki verður glaður og rólegur. Af hlýðni við þenna mann er jeg nú búinn að ferðast heilan dag, og ætla enn að halda áfram á morgun, en naumast get jeg vænt mjer þeirrar rósemi, sem hann hefur lofað mjer.

Þegar fiskimaðurinn heyrði þetta, gat hann ekki að sjer gjört að hlæa ekki að því, hvað heimskur þessi virðíngagjarni maður var, sem áleit alla sína lukku ríða á því, hvaða tillit konúngurinn hafði til hvers eins. Mjer skal vera kært, sagði hann við ferðamanninn, að sjá þig aptur, þegar þú ert búinn að gjöra góða ferð upp á þetta efni; haltu áfram ferð þinni, og að tveggja daga fresti komdu híngað aptur til kofans þess arna, því jeg ætla líka að ferðast; jeg hef aldrei komið í kaupstað, og jeg veit af því, að jeg muni skemta mjer þar vel, í öllum glaumnum, sem þar má vera. Það er mikil heimska fyrir þig, svaraði ferðamaðurinn; úr því þú ert, nú sem stendur, lánsamur, því viltu þá leitast við að gjöra þig ólánsaman. Kofinn þinn sýnist þjer nú nægilegur, en þegar þú ert búinn að sjá stórgarðana og hallirnar, þá sýnist þjer hann ofur lítill og aumlegur. Þú ert nú ánægður með fatnaðinn þinn, því þú hefur skjól af honum; en þjer mun svíða í hjartanu að sjá hann, eptir að þú ert búinn að aðgæta skart og viðhöfn ríkismannanna. Góðurinn minn, sagði fiskimaðurinn við gest sinn, þú ert nógu skorinorður að tala um að tarna, en brúkaðu alla þessa greind til að læra, að fúla ekki af því, þó einhver líti við öðrum eða tali til þeirra; heimurinn er fullur af þesskonar fólki, sem gefa öðrum heilræði, en kunna ekki að stjórna sjálfum sjer. Ferðamaðurinn svaraði eingu, því það er ekki siðsamlegt að kýta við hússbóndann í húsum hans. En daginn eptir hjelt hann áfram ferð sinni, og fiskimaðurinn byrjaði ferð sína. Að tveggja daga fresti kom ferðamaðurinn, Grímkell, aptur til kofans, svo að ekkert sjerlegt hafði fyrir hann borið. Þar fann hann fiskimanninn sitjandi í dyrunum, hann studdi hönd undir kinn, og starði á jörðina. Um hvað ertu að hugsa? spurði Grímkell.

Jeg er að hugsa um vesöld mína, svaraði fiskimaðurinn. Jeg skil ekki, hvað jeg hef syndgað á móti guði, að hann skuli hafa gjört mig svo fátækan, meðan fjöldi annara manna eru svo ríkir og ánægðir? Í sama augabragði birtist sá maður, sem hafði skipað Grímkeli að ferðast í tvo daga, og sem var eingill. Hvers vegna, sagði hann við fiskimanninn, fylgdir þú ekki ráðum hans Grímkels? Þegar þú sást, hversu glæsilegur kaupstaðurinn var, kom upp hjá þjer ágirnd og metorðaþorsti, sem hafa burttekið gleðina og rósemina frá þjer. Stöðva þínar lystíngar, og þá muntu fá aptur það, sem þú hefur mist. Það er hægt að tala, svaraði fiskimaðurinn, en mjer er það ei mögulegt, og jeg finn, að jeg verð sífeldlega vesall, nema guði þóknast kynni að umbreyta mínum kjörum. Það yrði þjer til óláns, sagði eingillinn við hann; trúðu mjer, og óskaðu einkis nema þess, sem þú hefur. Hvað sem þjer segið, svaraði fiskimaðurinn, þá getið þjer þó ekki bannað mjer að óska að komast í annað ástand. Guð bænheyrir stundum óskir þess drambláta, svaraði eingillinn, en það er þá í bræði, og til að straffa hann. Hvað kemur það yður við, sagði fiskimaðurinn; ef jeg þyrfti ekki annað en óska, þá skyldi jeg lítið kæra mig um hótanir yðar. Úr því þú vilt þína eigin ógæfu, sagði eingillinn, þá læt jeg það eptir þjer. Þú mátt óska þjer þriggja hluta, guð mun veita þjer þá. Fiskimaðurinn gat í hvorugan fótinn staðið fyrir gleði, óskaði að kofinn sinn mætti verða að glæsilegri höll; strax fjekk hann ósk sína uppfylta. Þegar hann var búinn að skoða og dázt að höll þessari, óskaði hann, að litli lækurinn, sem var fyrir framan dyrnar, yrði að stóru hafi; og strax fjekk hann sína ósk. Nú átti hann ekki utan þriðju óskina eptir; hann hugsaði sig nokkra stund um, og loksins ósk-

aði hann, að kænan sín yrði að stóru kaupskipi, sem væri hlaðið með gull og gimsteina. Strax er hann sá skipið, fór hann út á það til að skoða öll þessi auðæfi, er hann nú var orðinn eigandi að. En naumast var hann kominn út á það, fyrr en stórviðri kom upp á. Fiskimaðurinn ætlaði að fara á land, en þar var einginn vegur til. Þá fór hann að bölva sinni ágirnd, en þá var líka of seint að iðrast. Hafið braut skipið í spón, og uppsvelgdi eiganda þess með öllum hans auðæfum. Eingillinn sagði þá við Grímkel: lát þetta dæmi verða þjer til lærdóms. Þessa manns endalykt er sú sama, og optastnær verður fyrir þeim dramblátu. Konúngshöllin, hvar þú nú átt heima, er sá nafnkunnugi ólgusjór, hvar stormviðri og skipbrot eru algeing. Á meðan þú enn nú getur, þá komstu á land, því þar að kemur loksins, að þú óskar þjer þess, og þá kannske það standi ekki í þínu valdi. Grímkell varð hræddur af þessari sýn, lofaði að hlýða einglinum, og enti það. Hann fór burt frá hirðinni, til að búa á landsbygðinni, hvar hann átti stulku, sem var dygðauðugri, en hún var fríð eða rík til. Í staðinn fyrir að bæta við sitt mikla ríkidæmi, brúkaði hann það með temprun og sparsemi, til þess að geta gefið fátækum það, sem hann hafði afgángs af tekjunum; þá varð hann lánsamur og ánægður, og aldrei kom sá dagur yfir hann, að hann þakkaði ekki guði, er hafði læknað hann af aura og metorðagirnd, sem alt þángað til höfðu hindrað hans lán og ánægju

## XXXI. OPT ER VON VAKANDI MANNS DRAUMUR.

Vonin er í allra manna hjörtum, svo þegar allar aðrar sinnishræríngar hreyfa sjer ekki fyrr en tækifæri gefst, ellegar á vissum tímum æfinnar, þá

byrjar vonin strax, sem vjer getum borið saman vort þá verandi ástand við það, sem vjer gætum seinna feingið. Hún er vön að fylgja oss í öllum tilfellum, og um alla vora æfi, drífur okkur sífeldlega til að öðlast nýtt og nýtt, og lofar annaðhvort að mínka vora mæðu, eður auka farsældina.

Vonin er nauðsynleg í allskyns kjörum, stjett og standi; án hennar væru fátækt, sjúkdómur og þrælkan óþolandi. Sú stærsta lukka, sem nokkur kann að eignast í heiminum, getur ekki verið án vonarinnar, og það líf, sem lukka og náttúra hafa gjört hið farsælasta, mundi ekki sýnast mikilsvert, ef það væri ekki kryddað og prýtt með eptirvæntíng nýrra gæða, og þeirrar ánægju, sem enn er ókomin. Í hið minnsta getur ei hjartað orðið svo ánægt, sem mögulegt er, nema það hafi einhverja þá eptirlaungun, sem uppfyllast skal. Þó vonin bregðist opt, þá metum vjer samt hennar loforð meir en sjálfrar lukkunnar gæði, og vjer höldum mikið upp á hana, þó hún pretti okkur; því vjer hugsum, að loksins muni hún bæta það upp aptur, sem vjer missum í biðinni.

Jeg var að hugsa út í þessa undarlegu tilhneigíngu, sem finnst hjá öllum mönnum, og með hverju svo margur dregur sjálfan sig á tálar, og var jeg að vigta í huganum bæði ílt og gott, sem hún með sjer færir, þegar jeg óafvitandi datt í svefn, sýndist mjer þá alt í einu jeg vera staddur í svo stórum aldingarði, að jeg sá ekki út yfir hann. Alt hvað kríngum mig var, sýndist yndislegt. Jörðin var skrýdd öllu sínu skarti eins og á hásumardag, og allskyns fuglar súngu fagurt í skóginum. Þegar jeg sansaði mig, og fyrsta forundranin rjenaði, fór jeg að gæta nákvæmlega að þessum yndæla stað. Jeg sá, að það, sem nú bar fyrir augun, mundi vera lítið

að reikna hjá því, sem var skamt þar frá, jeg mundi finna fegri blómstur, tærari vatns uppsprettur og fallegri skóga, hvar fuglasaungurinn mundi enn betur lífga mig upp. Trjen í kríngum mig voru græn með ilmandi blómstrum, en lítið leingra burt voru þar að auki girnilegustu ávextir á þeim. Jeg ætlaði að taka þá, en áður en jeg komst að þeim, mistu þeir bezta litinn, eða duttu niður á jörð, svo þeir skemdust, og fuglarnir flugu undan mjer upp yfir eikurnar. Hvernig sem jeg flýtti mjer, sá jeg ánægjuna, en náði henni ekki, því það sýndist, eins og hún væri að ganta mig, og gefa mjer við fót, til þess jeg skyldi elta hana.

Þó mjer væri nú um og ó af þessari mæðublönduðu gleði, hjelt jeg samt alt jafnt áfram, og hugsaði jeg mundi loksins geta náð þeirri ánægju, sem jeg aldrei misti sjónar á, þó hún sýndist vilja skreppa frá mjer. Loksins sá jeg fjölda fólks af allskonar aldri og standi, sem allir sýndust að vera hluttakandi í sömu almennilegu farsæld. Á útliti þeirra var hægt að sjá trúnaðartraust, og ánægjan skein út úr augum þeirra. Samt var hægt eptir að taka, að sjerhver þeirra hafði innvortis leynilega gleði, sem sá hafði einsamall út af fyrir sig, og fáir ljetu á því bera, hvað þeir höfðu fyrir stafni, eða sögðu öðrum, hvað þá umvarðaði. Margir hlupu svo hart, að það sýndist, eins og þeir væru útlendir menn, er væru einasta á ferð að seðja forvitni sína. Jeg ljet mjer það þess vegna vera nóg að horfa á þá, en vildi ekki tefja þá með óþarfa spurníngum. Loksins fann jeg fjörgamlan mann, sem ekki gat fylgzt með hópnum; jeg talaði til hans, en hann snjeri sjer snúðugt frá mjer, og skipaði mjer að tefja sig ekki, því hann ætti nú von á, sá tími væri loks-

ins kominn, að til sín væri kastað ávextinum fyrir alt sitt erfiði, og skaðabót fyrir allan sinn kostnað.

Jeg skildi við þenna, og yrti á annan, sem á svipinn var blíður og viðmótsgóður; hugsaði jeg hann mundi betur taka undir við mig, en hann hneigði sig, og sagðist skyldi álíta sig hinn lánsamasta, ef hann gæti þjenað mjer, en í þetta sinn væri sjer það aldeilis ómögulegt, því það embætti væri nú komið undir að verða liðugt, sem hann hefði verið að sækja um í 30 ár. Jeg talaði þá til annars manns, sem þar var næstur, en hann flýtti sjer að ná arfi eptir föðurbróður sinn, sem upp á náttúrlegan máta ekki átti lángt eptir lífdaganna. Honum fylgdi ennnú einn, sem var að bera sig að ljúka við bók, er átti að prentast, og þess vegna hafði ekki tíma til að ansa mjer.

Nú sá jeg mjer tjáði ekki að spyrja aðra, og ásetti mjer þess vegna sjálfur að komast eptir því, sem mjer var forvitni á að vita, en sá í því úngan mann, sem vel lá á, og sýndist ekki að taka sjer neina sorg nærri. Upp á spurníngu mína svaraði hann: jeg væri í aldingarði Vonar Eptirlaungunardóttur, og allir þeir, sem hjer væru á ferð, geingjust fyrir loforðum vonarinnar, en keptust við af öllum kröptum að ná þeim gáfum, sem hún hefði í hendi sjer. Jeg leit þá hærra upp, hvar jeg sá gyðjuna í sínu hásæti; hún var úngleg að útliti, hafði í kríngum sig öll lukkunnar gæði, og allskonar ánægju, sem í heiminum kann að fást, var sífeldlega hýr og brosandi; en allir, er hana sáu, hugsuðu, að þessi náðar hýrleiki heyrði sjerhverjum þeirra til út af fyrir sig, og þókti, eins og hún metti sig meir en alla aðra; allir hinir höfðu sama trúnaðartraust, og voru í sömu leiðslu.

Jeg fór upp á háan hól, svo jeg gæti sjeð yfir

alt svæðið, og hvað hver af þeim hefði fyrir stafni, sem flyktust að gyðjunni. Jeg sá, að þeir komu inn um tvær dyr, er voru á Vonargerði. Annar þeirra gætti Skynsemi, en hina Innbirlíng. Skynsemi var vandlát og ekki mjúk á manninn, lofaði þess vegna fáum inn, og lokaði stundum dyrunum, þegar sízt varði. En Innbirlíng var hógvær og altjeleg, dyr hennar voru víðar, og hún tók vel móti öllum, sem sig buðu fram, svo þeim stóð gángurinn allt jafnt opinn, sem annaðhvort höfðu kviðið fyrir spurníngum hennar Skynsemi, ellegar hún hafði utilokað.

Þeir, sem komu inn um dyrnar hjá Skynsemi, komust til hásætis vonarinnar um örðugan, ósljettan, brattan og krókóttan veg, sem hjet Bratti-stígur. Þeir sáu ekki í fyrstunni, hvað torvelt var að komast hann upp, en reyndu það samt brátt; opt urðu þeir að standa við rjett í einu, þegar þeir hugsuðu eingin hindran gæti staðið þeim í vegi. Þeir mættu svo miklum bágindum á þessari ferð, hrösuðu svo opt, undu fót úr liði, í einu orði, komust í svo mikinn háska og óteljandi bágindi, að margir af þeim snjeru aptur, aðrir gáfust upp á miðri leið, en fáir komust til hásætis vonarinnar. Flestir af þeim síðast nefndu iðruðust eptir, að þeir hefðu gjört sjer svo mikið ómak, þegar þeir voru búnir að ná því, sem gyðjan hafði lofað, og sumir vildu gjarnan aldrei hafa feingið það. Hinir fóru burt með gáfur hennar, þeim fylgdi Spekin að Ánægjustöðum.

Eptir það gætti jeg að þeim, sem komu hinu megin inn um dyrnar hjá Innbirlíngu, en gat ekki sjeð, að nokkur vegur lægi þaðan til hásætis vonarinnar, jafnvel þó þessi gyðja sæist af öllum, og hún byði sífeldlega gáfur sínar með mildu og hugarlátlegu tilliti, bendandi þeim að koma nær, og taka við, hvar af allir glöddust í hjarta sínu. Vegurinn

var svo óviss og dimmur, að einginn varð var við, hversu ómögulegt var að komast þeim megin að hásæti gyðjunnar, en hver og einn ímyndaði sjer, að hann hefði fundið götu-stíg, sem einginn annar vissi af. Fjöldi manns var að reyna til upp á allan máta að komast áfram, en hvað sem þeir tóku til bragðs, gátu þeir aldrei nálgazt hásætið, samt horfðu þeir alt jafnt á vonina, og hlóu að þeim, sem fóru Bratta-stíg, og urðu þar mikið nærri sjer að taka.

Margir af þeim, sem voru í æðstu metum hjá Innbirlíngu, vildu ekki hafa stórt ómak fyrir að komast til hásætis vonarinnar, en fóru strax í Letidal, hvar einginn asi, ákafi eða skarkali var; þaðan blíndu þeir á vonina, og ætluðust til, hún mundi sjálf koma ofan til þeirra. Allir sem sáu þá, spottuðust að þeim, en þeir ljetu það ekkert á sjer festa, kærðu sig hvorki um brígzli nje fyrirlitníngu, en biðu í værð og makindum eptir því, að gyðjan kæmi að útbýta milli þeirra hennar gáfum.

Jeg fór að finna þessa góðu menn í Letidal, þeir voru líka boðnir og búnir til að svara mjer upp á spurníngar mínar, buðu mjer alúðlega að staðnæmast hjá sjer, og hafa hlutdeild í allri þeirra gleði; en í því snjeri jeg mjer við, og sá, hvar tvær ofboðslegar ófreskjur komu í dalinn, hjet önnur þeirra Örbirgð, en hin Elli. Þegar dalbúar sáu þær, hvarf burt öll gleði, en stunur, kvein og óp kom úr hverri krá, við hvað jeg hrökk saman og vaknaði.

## XXXII. RÁÐNÍNG GÁTNANNA.

71). Kvísl og þrítentur gaffall. 72). Munnurinn. 73). Skegg. 74). Stígi. 75). Máluð mynd.

## XXXIII. ÍLT ER AÐ EIGA ÓSKIR MARGAR, EF EINGIN KEMUR TIL BJARGAR.

Börnin mín og fólkið voru út af draumnum, sem jeg hafði sagt þeim í gærkvöldi, að tala sín á milli um vonina, hversu hvikul hún væri, og bezt mundi vera, ef maður gæti haft vissu sína um alla óorðna hluti, svo hvorki fallvölt von nje óþarfa ángist blektu hann. Meðan á þessu tali stóð, og sumt af fólkinu á pallinum var að óska sjer, það feingi að vita, hvað hjer eptir ætti á daga að drífa, kom jeg inn í baðstofuna, heyrði jeg þá, að einn sagði: að með því móti væri hægt, að búa sig undir hvað sem tilfalla kynni; annar, að þá þyrfti maður ei að hræðast það, sem mótdrægt yrði, eins og ef það kæmi að óvörum; þriðji, að ekkert væri svo sárt, sem gánga í þoku og blindni út í hvað eitt, og vita ekkert um endalokin. Geirdís vildi vita, nær hún mundi giptast; Sigmundur, hvað hluturinn sinn mundi verða hár, því það var fyrsta sinn, hann átti að vera formaður, en Sigurður, alt hvað á dagana mundi fyrir sjer drífa. Jeg gekk nokkra stund þegjandi um gólf, og ljet eins og jeg heyrði ekki, hvað verið var um að ræða, en þá Sigurður yrti á mig, og sagði: það vænti jeg yrði bezt og þarflegast, sem þjer mynduð óska yður fyrir fram að vita, prestur minn góður, ef þjer ættuð kost á um að velja?

Prestur. Hægt er það upp að telja, Sigurður minn, sem jeg vildi fyri fram vita, því það er ekkert.

Sigurður. Svo sem allir hafa vit og vilja til að óska sjer einhvers, svo er líka náttúrlegt, að hver einn vilji vita, hvort hann muni fá ósk sína, eða ekki.

Prestur. Það er sitt hvað, að óska sjer alls hins bezta, vilja vita óorðna hluti, sem oss viðkoma, eða að oss sje gott og þjenanlegt, að fá þá fyri

fram að vita. Ef jeg vissi, að sá spásagnar-maður væri til, sem gæti með sanni sagt mjer mína ókomnu æfi, þá skyldi jeg flýja hann og forðast, eins og dauðann sjálfan, og jeg er viss um, að væri nokkur slíkur maður til, þá væri hann veröldinni hinn skaðlegasti sem orðið gæti.

Sigurður. Þegar þjer takið svona djúpt í árinni, þá veit jeg ei, hvort þjer talið þetta, prestur minn góður, af alvöru, ellegar þjer eruð að reyna okkur. Er það mögulegt, að það sje skaði, að vita fyri fram forlög sín? Því þó ei væri það til annars, þá gleddist maður samt lángan tíma af láni sínu, ef hann þekti það fyri fram.

Prestur. Þó maður feingi einúngis að þekkja lán sitt fyri fram, og ekkert um mótlæti sitt, þá væri það jafnvel skaðsamlegt; því bæði væri það alleinasta til að vekja upp eptirlaungun til að vita meir, maður þekti ei lán sitt eður ánægju að heldur, þó hann vissi eina eður aðra ánægjulega greind af forlögum sínum, og þar til þækti manninum ekkert til hins góða koma, þegar það fram við hann kæmi, eptir að hann leingi hefði verið viss um að öðlast það. Sá sem fyri fram veit, að hann muni lifa fram á tíræðis aldur, vill líka vita, hvort hann muni með fram fá heilbrigði, heiður, ríkidæmi, barnalán, og meðan honum er alt þetta óljóst, þá er hann litlu nær en áður. Hún Geirdís þarna vildi vita, hvort hún á næstkomandi ári mundi giptast eða ekki, en þó henni væri sagt það, mundi henni líka vera forvitni um, hvort hún þá feingi gott hlutskipti, hver jörð henni hlotnaðist að búa á, hvernig fjárhagur hennar mundi verða, hvort fyrir henni ætti liggja að komast hart niður að börnum sínum, og ótal fleira. Gæfa og ógæfa eru ætíð í hvers eins manns líferni samfara; af þeim er alt efnið í forlög-

um vorum samantvinnað, og hvað meira er, það, sem almennilega kallast gæfa, er opt og tíðum vor stærsta ógæfa, eins og aptur á mót mesta gæfa vor margsinnis stendur á þeim fótum, sem alment kallast ólán. Þeir sem öðlast alt, hvað hugur og auga girnast, sællífi, auðæfi, metorð, og þurfa sem minnst fyrir atvinnu sinni að hafa, þeir þykjast eiga mesta láni að fagna, en á þessu svellinu verður þó flestum hættast. Þegar einn veit fyrir gæfu sína, þá þykir honum ónýtt, nema honum sje líka sagt, hvað leingi hún eigi að vara, og með hvaða atvikum hún komi, eða eigi að fara, en öll þessi vitneskja um óorðna hluti getur hæglega orðið til ílls eins, þeim sem slíkt yrði opinberað, hvar upp á jeg skal segja ykkur eptirfylgjandi dæmisögu:

Á eyunni Delfos í Grikklandshafi var musteri Apollós, hverju goði heiðíngjar eignuðu spáfaragáfuna, og leituðu hjá því frjetta um forlög sín. Þángað fór maður einn að nafni Semnon; hann fjekk það andsvar: „fyrir þjer liggur stórt happ, en það verð„ur þín ógæfa, ef þú færð að vita það fyri fram.“ Nú skyldu allir hugsa, að Semnon hefði hætt forvitni sinni; en huga mannanna er svo varið, að þeir trúa, og undir eins trúa ekki. Því, sem er eptir vild þeirra og ósk, trúa þeir, en hinu annaðhvort skeyta þeir ekki, ellegar þeir treysta sjer til með skynseminni að afstýra því eða stjórna, hvernig sem þeir vilja. Eins var Semnon; hans forvitni óx við það, sem búið var að segja honum, hann vildi endilega fá meira að vita, og hvað sem af því hljótast kynni, girntist hann að heyra forlög sín. „Þú munt, „sagði goða andsvarið, af konu þinnar ást öðlast „konúngstign og ríki, og stjórna þeim þjóðum, sem „aldrei hafa sjeð þig.“ Af þessu svari varð Semnon glaður og hróðugur, hann fór burt, og í huganum

var að setja sig til sem konúngur, gefa út rjettarbætur, fara í leiðángur og taka skatta, þó ekki ætti hann þá eina þúfu. Svo fljótur er maðurinn að trúa því, sem er eptir sjálfs hans geði! En hversu feginn og glaður, sem Semnon var, þókti honum samt vera nokkurs áfátt; hann hafði gleymt að spyrja að tímanum, nær hann mundi til konúngdómsins koma, og hvað leingi hann ætti að sitja að löndum. Af þessari óvissu varð hann ángurvær, biðin fjell honum laung, ef þessi gæfa kynni leingi að dragast, og lánið sýndist honum ekki ýkja mikið, nema það bæði kæmi fljótt og varaði mörg ár. Hann snjeri því til baka í musterið, og beiddi goðið enn þá að svara upp á þessar sínar spurníngar. „Mikið fávísir eru „mennirnir, varð svarið. Þeim til góðs er af guð-„unum tilsett, að þeir skuli ei vita fyri fram forlög-„in. Þú skalt þá vita, að innan skamms muntu kon-„úngur verða, og þjer sjálfum skaltu umkenna, þó „sú tign verði ei lánggæð; en sú hönd, sem leiðir „þig í hásætið, skal aptur frá þjer taka líf og kó-„rónu.“ Semnon fór strax eptir þetta þángað, sem stríð var tveggja þjóða á milli, vann þar mikinn sigur og sóma, varð æðsti ráðgjafi og hershöfðíngi drottníngarinnar, sem af yfirmáta elsku, er hún hafði á honum, setti hann í konúngssætið og til ríkja með sjer, og giptist honum. En strax sem Semnon, er áður hafði verið glaðsinna, viðfeldinn og jafnlyndur, var í þessa tign kominn, var öll gleði frá honum horfin. Drottníngin, sem var úng og fríð, elskaði hann eins og sinn augastein, en hana bæði elskaði hann og hataði undir eins, svo hversu sem hann ljezt sýna henni elskuatlot, gat hún samt ei annað en kent þess kulda og hryllíngs, sem hjá honum inni fyrir bjó til hennar. Þá óskaði hann sjer margsinnis, að hann aldrei hefði feingið forlög sín að vita;

þá hafði hann ekkert yndi af neinu, hvorki nótt nje dag. En sú kvöl varaði ei leingi: Drottníng gat ei annað skilið, en hann fyrirliti sig, og leynilega tæki einhverja aðra fram hjá sjer, vildi því hefna slíks óþakklætis og smánar, sem hann, svo að segja, strax eptir brúðkaupið svífðist ekki við að auðsýna henni, sendi flugumenn til höfuðs honum, og ljet drepa hann. Þetta hafði Semnon af að vita fyrir fram forlög sín.

Sigurður. Satt er það, prestur minn góður, að þetta var Semnons ólán, en ef menn vissu, hvað á dagana ætti að drífa, þá þyrftu þeir ekki að draga sig eptir neinni óvissu, og vinna svo margt fyrir gýg, sem þeir gjöra, þeir vissu þá, hvað sjer mundi að gagni eða ekki koma. og kynnu að tempra gleði sína og sorg yfir því, sem fyrir þeim liggur, þegar ekkert kæmi hraparlega eða óvörum að þeim.

Prestur. Vera kann, að það skjátli, Sigurður minn; því fyrst er það manninum gagnlegt að frama sig sem bezt, og vinna margt það, sem kann að verða öðrum til gagns, þó ei sjái þeir strax sjálfum sjer ábata af því. Mannstu ei til hennar Herdísar heitinnar hjerna í kotinu? hún var orðin vel fullorðin, áður en hún þetki einn bókstaf, en þegar hún heyrði, að einginn mætti í hjónaband gefast, nema þeir væri bóklæsir, fór hún alltíð, þegar hún komst höndunum undir, að láta kenna sjer að lesa, varð vel-læs, og fróð í guðsorða þekkíngu, og kendi það aptur út af sjer. Ekki varð henni samt auðið að giptast. En heldur þú, Sigurður minn, hún, komin yfir þrítugt, mundi hafa eydt svo mörgum stundum til bóklesturs, hefði hún vitað, að það aldrei ætti að koma sjer til þess gagns, sem hún óskaði og tilætlaði? Heldur þú, hann Jón heitinn í Holti hefði hýst svo vel hjá sjer, bygt mikla túngarðinn, sem þar er, og

stúngið fram veituna, ef hann hefði vitað, að hnnn átti svo skamt eptir ólifað, og að hann Geirmundur, mesti óvildarmaður hans, ætti að hafa næstu notin af því? Þau Jón og Herdís hefðu hugsað, að þau ynni fyrir gýg, ef þau vitað hefðu, að þeirra tilgángur skyldi að eingu verða, og hefðu ei stofnað það gott, sem þau gjörðu, hefðu þau vitað fyrir fram það, sem síðar framkom. Aptur á mót var það ógæfa hans Páls sýslumanns, að hann svo snemma fjekk veitíngarbrjef fyrir sýslunni hans móðurbróður síns; því þegar hann var orðinn viss um að fá embættið, tók hann aldrei bók sjer í hönd, og var búinn að týna niður því litla, sem hann í úngdæminu hafði lært, þegar hann að fimtán ára fresti þar eptir fyrst settist í dómarasæti, og þess vegna gaf hreppstjórunum einn heimsku úrskurðinn eptir annan. En þar að auki er mestur munur, Sigurður minn, nær maðurinn ætli að fá forlög sín að vita, því á sínum hverjum aldrinum þykir sama manni sami hlutur lán og ólán, eptir ýmislegu hugarfari, fjöri eða þekkíngu hans. Spyrjum, ömmu dóttur og dóttur-dóttur, allar að, hvað hver þeirra álítur að sje lán eða ólán, og uggir mig, sitt verði svarið hjá hverri. Hún Elín er sífeldlega að hlakka til að eiga hann Haldór, hún álítur ekkert fyrir lukku í veröldinni annað, en að giptast að eins árs fresti úngum, ferðugum, velklæddum og glaðlyndum listamanni. Elín er naumast tvítug, og þess vegna er henni varla láandi, þó hún gángist helzt fyrir útvortis áliti. Ef henni væri nú sagt, að hún ætti ei að giptast fyrr, en hún hefði þrjá um þrítugt, og fá þá þurrlyndan, fálátan og aldraðan ekkjumann með fimm smábörnum, hvaða lukku mundi hún álíta það? Og þó verður Elín upp á þenna hátt hin mesta gæfukona, en með Haldóri sínum,

ef hún feingi hann, hin ólánsamasta; og væri henni þetta sagt nú strax fyrir fram, mundi hún svo dragast upp af hugar-sorg og ángist, að hún ekki lifði, þar til hún hefði fulla þrjá um tvítugt. Þar aptur á mót, að þrettán ára fresti hjer frá, verður Elín búin svo að þekkja veröldina og sína sönnu gæfu, að þá þykist hún ei geta guði fullþakkað fyrir það hlutskipti, sem hana tvítuga hrylti við að hugsa til, ef hún þá hefði vitað, það ætti fram við sig að koma. Hjer við bætist, að hvað ílt sem maðurinn vissi fyrir fram, þá sæi hann eingan útveg til að komast hjá því. Nú meðan vjer ei vitum, hvað á dagana kann að drífa, og óvíst er, hvernin útfallið verður, höfum vjer von um, að eitthvað kunni ískerast, sem afstýrt geti yfirhángandi háska; en ef vjer vissum forlög vor áður, þá væri öll von horfin hjá þeim að sleppa, svo maðurinn hlyti að örvílnast.

Sigurður. Þess vegna er það líka, prestur minn góður, sem jeg vildi vita alt, hvað á dagana á fyrir mjer að drífa, svo jeg geti afstýrt því, eða búið mig undir það; því til þess er manni skynsemin gefin, að hann forði sjer við illu, og hafi útvegu til, að öðlast það gott, sem hans standi sambýður.

Prestur. Það er, að maðurinn skuli undir eins vita, og ekki vita; forlögin skuli vera sönn, og endilega framkoma, en samt skuli standa í mannsins valdi, að komast hjá þeim og geta umbreytt þeim; hann skuli vera alvitnr og almáttugur, og geta þekt, stýrt og stjórnað öllum tilfellum, verkunum og atvikum, með sjerhverju því er þar af kynni að fljóta og hljótast. Slíkt er ómögulegt, því sá yrði að vera guð, en ekki nein sköpuð skepna, sem þetta gæti. Jeg skal segja ykkur dæmisögu um mann nokkurn, er hafði sama traust á skynsemi sinni í þessari grein, eins og þú gjörðir ráð fyrir, Sigurður

minn, en hverjum þó ekki varð að því, þegar til efnanna kom.

Á fyrri öldum, meðan huldufólk, nornir, völvur, dvergar, álfar og valkyrjur geingu um kríng i dularklæðum, og skiptu út gáfum sínum, gekk valva ein um stræti borgar nokkrar, og sá mann sitjandi, eins og höggdofa, hann var vel klæddur, svo ei var á honum að sjá, að örbirgð stæði honum fyrir hugskotssjónum, þó studdi hann hönd undir kinn, gáði einkis, sem framfór, og dæsti þúngan. Ferðakonan gaf sig á tal við hann, spurði hann að vegi, en fjekk varla svar út úr honum. Jeg heyri, sagði hún, yður býr eitthvað þúngt fyrir brjósti; má jeg vera svo djörf, að spyrja, hvað það er, því mjer býður svo hugur um, jeg muni geta hjálpað yður? Hann leit til hennar brosandi, og sagði: þá ertu ekki öll þar, sem þú ert sjeð, skepnan mín, ef þú gætir gjört mig rólegan, allra helzt þar eð sorg mín kemur af hláturlegri orsök, sem jeg varla þori að láta ábera við nokkurn mann. Jeg er kaupmaður og stórauðugur, auk þess sem jeg ábatast á verzlun minni, jeg er heilbrigður, ekkert amar að mjer, jeg á konu og þrjú börn, hver jeg elska, og þau elska mig, samt er jeg ekki rjett lánsamur. Mjer er sífelt fyrir hugskotssjónum, hversu óvíst það er, hvað leingi jeg muni eiga þessu láni að hrósa, og það geti skeð í augnabliki, að jeg missi það, svo jeg er í minni nærverandi lukku alt af hræddur um eptirkomandi ólán. Jeg er hvern dag óttasleginn fyrir, að jeg þá, eða á næsta degi eptir, kunni að missa konu mína, börnin mín, góz og auðæfi, heilbrigði og lífið. Þú sjerð, að hversu hláturlegur sem þessi kvíðbogi er, þá er þó mikið satt í honum, og jeg get ómögulega verið lánsamur með honum, því þess meira sem mjer geingur í vil í allan máta, þess

meiri verður hræðslan hjá mjer, að jeg kunni að missa það. Nú, satt er það, svaraði konan, að yðar ástand er undarlegt, því heldur sem flestir menn óska sjer að vita það, sem síðar áfram við þá að koma, af því þeir vænta sjer láns og betri kjara, en þeir þá hafa, og þessi von um betri lukku huggar þá í mörgum mannraunum. Ekki get jeg að því gjört, sagði maðurinn, mjer sýnist þó sífeldlega eins og vor stærsta mæða í lífinu sje sú óvissa, sem vjer höfum um eptirkomandi forlög vor. Það er eins og vjer gaungum í myrkri og þoku á mjórri fjalarbrú, hvar heldýpi er á báðar síður, og opt fleygjum við okkur ofan í þann afgrunn, rjett í því við erum að forðast hann. Sæi maður fyri fram þá ógæfu, sem yfir hann á að koma, svo vissi hann, á hverju hann ætti von, gæti þá hagað athöfnum sínum svo, að hann kynni að forðast hana, ellegar bæta hana upp aptur, þegar ráðin væru tekin í tíma. Jeg veit ekki, svaraði aðkomandi konan, hvort mennirnir yrði lánsamari fyrir það, þó þeir vissu fyri fram forlög sín, en við skulum reyna það samt. Strax í upphafi á hverju ári skuluð þjer fá að vita alla þá ógæfu, sem yður á því að mæta. Jeg óska, að sú opinberan gjöri yður rólegri, en þjer eruð. Maðurinn hjelt, að kerlíngin væri ekki með öllum mjalla, og fór að hlæa að henni, en hún ljet, sem hún sæi það ekki, og hjelt áfram sinn veg.

Að fárra ára fresti var kerlíng þessi enn á ferð, lá þá leið hennar fram hjá einhverjum enum aumasta kofa, sem varla var hundi verandi í, því síður manni. Utan fyrir dyrunum á þessu hreysi sat vesall bæklaður maður, svo hún ómögulega gat þekt, að það væri sá sami, sem hún áður hafði talað við; en hann var þess fljótari til að þekkja hana, varð strax fokreiður, og jós á hana öllum þeim skammar-

yrðum og brígzlum, sem hann gat uppfundið, ljet svo dæluna gánga, meðan hann gat. Jeg vorkenni þjer, sagði hún, þó þjer sárni. Jeg hefi unnið til allra þessara brígzlyrða. En mjer er forvitni á að vita, hvernin tilgekk, þegar þú varst búinn að fá kunnáttuna, að vita fyri fram óorðna hluti. Kannske jeg geti nokkuð hjálpað til að mínka ógæfuna, sem þar af hefir hlotizt, og móti vilja mínum og ásetníngi kann hafa af mjer staðið. Ekki með öðrum skilmála, en þeim, get jeg fyrirgefið þjer það, sem híngað til hefur við mig framkomið, svaraði hann. Mikið blindir eru mennirnir, þegar þeir vilja sjá fyri fram það, sem guðs forsjón hefur í sinni við þá! Mikið heimskir eru þeir að hugsa, þeir geti forðazt það, sem fram á að koma. Hvað opt verður sjálf forsjálni þeirra, þegar þeir ætla sjer að koma í veg fyrir ólán sitt, meðalið til að steypa þeim í sama ólán! Til að sanna þetta, þarf jeg ekki annað en segja þjer, hvernin mjer gekk.

Þegar þú varst frá mjer farin, fannst mjer hver stundin laung, þángað til fyrsti dagurinn í árinu kom, og jeg kvaldist milli vonar og ótta. Loksins kom sá dagur, sem jeg svo leingi hafði eptirþráð; þú mátt nærri geta, hvað hræddur jeg varð, þegar mjer vitraðist, að báðir fótleggirnir í mjer skyldu brotna, og það lægi fyrir mjer að missa allar eigur mínar, og vitið með, áður en árið væri á enda. Þar eð spáin sagði mjer, að fyrsta ógæfan ætti að koma yfir mig á sama mánuði, sem þá byrjaði, svo hugsaði jeg með mjer, jeg skyldi koma í veg fyrir það, með því að fara aldrei á fætur úr rúminu; jeg forsómaði alt, hvað jeg átti að gjöra, og þó öll veröldin hefði verið í boði, hefði jeg ekki hrært mig fótmál burtu; á sjöunda degi, þegar kona mín var í búrinu og kaupsveinninn í sölubúðinni, hvort að sínu verki, datt

16*

loptið ofan yfir mig, af því þúngar vörur lágu uppi á því, en bita-höfuðin voru orðin fúin, og hittist svo á, að bitinn með öllum þýngslunum datt ofan á fótleggina á mjer, sem brotnuðu, og jeg var dreginn upp úr brotunum, og öllu því, sem á mjer lá, hálfdauður og marinn á öllum líkamanum, s[illegible] varla sást á mjer mannsmynd; en það versta var, að jeg af hræðslu og ofboði misti vitið. Mörg ár voru beztu læknarar að leitast við að koma mjer til heilsunnar aptur, og loksins tókst þeim það, en þá voru allar mínar eigur uppgeingnar, og jeg átti þá einkis úrkosti, nema að fara í hreysi þetta, hvar jeg hefi af fyrir mjer með að formæla þjer og þinni kunnáttu, og kvíði fyrir hverju nýári; því jeg er þá hræddur um, jeg fái einhverja ógæfuna að vita fyri fram, og muni jeg þá missa vitið aptur að nýu. Ekki skaltu leingur þurfa að kvíða fyrir því, svaraði konan, því þú skalt ekki hjeðan af vita fyri fram, hvað fram við þig á að koma; en mundu til þess, að ein af guðs mestu velgjörðum er sú, að hann ljet mennina ei vita fyri fram ólán það, sem þeir mundu í rata, og það er sú mesta heimska að hafa hugarvíl af því, áður en það áfellur, ellegar ætla sjer að skapa lán sitt eða fyrirbyggja ólánið. Treystú nú guðs alvísu forsjón, sem ætíð vakir yfir oss; hann verndaði konu þína, börn og hjú, sem treystu honum, þú einsamall ætlaðir þjer að hafa betri forsjón, en reyndir, svo sem maklegt var, að þú varst of skammsýnn. Láttu þetta þjena þjer til lærdóms. — Jeg skal þar að auki bæta þjer skaðann og gjöra þig eins ríkan, og þegar þú fannst mig. Hjer er fje grafið af fornmönnum í jörðu, svo víkingar ekki næðu því; brúkaðu það, byrjaðu aptur kaupverzlun þína, og í staðinn fyrir að vilja sjá fyri fram forlög þín, þá nýttu þjer það góða, sem guð gefur þjer, en sleptu öllu

hugarvíli fyrir því, sem þjer kynni eptirleiðis mótdrægt tilfalla.

Sigurður. Jeg sje, að óláns tilfelli getur maður ei umflúið, þó hann vissi þau fyri fram, því þau eru svo margvísleg, að þó búið væri að komast hjá einu, gæti vel skeð, að þar með rataði maður í annað miklu stærra. En jeg held, prestur minn góður, að öðruvísi sje láni og gæfu háttað. Þau þarf maður ei að umflýa, eður bera sig að breyta þeim, heldur einasta taka á móti þeim með þakklæti, búa sig sem bezt undir þau, og hafa þess leingri tíma til að gleðja sig í voninni yfir þeim.

Prestur. Eigi maður að vita fyri fram forlög sín, þá mun það vera bæði í blíðu og stríðu, mun þá flestum ofbjóða andstreymið, en þykja lítið til hins koma. Ef hann Vilhjálmur ætti nú fyri fram að vita, að hann á í stríngri vist að vera, hjá eptirgángssömum hússbónda í tólf ár, setja saman af litlu, fá örðuga jörð, og verða fyrir fjárskaða á þriðja búskaparári, strax sem hann sjer, að nokkuð fer að blómgast hjá sjer, að hann á með heilsuveikri konu og mörgum börnum að berjast alla æfi við bágan búskap, svo þó hann ætíð muni hafa nóg fyrir sig og sína, stæði samt optast í harðviði fyrir honum, og loksins deya útslitinn af þreytu og mæðu, áður en hann sæi nokkuð af börnum sínum gipt, eða þau komin til manns, mun honum virðast þetta mikið lán? Og þó er það raunar gæfa hans. Eptirgángssemi hússbóndans er sú, sem kennir Vilhjálmi að vera vinnusamur, þrifinn, ala börn sín upp til manndóms og iðjusemi, og fara vel með jörð sína. Opt hafði Vilhjálmur, meðan hann var vinnumaður, andvarpað yfir vinnuhörku hússbóndans, og opt í huganum heitið fyrir sjer, að þegar hann yrði sjálfs síns, skyldi hann ekki leggja svo þúngt á sig. En

nú var það Vilhjálms lán, að hann setti saman af litlu, og fjekk svo örðuga jörð, að hann gat ei haldið það loforð, nema hann sæi vergánginn opinn fyrir augunum, en Vilhjálmur hafði meiri sómatilfinníngu og guðhræðslu til að bera, en að hann með leti og atorkuleysi vildi hleypa sjer og sínum út á hússgáng. Fjármissir hans á þriðja búskaparári var honum bezti lærimeistari til uppápössunar, og heilsuveiki konunnar æfði hann í þolinmæði og bænrækninni. Svo holt var Vilhjálmi mótlætið. En mundi hann á tvítugs aldri hafa þekt það, eða mundi hann ei miklu heldur hafa örvílnazt, aldrei verið með hýrri há, og máske af hugarsorg orðið sjer og öðrum ónýtur? En nú þegar þetta andstreymi kom smámsaman, og aldrei var alt í einu fyrir hans hugskotssjónum, vonin, að því mundi ljetta, og að hann á ellidögunum, þó ekki væri fyrr, mundi fá hvíld, og mega njóta handaverka sinna, hjelt honum við, og loksins, að lángvarandi reynsla smámsaman hafði kent honum, að fleira er guðs blessan, en að hafa allsnægtir með iðjuleysi, svo gat Vilhjálmur verið síglaður, haft allra góðra manna hylli og virðíngu, sjeð börnum sínum fara fram í öllu góðu, og með góðri samvizku skilið glaður við heiminn, eins og sá daglaunamaður, sem veit með sjer, að hann er búinn með sóma að ljúka af verki sínu, og á sjer þess vegna víst, bæði að fá kaupið óskert, og að hússbóndanum líkar vel við sig. Vonin gjörir alla byrði ljettbærari, og þið munuð muna til draumsins um Vonargerði, sem jeg las ykkur í fyrra dag, er sýndi, hvaða ánægju, hvaða atorkusemi, hvaða líf vonin gefur, en alls þess færu þeir á mis, sem vissu forlög sín fyri fram.

En, fyrir utan það, að slík vitneskja mundi gjöra þann ólánsaman, sem feingi hana, þá mundi þar að auk sárilla tilgánga í veröldinni, ef sú gáfa væri manninum ljent: það sem

einum er ólán, er opt og tíðum og verður öðrum að láni. Vissi þá hver einn yri fram, hver ollandi ætti að verða þess, sem hann álítur ólán sitt, hvaða hatur, hvaða kærleiksleysi mundi þar af rísa og algeingt verða? Hann Vigfús tók hann Gunnar sjer vandalausan, bláfátækan og munaðarlausan, ól hann upp eins og sinn eiginn einkason, gekk nærri sjer að halda honum til siglíngar, trúði honum fyrir öllum sínum leyndarmálum, og Gunnar nýtti sjer þau síðan svo vel, að Vigfúsi var frá embættinu vikið, en Gunnar fjekk það aptur. Mundi Vigfús hafa elskað fósturson sinn, og alið hann svo vel upp, hefði hann vitað þetta fyri fram? En af því Vigfús vissi það ei, svo hefur bæði hann nú góða samvizku og sóma af dygð sinni, landið á dugandis embættismann, þar sem Gunnar er, sem getur úngur tekið við, hvar Vigfús elli vegna annars innan fárra ára hefði ei getað staðið straum af embættinu, og Gunnar getur nú aptur borgað landinu, það sem búið er fyrir honum að hafa, með því að ala upp og manna aðra nytsamlega menn. Hvað ílt mundi af því hljótast (og tek jeg ei nema eitt til), ef maðurinn þekti fyri fram sitt endadægur? Hvaða ofsakátína af gleði, hvaða hirðuleysi, miskunarleysi, örvílnan, ef oss væri opinberað alt, hvað oss á að kæta eður hryggja á vegferðarreisu vorri? Mundi ei sá, sem hefði vitrun um, að á morgun ætlaði vinur hans að svíkja af honum æru og velferð, bera sig að verða fyrri til í dag? Og þá yrði máske annar til daginn þar eptir, að hefna þess á sama hátt? Í einu orði: í veröldinni væri ekki lifandi, ef allir vissu fyri fram, hvað ske mundi, en nú gjörir óvissan alla varkárari, þeir láta vonina lokka sig, þeir gleðjast af henni, hversu hvikul sem hún er, og svo líður einn dagurinn eptir annan, að ætíð hugsum vjer, lánið sje að nálgast oss, og meðan erum vjer að vinna, hvað vjer getum, til að gjöra oss þess verðuga. Vjer óttumst nú þá mæðu, sem óviss er, og máske aldrei yfirdrífur, en þar með erum vjer aldrei varbúnir, heldur höfum búið oss undir að taka með þolinmæði móti andstreyminu, hvað vel kemur í hag, þegar eitthvert annað mótlæti síðar mætir oss, þó þess undirbúníngs í þetta sinn hafi ei þurft, þar vjer sleppum hjá hinu, sem vjer fyrst óttuðumst fyrir.

Sigurður. Jeg get þó ei að því gjört, prestur minn góður, að mjer sýnist mennirnir eigi um sárt að binda, að verða að gánga í þoku og myrkri, og vita ekkert, hvað fyrir sjer liggur, eða hvað lánga eða skamma stund þeir eiga í þessari óvissu að velkjast.

Prestur. Heldur þú, Sigurður minn, hann Guðmundur litli og hún Kristrún litla þarna fari mikils á mis, þó þau viti

ekki, hvað við þau á fram að koma hina vikuna? Hvað heldur þú þeim noti það, þó þeim væri sagt það?.

Sigurður. Það er alt annað, prestur minn góður, því þau eru ei komin til vits og ára, þau hvorki vita, hvað gott og þjenanlegt er, eða þeim óholt og skaðlegt, og þar til hefur guð gefið þeim góða foreldra, sem eru á lífi, sem sjá til, að þau ekkert bresti, og að vel fari um þau.

Prestur. Eingu meira vit höfum við mennirnir á því, sem oss er bezt, ef við sjálfir ættum að skapa okkar gæfu, en við höfum þar á mót þann bezta, alvitran og almáttugan föður, sem hefur gefið okkur leyfi til að vona upp á sig, að kasta allri vorri áhyggju upp á sig, þar eð honum sje umhugað um okkur. Hann heimtar einasta af oss, að vjer skulum elska sig, og kappkosta að vera hlýðnir, þá skuli oss alt annað gott tilleggjast, því þeim skuli allir hlutir þjena til hins bezta, og verða að góðu, sem hann elska. Æ, þá huggun, æ, þá gleði, í því trausti megum vjer kvöld hvert ugglaust út af sofna, í því trausti glaðir á hverjum morgni upp aptur standa. Allri vorri áhyggju megum vjer kasta upp á vorn gæzkuríka föður, því þó hann hirti oss, þó hann sendi oss mótlæti, þá bæði gefur hann oss krapta til að bera það, hann skamtar það, svo það verði ei of þúngbært, og lætur það þar að auk þjena oss til góðs! Nú, vor ljúfi lausnari Jesús Kristur, þjer og þinni forþjenustu eigum vjer alt þetta, alt gott að þakka, nú er guð vor náðugur faðir, því megum vjer glaðir enda þetta umliðna ár, á hverju vjer höfum reynt svo margfalda og stóra guðs mildi, glaðir megum vjer byrja tilkomanda árið, glaðir lifa, glaðir líða, glaðir deya, því vjer vitum nóg, þegar vjer þurfum ei að efast um, að guð er vor vinur, sem elur önn fyrir oss, og loksins leiðir oss í síns dýrðarríkis eilífu sælu. Segjum þá öll saman það væntanlega ár velkomið, þó ei vitum við, hvað oss á að tilfalla á því, og syngjum hvert með öðru:

*Alt mitt ráð til guðs jeg set, o. s. fr.*